Sjötta ár. 1843. Sjöunda ár. 1844.

# Fjölnir

1893



Grimur Thomsen

Ljósprentað í Lithoprent

Útgef: Lithoprent 1944

# Fjölnir



Jónas Hallgrímsson

Ljósprentað í Lithoprent

# FJÖLNIR.

## ÁRRIT HANDA ÍSLENDÍNGUM.

"Gjefið út"

af

NOKKRUM ÍSLENDINGUM.

Sjötta ár.

KAUPMANNAHÖFN.

Prentað hjá J. D. Kvisti, bóka-prentara og nótna.

1843.

# IFIRLIT EFNISINS.

Bls.

Bls.



---



# TÓMAS SÆMUNZSON.



Það er siður á landi voru, þegar merkjismenn látast, að minnast við útför þeírra á hið merkasta, sem firir þá hefir komið og sjálfir þeír afrekað á lífsins leíd; eru það kallaðar æfisögur. Enn svo er um líf sumra manna, að það er svo audugt og merkjilegt, þótt ár þeírra hafi ekkji verið mörg, að ofætlan er þeím, sem bezt þekkja þá, að þeír gjeti samið slíkar æfisögur, jafnskjótt og þeím berst fregn um vinarmissinn. Höfundur þessara minníngarorða um æfi sjera Tómasar gjetur þetta með sanni sagt, því hann átti ekkji firir sjer nema eínn dag til að semja þau, af því þau áttu að verða notuð við líkræðuna og urðu að fara lángan veg. Það má því eí ætla, að þetta sje æfisaga, er oss virðist hæfa slíkum manni. Það eru að eíns nokkur minníngarorð til bráðabirða í virdíngar- og ástar-skjini við þann mann, er mestan og beztan hlut hefir átt í riti voru. Það er og ósjeð enn, hvurju hann hefir áorkað og mun áorka Íslandi til viðreístar, þótt nú sje hann undir grænni torfu. Vjer vonumst og til, að "æfisaga hans" muni eínhvurntíma seínt eða snemma fræða um það þjóð hans, sem hann vann allt firir frá því hann komst til vits og ára.

Tómas prófastur Sæmunzson er borinn í þenna heím á Kúhóli í Austur-Landeíum 1807. Foreldrar hans voru þau Sæmundur bóndi Ögmunzson og Guðrún Jónsdóttir, og eru þau bæði hjón þjóðkunn að höfðíngskap og hvurs-konar framkvæmd og atgjervi, er príða má stjett þeírra. Tómas ólst upp í föðurhúsum þángaðtil hann var 15 vetra; á því tímabili hefir Sæmundur flutt sig að Eívindarholti undir Eíafjöllum, og mun um alla þá stund lítið hafa orðið af bóknámi Tómasar fremur enn hvurs annars bóndasonar; enn hinsvegar sá hann jafnan búnaðarháttu eínhvurs hins bezta búmanns á landinu, þar sem faðir hans var, og má af því skilja hvursu það mátti verða, að hann síðarmeír á ótrúlega stuttum tíma gat kjinnt sjer eíns ágjætlega búnaðarháttu og búskaparástand lanz vors, eíns og rit-gjörðir hans eru sumar ljósastur vottur um. Enn er hann var 15 vetra, kom faðir hans honum til kjennslu að Odda til Steíngríms prófasts Jónssonar, sem nú er biskup. Þar var hann 3 vetur undir handleíðslu hins ágjætasta manns og í svo miklu ástfóstri, að sjera Tómas minntist þess jafnan með þakklátsemi, enda hefir honum og auðnast að halda óskjertri virðíngu hans allt til þessa dags Enn er herra Steíngrímur varð að fara erlendis vetrarlángt að taka biskupsvígslu í Danmörku, kom hann Tómasi í Bess-astaða-skóla; var hann þá svo lángt kominn í skólalærdómi, að hann settist í efra bekk, og var útskrifaður að þriggja ára fresti. Þegar í skóla mátti sjá vott þeírra skapsmuna og hugarfars, er síðan leíddu hann til svo mikjilla fram-kvæmda, að fá eður eíngi eru dæmi til á landi voru um svo stuttan aldur. Hann var þá ákafamaður í gjeði, kappsamur og framkvæmdarsamur, og stórvirkur og fljót-virkur og ifirtaks ráðagóður hvað sem í skarst. Ekkjert var honum leíðara enn leti og lígji og allskonar ránglæti, og vildi hann af öllu abli brjóta það allt á bak aptur; fór þá stundum, eíns og opt fer um slíka menn, að hann þótti vera nokkuð svo harðsnúinn og ráðríkur, enn allra

manna var hann einlægastur og ástúðlegastur vinum sínum. Svona var hann skapi farinn, þegar hann fór úr skóla, og breíttist það ekkji síðan að öðru leíti enn því, sem vísindi og reínsla þokuðu óðum lífsstefnu hans að því verkjinu, sem fegurst er af verkum mannanna, að efla framför og farsæld heíllar þjóðar, sinnar þjóðar og þjóðar feðra sinna. Vilji hans breítti sjer ekkji, því hann var frá upphafi — alla þá stund, sem vinir hans hafa þekkt hann — samur og jafn, hreínn og ákafur og einbeíttur, og þessi stirkleíkji vilja hans var studdur kristilegu trúartrausti, fölskvalausri guðhræðslu og ljósri sannfæríngu heímspekjilegrar íhugunar, og þessi stirkleíkji gjörði sjera Tómas að slíkum manni sem hann var; því þótt hann væri maður vel gáfaður og gjæddur miklum skjilníngi, átti hann sjer þó í því tilliti nokkura jafníngja, enn nú standa allir á bakji hans. Hann var útskrifaður úr skóla vorið 1827 og fór samsumars til háskólans í Kaupmannahöfn; gjekk hann þá um haustið undir hið firsta lærdómspróf með lofi (laudabilis) og ári seínna leísti hann af hendi með sama vitnisburði hið annað lærdómspróf, sem almennt er kallað hið heímspekjilega. Þeír sem um þessar mundir þekktu hann í Kaupmannahöfn eður hafa skrifast á við hann, vita vel með hvílíkum fögnuði hann settist að brunni vísindanna og safnaði sjer á stuttum tíma auðlegð nitsamrar þekkjíngar, og einkum svo ljósu ifirliti ifir samband hinna margbreíttu vísinda sín í milli, að hann frá þessu tímabili hafði fillilega áttað sig í hinu ósínilega ríkji skjinseminnar. Um vorið 1829 kom hann aptur að vitja fósturjarðar sinnar snöggva ferð. Bar þá svo við, að nokkur kritur kom meðal hans og einhvurs af Reíkjavíkur kaupmönnum; mun það vera nærri sanni, að það hafi í firstu risið af orðkjeppni um verzlunina. Þetta olli því, að Tómas varð áskjinja um, að skjipráðendur í Reíkjavík hefði tekjið sig saman um að sinja honum fars til Danmerkur. Þá snjeri hann við, og fór norður um land og tók sjer far á Akureíri, og var kominn

til Kaupmannahafnar á undan þeím, er ætluðu að sinja honum fars. Þessa er því hjer gjetið, að í norðurferð þessari sá hann í firsta sinn Sigríði, dóttur Þórðar Björnssonar síslumanns í Garði, er síðar varð kona hans, og svo vegna hins, að vera má þetta atvik hafi orðið tilefni til að hann fór að íhuga verzlunarefni lanz vors firr og grandgjæfilegar enn annars hefði orðið. Þegar hann var kominn aptur til háskólans, fór hann að iðka guðfræði, leísti af hendi embættispróf í guðfræðinni rúmum tveím árum seínna í janúarmánuði 1832, og fjekk þá sem firri lofsverðan vitnisburð að samhljóða atkvæðum prófsdómenda. Seínna hluta þessa vetrar notaði hann til undirbúníngs undir ferð sína um hin merkustu lönd Norðurálfunnar. Brauzt hann í þetta firirtækji með hinni mestu atorku, og hafði ímisleg vandræði við að stríða, áður því gjæti orðið framgjeíngt. Aðaltilgángur þessarar ferðar var að kjinna sjer ástand og siðu hinna frægstu þjóða og vísustu, bæði til að fræðast sjálfur og til að gjeta borið það síðan allt saman við ástand og siðu Íslendínga — þeírra er ferðin í raun rjettri var farin öll firir. Þessa ferð sína hóf hann um vorið 1832; stóð hún ifir í tvö ár; fór hann víða um lönd allt úr Danmörku og suður í Míklagarð, og irði hjer of lángt frá því að seígja, enda hefir hann og ritað ferðabók sína, er margjir munu æskja að sjá prentaða. Enn nú verður hjer að gjeta þess, sem næst er, því fullirða má það hafi verið undirrót þess missis, sem nú er harmaefni vort. Svo bar við, að þegar Tómas átti vetrarsetu í Parísarborg á Frakklandi, vetrinn 1833—1834, varð hann ifirkominn af brjóstveíkji; kjennir hann það sjálfur breítíngu á loptslagji og fjárskorti, sem olli því, að hann gat ekkji veítt sjer hæfilega aðbúð. Um þessar mundir, þegar hann lá dauðvona í fjarlægu landi, hugsaði hann samt minna um sjálfan sig enn ættjörðu sína. Þetta votta ljóslega brjef þau, er hann þá ritaði til vina sinna til Kaupmannahafnar. Þegar vorið kom, hresstist hann svo, að hann gat

aptur leítað heím á leíð og kom til Danmerkur í maímánuði. Þá veítti konúngur honum fám dögum síðar Breíðabólstað í Fljótshlíð. Hann fór samsumars út til Íslanz, og sá aptur ættjörðu sína eptir 5 ára burtuveru. Um haustið gjekk hann að eíga heítmeí sína, er áður er nemd, og sat hann þann vetur á Garði í Aðalreíkjadal. Á næstkomanda vori tók hann prestvígslu af kjennara sínum og vini herra Steíngrími biskupi og settist á Breíðabólstað. Var hann þá um sama leíti kjörinn prófastur í Rángárþíngji. Þetta var um vorið 1835. Nú eru síðan liðin 6 ár. Það er stuttur tími og ómerkur í æfi margra manna, enn mikjið hefir Tómas lifað og afrekað á þessum 6 árum. Ritgjörðir hans eru margar og merkar, prentaðar og óprentaðar; embættismeðferðin frábær og heímilislífið allt merkjilegt. Enn að lísa því öllu þirfti að bíða rósamari stundar, þegar saknaðarbeískjan deífist. Hjer er því að eíns sagt, að með þessum manni er oss horfið hið fegursta dæmi framkvæmdar og ættjarðarástar. Enn því seígji jeg horfið? Það er til og verður til um lángar aldir, og nú er það oss næst, því eíngji veít hvað átt hefir firr enn misst er.

---

Þessar eru ritgjörðir sjera Tómasar, sem prentaðar eru:

1. Island fra den intellectuelle Side betragtet. Kjöbenhavn 1832.
2. Í Fjölni ár 1835: Formálinn og Úr brèfi frá Íslandi.
3. — — 1836: Eptirmæli ársins 1835.
4. — — 1837: Framhald æfisögu Þ. Böðvarssonar, líkræða eptir hann og Eptirmæli ársins 1836.
5. — — 1838: Eptirmæli ársins 1837.
6. — — 1839: Um fólksfjölgunina á Íslandi, Um bókmentirnar íslenzku og Eptirmæli ársins 1838.

7. Í Búnaðarriti suðuramtsins húss- og bústjórnarfèlags, 1. B. 1. H.: Um bigging jarða, meðferð og úttektir. 1839.
8. Fjölnir og Eineigdi Fjölnir. 1840.
9. Þrjár Ritgjörðir. Kaupmannahöfn 1841.
10. Ræður við ims tækifæri. Videy 1841.

---

Svo kvað Bjarni amtmaður [1].

Þú, sem firir skjemstu skauzt úr híði,
er fótum horfir að fjöllum Eía,
taktu þjer orlof hjá tíri gjimla
og auktu abl alþíngjis-vini.
Hans undir rætur hverfðu túngu,
svo meígji hann mæla af megni þínu,
að slóðir áa hinir íngri virði;
að rísi þjóðarþíng á þíngvelli.

[1]) Hann fór á nemdarfund í Reíkjavík, og mun þetta vera síðast ljóðmæla hans.

# KVÆÐI.

## ALÞÍNG HIÐ NÍA.

(1840.)

Hörðum höndum
vinnur hölda kjind
ár og eíndaga;
siglir særokjinn,
sólbitinn slær,
stjörnuskjininn stritar.

Traustir skulu hornsteinar
hárra sala;
í kjili skal kjörviður;
bóndi er bústólpi,
bú er landstólpi,
því skal hann virður vel.

Fríður toríngji
stíri fræknu liði,

þá filgjir sverði sigur:
illu heílli
fer að orustu,
sá er ræður heímskum her.

Sterkur fór um veg,
þá var steíni þúngum
lokuð leíð firir;
ráð at hann kunni,
þó ríkur sje,
og hefðu þrír um þokað.

Bera bí
bagga skoplítinn
hvurt að húsi heím;
enn þaðan koma ljós
hin logaskjæru
á altari hins göfgva guðs

---

Vissi það að fullu
vísir hinn stórráði.
Stóð hann upp af stóli,
studdist við gullsprota:
"Frelsi vil eg sæma
framgjarnan líð,
ættstóran kjinstaf
Ísafoldar."

"Ríða skulu rekkar,
ráðum land biggja,
fólkdjarfir firðar
til fundar sækja,
snarorðir snillíngar
að stefnu sitja;

þjóðkjörin prúðmenni
þíngsteínum á."

"Svo skal hinu únga
Alþíngji skjipað,
sem að sjálfir þeír
sjer munu kjósa.
Gjöf hefi eg gjefið,
gagni sú leíngji
foldu og firðum,
sem eg fremst þeím ann." [1]

---

[1]) Það var nú þá; nú er súngjið svona:
Drottinn gaf og hann drottinn tók,
drottins nafnið lofað sje.
Eínatt það mjer indi jók,
eg er gjerður úr steíni og trje;
seinast, þegar jeg sá í gjær
sannlega komna háðúng nær
landa mína — jeg lifði samt.
lítið er lítið, og stutt er skammt.

Og lifði vel —. og líst það sje
löglegt verk, þó að 14 manna
þjóðina mína hneppi í hlje;
hún á að vera þrælafans,
og þeír sem að hittu' á þenna veg,
þeír eru sigldir einsog jeg,
utan þetta einn eða svo,
og ávið hina suma tvo.

Hafðu, bóndi minn! hægt um þig
hvur hefir skapað þig í kross;
dirðin vor þegar sínir sig,
þjer sæmir bezt að lúta oss.
Á alþíngjinu áður var
ekkji neítt nema höfðíngjar;

Þögn varð á ráðsteinu,
þótti ríkur mæla,
fagureígur konúngur
við fólkstjórum horfði;
stóð hann firir stóli,
studdist við gullsprota,
hvurgji gjetur tignarmann
tíguglegri.

Sól skjín á tinda.
Sofið hafa leíngji
dróttir og dvalið
draumþíngum á.
Vakji vaskjir menn,
til vinnu kveður
gjiftusamur konúngur
góða þegna.

---

bíddu nú við, og sjáðu senn:
svona á það að verða enn.

Taktu nú ekkji orð mín samt,
sem illu gamni fagni jeg,
þegar að svo af skornum skamt
skjílaus rjetturinn kjemst á veg.
Hefndardagurinn eptir er,
"enn eíngjinn veít nær þetta skjer";
samt sem að áður held eg hitt,
hvur muni seínast jeta sitt.

## GRÁTITLÍNGURINN.

Úngur var eg og úngjir
austanum land á hausti
laufvindar bljesu ljúfir,
ljek eg mjer þá að stráum.

Enn hretið kom að hvetja
harða menn í bilsennu,
þá sat eg enn þá inni
alldapur á kvennpalli.

Nú var trippið hún Toppa,
tetur á annan vetur,
fegursta hross í haga,
og hrúturinn minn úti.

Þetta var allt, sem átti
úngur dreíngur, og leíngji
kvöldið þetta hið kalda
kveíð eg þau bæði deíði.

Dagjinn eptir var aptur
uppstitt, svo að menn hittu
leíð um snjófgar slóðir
storðar, og frost var orðið.

Enn það, sem mest eg unna
úti — Toppa og hrútur —
óvitríngarnir úngu
eínmana kuldann reína.

Sekur var eg, og sækja
sjálfsagt hlaut eg með þrautum
aleígu mína og ala
ötull bæði við jötu.

Hvurnig fór? Hjer eg gjarna
hjarta mannlegt um sanna,
að hvað sem hinu líður
hjartað gott skóp oss drottinn.

Jeg fann á millum fanna
í fellíng á blásvelli
lófalága við þúfu
lítinn grátitlíng síta.

Flogjið gat ekkji hinn fleígji,
frosinn niður við mosa,
augunum ótta-bljúgum
á mig skaut dírið gráa.

Hefdi eg þá sjeð mjer hefdi
hundrað Toppum og undrum
ótal hornóttra hrúta
heítið drottinn, eg votta:

Abrahams-dírðar dæmi
dreíngur í litlu gjeíngji
aldreí á Ísafoldu
eptirbreítir, enn neítar.

Kalinn dreíngur í kjælu
á kalt svell, og ljúft fellur,
lagðist niður og lagði
lítinn munn á væng þunnan.

Þíddi allvel og eíddi
illum dróma, með stilli

sem að frostnóttin firsta
festi með væng á gjesti.

Gjesti iðar! því ástar
óhvikul trigð til biggða
vorra leíðir á vorum
vegarslínga titlínga.

Lítill fugl skaust úr lautu,
lofaði guð mjer ofar,
sjálfur sat eg í lautu
sárglaður og með tárum.

---

Feldur em eg við foldu
frosinn og má eí losast;
andi guðs á mig andi,
ugglaust mun eg þá huggast.

---

## Á SUMARDAGSMORGUNINN FIRSTA.

(1842.)

Þökk sje þjer, Guð! firir þenna blund,
er þá jeg um síðstu vetrarstund;
hann hressti mig, og huga minn
huggaði firir máttinn þinn;
nú hefir sumarsólin skjær
sofnaðan þínum fótum nær
vakjið mig, svo að vakni þín
vegsemdin upp á túngu mín.

Höfundur, faðir alls, sem er
um alheímsgjeíminn hvar sem fer,
þú, sem að skapar ljós og líf
landinu vertu sverð og hlíf;
mirkur og villu og ligalið
láttu nú ekkji standa við,
sumarsins góða svo að vjer
sannlega njótum rjett sem ber.

Vorblómin, sem þú vekur öll
vonfögur nú um dal og fjöll,
og hafblá alda' og himinskjin
hafa mig leíngji átt að vin.
Leífðu nú, drottinn! enn að una
eítt sumar mjer við nattúruna;
kallirðu þá, eg glaður gjet
gjeíngið til þín hið dimma fet.

# ÁSTA.

Ástkjæra, ilhíra málið
og allri rödd fegra!
blíð sem að barni kvað móðir
á brjósti svanhvítu;
móðurmálið mitt góða,
hið mjúka og ríka,
orð áttu enn eins og forðum
mjer indið að veíta.

Veíztu það, Ásta! að ástar
þig elur nú sólin?
veíztu að heímsaugað hreína
og helgasta stjarnan
skjín þjer í andlit og innar
albjört í hjarta
vekur þjer orð, sem þjer verða
vel kunn á munni?

Veíztu að lífið mitt ljúfa
þjer liggur á vörum?
fastbundin eru þar ástar
orðin blessuðu.
"Losa þú, smámeí! úr lási"
lítinn bandíngja;
sannlega sá leísir hina
og sælu mjer færir.

## ANDVÖKUSÁLMUR.



Sveí þjer andvakan arga!
uni þjer hvur sem má.
Þú hefir mæðu marga
mirkurstund oss í hjá
búið með böl og þrá,
fjöri og kjark að farga.
Fátt verður þeím til bjárga,
sem nóttin níðist á.

Mirkrið er manna fjandi,
meíðir það líf og sál,
sídimmt og síþeígjandi,
svo sem helvítisbál
gjörfullt með gjis og tál.
Veít jeg að vondur andi
varla í þessu landi
sveímar um sumarmál.

Komdu dagsljósið díra,
dimmuna hrektu brott;
komdu heímsaugað híra,
helgan síndu þess vott,
að ætíð gjörir gott,
skjilnínginn minn að skjíra,
skjepnunni þinni stíra;
jeg þoli ekkji þetta dott.

Guðað er nú á glugga,
góðvinur kominn er
vökumanns hug að hugga;
hristi jeg nótt af mjer,
uni því eptir fer;
aldreí þarf það að ugga
aumlegan grímuskugga
ljósið íburtu ber

## SÖKNUÐUR.

(Breitt kvæði.)

Man eg þig, mey!
er hin mæra sól
hátt í heiði blikar;
man eg þig, er máni
að mararskauti
sígur silfurblár

Heir' eg himinblæ
heiti þitt
anda ástarrómi;
fjallbuna þilur
hið fagra nafn
glöð í grænum rinda.

Lít eg það margt,
er þjer líkjast vill
guðs í góðum heimi.
brosi dagroða,
blástjörnur augum,
liljur ljósri hendi.

Hví hafa örlög
okkar beggja
skjeiði þannig skipt?
hví var mjer ei leist
lífi mínu
öllu með þjer una?

Laungum mun eg,
firr hin ljósa mind
mjer úr minni líði,
á þá götu,
er þú gánga hlítur,
sorgaraugum sjá.

Sólbjartar meíar,
er eg síðan leít,
allar á þig minna;
því gjeíng eg eínn
og óstuddur
að þeím dimmu dirum.

Stið eg mig að steíni,
stirðnar túnga,
blaktir önd í brjósti;
hnígjið er heíms ljós,
himinstjörnur tindra —
eína þreí' eg þig.

---



# BJARNI THÓRARENSEN.



Skjótt hefir sól brugðið sumri,
því sjeð hef eg fljúga
fannhvíta svaninn úr sveítum
til sóllanda fegri;
sofinn er nú saungurinn ljúfi
í svölum fjalldölum,
grátþögull harmafugl hnípir
á húsgabli hvurjum.

Skjótt hefir guð brugðið gleði
góðvina þinna,
ástmögur Íslanz hinn trausti
og ættjarðar blóminn!
Áður sat ítur með glöðum
og orðum vel skjipti,
nú reíkar harmur í húsum
og hrigð á þjóðbrautum.

Hlæir mig eítt það að áttu
því uglur eí fagna,
ellisár örninn að sæti
og á skjildi horfa
hrafnaþíng kolsvart í holti
firir haukþíng á bergji;
flogjinn ertu sæll til sóla
þá sortnar hið neðra.

Glaðir skulum allir að öllu
til átthaga vorra
horfa, þá hjeðan sá hverfur
oss hjarta stóð nærri;
veít eg þá heímtir sjer hetju
úr harkji veraldar
foríngjinn tignar, því fagna
filkjíngar himna.

Kjættir þú margan að mörgu
— svo minnst verður leíngji —
þíðmennið, þrekmennið glaða
og þjóðskáldið góða!
Gleðji nú guð þig á hæðum
að góðfundum anda,
friði þig frelsarinn líða.
Far nú vel, *Bjarni!*



## Sjera ÞORSTEÍNN HELGASON.

Hvarmaskúrir harmurinn sári
harðar æsti minnst er varði;
vakna þeír eí, enn sitja og sakna,
seígjast eí skilja hvað drottinn vilji;
þegar í á und ísi bláum
ástarríka hjartað í líkji
friðað og kalt er sofið, þeím svíður,
sakna og trega — enn eíngji vaknar!

Veít þá eíngji að eían hvíta
átt hefir daga, þá er fagur
frelsisröðull á fjöll og hálsa
fagurleíptrandi gjeíslum steípti;
veít þá eíngji, að oss firi laungu
aldir stofnuðu bölið kalda,
frægðinni sviptu, framann heptu,
svo föðurláð vort er orðið að háði.

Veít þá eíngji að eían hvíta
á sjer enn vor, ef fólkjið þorir
guði að treísta, hlekkji hrista,
hlí'a rjettu, góðs að bíða;
fagur er dalur og fillist skógji
og frjálsir menn, þegar aldir renna;
skáldið hnígur og margjir í moldu
með honum búa, — enn þessu trúið!

Veít þá eíngji að eían hvíta
átt hefir sonu fremri vonum,
hugðu þeír mest á fremd og frægðir,
friðir og úngjir hnigu í stríði;
svo er það enn, og atburð þenna
eínn vil eg telja af hinum seínni:
Vinurinn fagri oss veík af sjónum
að vonum, því hann var góður sonur.

Og góður sonur gjetur eí sjena
göfga móður með köldu blóði
viðjum reírða og meíðslum marða,
marglega þjáða, og fá eí bjargað.
Guð er á himnum heíma faðir
og hreldra barna, hvað sem veldur.
Særði bróðir! sígjinn í værðir,
hann sá þig glöggt unðir ísi bláum.



## Sjera STEPHÁN PÁLSSON.

"Móðir og faðir
mjúk og ástríkur
ifirgáfu þig
á æskuskjeíði",
enn guð þín gjeímdi
og gjæðafjöld,
lán og lífsfögnuð
ljúflega veítti.

Treístir þú og fólst þig
hans triggri hönd,
úngur þjónn
hans orða heílagra;
nú ertu leíddur
lífsbraut hreína
alla að morgni
eílífðardags.

Hvað er skammlífi?
skortur lífsnautnar,
svartrar svefnhettu
síruglað mók;
opt dó áttræður
og aldreí hafði
tvítugs manns
firir tær stígjið.

Hvað er lánglífi?
lífsnautnin frjófga,
aleblíng andans
og athöfn þörf;
margopt tvítugur
meír hefir lifað
svefnugum segg,
er sjötugur hjarði.

Vel sje þjer vinur,
þótt víkjirðu skjótt
Frónbúum frá
í fegri heíma.
Ljós var leíð þín
og lífsfögnuður;
æðra eílífan
þú öðlast nú.

Opt kvaðstu áður
óskarómi
heímfisnar ljóðin
hugum þekku;
vertu nú sjálfur
á sælli stund
farinn í friði
til föðurhúsa.

## DAGRÚNAR-HARMUR.

(Die Kindesmörderinn. *Schiller*.)

Heíri eg að kirkju
klukkur dimmgjalla,
vísir er runninn
vegu sína alla.
Sje það svo — sje það
svo, í guðs nafni!
líkmenn! leíðið mig
á legstað aftöku.

Kveð eg iður gjeíslar
guðs sólar,
flí eg iður frá
í faðm dimmrar móður;
kveð eg þig blómæfi
blíðra ásta,
meí sem margblindar
munaðs töfrum.

Kjissi eg þig hinstum
kossi skjilnaðar,
Veröld, ó veröld!
væti jeg þig tárum;

sætt var eítur þitt,
er það nú goldið,
eíturbirla
úngra hjartna!

Sat jeg firr hvítbúin
sakleísis klæði,
rauðum reífuðu
rósa böndum;
brostu í ljósu
lokka safni
fögur blóm;
þá voru friðardagar.

Hræðilegt, hræðilegt!
helvítis fórn
situr enn í hvítu
sakleísisklæði;
enn í hinna rauðu
rósa stað
hrafnsvart líkband
er að höfði snúið.

Grátið mig, meíar!
er guð veítti
sakleísis
síns að gjæta;
þeím er hin mikla
móðir ljeði
abl til að kjefja
ólgu veíks hjarta.

Mannlega hrærðist
hjarta mitt áður,
nú skal mjer blíða þess
banasverð vera.

Fláráðum manni
í faðm eg hneíg;
dó þar Dagrúnar
digð í tómi.

Nú er eg úr höggorms
hjarta slitin,
þess er aðra
ástum glepur;
veít eg hann brosir
og veígar kjís,
meðan eg gjeíng
til grafar minnar.

Leíkur hann að lokkum
ljósrar meíar,
kjassmáll og kjissir
og kossa þiggur,
meðan að bunar
blóð mitt únga
á hörðum höggstokkji
hálsbenjum úr.

Friðþjófur fagri!
á fjarlægri strönd
duni þjer Dagrúnar
dauðahljómur,
gjalli ógnelfdar
um eíru þjer
saungdimmar bjöllur
úr sálarhliði.

Svo þá af mjúkum
meíar vörum
ástar orð
þjer unað færa,

særi hann harðri
helvítis und
indisblóm ikkar,
svo þau öll hjaðni.

Hrærir þig að eíngu
harmur Dagrúnar?
svívirt meía?
svikarinn vondi!
barn okkar beggja?
eg ber það undir hjarta;
allt sem vargsvánga
væta mætti tárum.

Siglir hann, siglir!
svífur skjip frá landi,
grátþrotin augu
grimmum manni filgja;
fláráður heílsar
á fjarlægri strönd
heítmeí nírri.
Svo er hjörtum skjipt.

Barnúngjinn blíði
hjó á móður skauti,
ástfalinn úngri
algleímis værð;
brostu björt augu
bláfögur móti
móðuraugum
morgunrósar.

Og ástfagur
allur svipur
auma margminnti
á mind ins horfna;

varpar hann í brjóst
vesælli móður
ástar óviti
og örvæntíngar.

"Hermdu mjer, kona!
hvurr er faðir minn?"
svo spir en þögla
þrumurödd ómálgans;
"Hermdu mjer, kona!
hvurr er maður þinn?"
hló við helvíti
í hjarta mínu.

"Skjelfíng! ó skjelfíng!
skal til háðúngar
föðurlaus sonur
að föður spirja?
Bölva muntu
þínum burðardeígji,
saurlífissonur!
ó svívirðunafn!'

"Brennur mjer í hjarta
helvítis glóð,
eínmana móður
í alheími víðum;
sit eg síþirst
að sælubrunni,
er eg aldreí má
augum líta."

"Æ! því eg bligðast
barn mitt að sjá;
rifjar upp rödd þín
raunir allar mínar,

barn! og úr blíðu
brosi þínu
helörfar harðar
á hjarta mínu standa."

"Helvítis kvöl
er mjer hann að þrá;
vítiskvöl verri
verða þig að skoða;
vondir eru kossar
vara þinna,
hans er af vörum
mjer að hjarta streímdu."

"Eíðar hans allir
í eírum mjer hljóma —
meíneíðar allir
margfaldlega —
allir um eilífð!" —
Andskotínn þá
þreíf mèr þjófshönd lífs,
að þjakaði eg sini.

"Friðþjófur! Friðþjófur!
á fjarlægri strönd
elti þig vofan
hin ógurlega,
hrífi þig hvervetna
helköldum greípum.
svipti þjer sárlega
úr sælu draumi."

"Stari þjer í augu
úr stjörnum skjínandi
helbrostið auga
hnígjins sonar;

elti þig ógnmargt
um alheím víðan,
hneppi þig burtu
frá himindirum."

Sjáið og skiljið!
sonur mjer að fótum
dauðsærður lá
og dreíra roðinn;
sá eg blóð blæða,
blæddi þá eí minnur
fjör úr æðum
fáráðrar móður.

Harðlega knúðu
hurðir mínar
dólgar díblissu;
dimmt var mjer í hjarta,
flítta eg mjer feígjin
í faðmi dauða
sálarbruna
sáran að slökkva.

Friðþjófur fagri!
faðirinn góði,
mildur miskunar,
mannkjindum vægjir;
bið eg þann föður
þjer firirgjefa,
sindum særð,
sem eg sjálf það vil.

Gjefa vil eg jörðu
grát minn og harm,
hemd mína alla
og hjarta-þúnga!

Nú hef eg ljósan
loga kjindtan
fórn að færa,
sem eg fremsta má.

Vel er og vel er!
vafin eru loga
brjef hans, og eiðar
eldi gjefnir;
hátt loga kossar
heitir og sætir!
Hvað var mjer á foldu
forðum kjærra!

Trúið þjer ei iðar
æskublóma,
aldreigji, sistur!
eiðum manna.
Fegurð varð að falli
farsæld minni;
bölva verð eg henni
á blóðstöð aftöku.

Hvurt er þjer nú, böðull!
húngur í augum?
Bregðið mjer bráðlega
bandi firir sjónir.
Hikarðu, böðull!
blómknapp að slá?
náfölur böðull!
neittu karlmennsku.

---

## MEÍARGRÁTUR.

(Framkvæðið er eptir *Schiller:* "Der Eichwald brauset".)

Dunar í trjálundi, dimm þjóta skjí,
döpur situr smámeía hvamminum í;
bilgjurnar skjella svo ótt svo ótt,
öndinni varpar á koldimmri nótt
brjóstið af grátekka bifað.

"Heímur er tómur og hjartað er dautt,
helstirðnað brjóstið og laungunarsnautt.
Heílaga [1]! kalla mig hjeðan í frá,
hef eg þess notið sem jarðlífið á,
því eg hefi elskað og lifað."

""Tárin að ónítu falla á fold,
fá hann eí vakjið er sefur í mold;
seígðu hvað hjartanu huggunar fær,
horfinnar ástar er söknuður slær;
guðsmóðir vill þjer það-veíta.""

"Tárin að ónítu falli á fold,
fá' hann eí vakjið er sefur í mold.
Mjúkasta hjartanu huggunin er,
horfinnar ástar er söknuður skjer,
á harminum hjartað að þreíta."

---

[1]) María, guðsmóðir.

## ALHEÍMS-VÍÐÁTTAN.

(*Hugmindin er eptir Schiller.*)

Eg er sá gjeísli,
er guðs hönd skapanda
firr úr gjinnúnga
gapi stökkti;
flíg eg á vinda
vængjum ifir
háar leíðir
himinljósa.

Flíta vil eg ferðum,
fara vil eg þángað,
öldur sem alheíms
á eðli brotna,
akkjeri varpa
firir auðri strönd
at hinum mikla
merkjisteíni
skapaðra hluta
við skaut alhimins.

Sá eg í úngum
æskublóma
stjörnur úr himin-
straumum rísa,
þúsund alda
að þreíta skjeíð
heíðfagran gjegnum
himinblámà.

Sá eg þær blika
á bakji mjer,
er eg til heima
hafnar þreítti;
ókjirt auga
sást allt um kríng;
stóð eg þá í gjeími
stjörnulausum.

Flíta vil eg ferðum,
fara vil eg þángað,
Ekkjert sem ríkjir
og Óskapnaður;
leíð vil eg þreíta
ljóss vængjum á,
hraustum huga
til hafnar stíra.

Gránar í gjeími,
gjeísa jeg um himin
þokuþúngaðan
þjótandi fram;
dunar mjer á bakji
dökknaðra sóla
flugniður allra,
sem fossa deíandi.

Kjemur þá ófluga
um auðan veg
mjer í móti
mind farandi:
"bíddu flugmóður
ferðamaður!
heírðu! hermdu mjer,
hvurt á að leíta?"

""Vegur minn liggur
til veralda þinna;
flug vil eg þreita
á fjarlæga strönd,
að hinum mikla
merkjisteíni
skapaðra hluta
við skaut alhimins.""

"Hættu, Hættu!
um himingjeíma
ónitisferð
þú áfram heldur;
vittu að firir
framan þig er
Ómælisundur
og endaleísa."

""Hættu, Hættu!
þú sem hjer kjemur,
ónítisferð
þú áfram heldur;
belja mjer á bakji
bláir straumar,
eilífðar ógrinni
og endaleísa.""

Arnfleígur hugur!
hættu nú sveími;
sárþreitta vængji
síga láttu niður;
skáldhraður skjipstjóri,
sköpunarmagn!
fleini farmóður
flittu hjer úr stafni.

# ÁLFAREÍÐIN.

(Eptir *Heine.*)

Stóð eg út' í túnglsljósi, stóð eg út við skóg,
stórir komu skarar, af álfum var þar nóg;
bljesu þeir á saunglúðra og bar þá að mjer fljótt
og bjöllurnar gullu á heíðskjírri nótt.

Hleíptu þeír á fannhvítum hestum ifir grund,
hornin jóa gullroðnu blika við lund:
eíns og þegar álftir af ísa grárri spaung
fljúga austur heíði með fjaðraþit og saung.

Heilsaði hún mjer Drottníngjin og hló að mjer um leíð,
hló að mjer og hleípti hestinum á skjeíð.
Var það útaf ástinni úngu, sem eg ber?
eða var það feígðin, sem kallar að mjer?

## STRANDSETAN.

(Eptir *Heine.*)



Hvítur í lopti ljúfu
líður í næturblæ
már ifir mirku djúpi,
máninn er hátt ifir sæ.

Hákall úr hafi lítur
og horfir upp að bæ,
már ifir miði grúfir,
máninn er hátt ifir sæ.

Sólin mín kvikula, kjæra!
þú kvíðir sí og æ,
mundarnær mari þú situr,
máninn er hátt ifir sæ.



## NÆTURKJIRÐ.

(Eptir *Heine.*)

Gánga gullfætt
um götur bláar
og læðast ljettfætt
ljósin uppsala;
varast smástjörnur
að vekja sofanði
foldina fögru
faðmi nætur í.

Hlustar hinn dimmi
Dalaskógur,
öll eru blöð hans
eíru grænlituð;
sefur nú Selfjall
og svarta teígjir
skuggafíngur
af skjeíðum fram.

Hvað er það eg heíri?
hljómur ástfagur
og blíðmælt bergmál
í brjósti mínu;
eru það orð
unnustu minnar,
eður sælla
saungfugla kvak?

## SÆUNN HAFKONA.



Þokan ifir vík og vogji
votu fángji þögul grúfir,
gnauðar firir svölum sandi
sjór, enn þeígja vindar ljúfir.

Báran smáa stríkur steíni,
(steínn er firir þángji bleíkur),
eins og sjer á köldum kalli
konan úng að hári leíkur.

Hvað er á vogji? hafmeí fögur!
hratt hún fer og snír að landi,
leíka firir björtu brjósti
bárur úngar sívakandi.

*Skáldið.*

Hafmeí fögur! hvaða hvaða!
hárið bleíkt af salti drípur;
vel skal strjúka vota lokka
vinur þinn, sem hjá þjer krípur.

*Sæunn.*

Djúpt á mjúkum mararbotni
marbendlar mjer reístu höllu;
híngað svam eg hafs um leíðir,
hárið er því vott með öllu.

*Skáldið.*

Hafmeí fögur! hvaða hvaða!
hönd og fótur — aldreí slíka
sá eg mind í sólarheími,
sinn þau eíga hvurgji líka.

*Sæunn.*

Eín er gjöðjan öllum fremri
áður laungu úr hafi gjeíngjin,
fljóða prídi, fíra gleði,
fegri mjer, og síðan eíngjin.

*Skáldið.*

Hafmeí fögur! hvaða hvaða!
háls og brjóst að þúsundföldu
álitlegri eru og skjærri,
enn "Albert" hjó úr steínum völdu.

*Sæunn.*

Ástarguð við brjóst mjer beígði
boga sinn í firri daga,
firirmind því fann hann eínga
fegri — það er gömul saga.

*Skáldið.*

Hafmeí fögur! hvaða hvaða!
köld er þú sem mjöll á ísi,
eíngji roði kviknar á kjinnum,
kjærum il þótt aúgun lísi.

*Sæunn.*

Bí eg undir kristall-krossi,
kaldri skjemmu straumar svala;
bleíkar eru báru dætur,
blóðið er rautt í þernum dala.

*Skáldið.*

Hafmeí fögur! hvaða hvaða!
hjartað berst og slær af mæði;
hallaðu að mjer höfði þínu,
hvíldu þig svo og þiggðu næði.

*Sæunn.*

Hjartað berst og hjartað titrar,
hjartað slær og berst af mæði,
því eg ann þjer miklu meíra,
mannsmind kjær! enn um eg ræði.

---

## UM FLÓÐ OG FJÖRU.

(Eptir *C. A. v. Schumacher*. Sbr: "skandinavisk Folkekalender for 1843".)

Á öllum þeím ströndum, er liggja við úthafið og önnur höf, þau er eíga nokkurnveígjinn frjálsa samgaungu við það, má sjá að ifirborð sjáarins hækkar á 6 stundum og liðugum 12 mínútum, og lækkar aptur á jafn laungu tímabili; fer þessum hræríngum sjáarins sí og æ fram eptir sömu röð, svo ekkji bregður stórum útaf, nema svo sje, að eínhvurjar sjerlegar kríngumstæður, t. a. m. lángvinn hvassviðri, komi af stað nokkurri óreglu. Meðan sjórinn er að hækka, köllum vjer aðfall, og þegar ifirborð hans er sem hæst, heítir flóð; aptur meðan sjórinn er að lækka, er kallað útfall, og fjara, meðan ifirborð hans er sem lægst. Í hvurt sinn, sem aðfall og útfall skjiptast á, munar ekkji til um hæð sjáarins svosem áttúng stundar; það köllum vjer háflóð og háfjöru, eður liggjanda.

Að vísu eíga vindar og veðurstaða nokkurn þátt í að auka og mínka þessar hræríngar hafsins, enn ekkji eru þær samt afleíðíng vindanna, því þótt logn sje og ládeiða og heíður himinn, skjiptast flóð og fjara á eptir hinni sömu röð og svo reglulega, að seígja má firirfram svo árum skjiptir, hvurnig þá og þá muni standa á sjáarföllum, eíns nákvæmlega og stjörnufróðir menn gjeta sagt firir mirkva á sólu og túngli.

Regla sú, sem sjáarföllin eru sí og æ viðbundin, hlítur að eíga sjer eínhvurja orsök, sem er eíns regluleg og ævinn eínsog þau. Enn til að komast að, hvur hún væri, þurfti lángan tíma til að athuga sjáarföllin, og eínkum að gjefa nákvæmar gjætur að tímabili því, er þau skjiptast á í hvurt sinn. Með þessu móti urðu fróðir menn þess vísari, að flóð og fjara eru nákvæmlega bundin við rás túnglsins í kríngum jörðina, svo að flóð mundi koma á hvurjum stað hjerumbil í sama mund og túnglið er þar í hádeígjisstað eður miðnættis (þ. e. þegar það gjeíngur ifir þess staðar hádeígjisbaug firir ofan eða neðan sjóndeíldarhríng), svo og, að ætíð verða hæst flóð með níum og niðum. Að vísu eru tímabil þessi ekkji ætíð jafn laung, enn það er samt fundið með því að telja sjer til miðlúngsleíngd margra þeírra, að flóð og fjara verða hvurt um sig tvisvar á hvurjum 24 stundum, 50 mínútum og 26,3 sekúndum, enn þetta er eínnig eínmitt jafn lángt tímabil og það, sem túnglið þarf til að komast aptur í sama hádeígjisstað, það er með öðrum orðum, túnglið kjemur á hvurjum deígji svo miklu seínna upp enn dagjinn firir. Þetta tímabil er kallað **túngldagur** á líkan hátt og sá tími, sem líður frá því sól er í hádeígjisstað og þángaðtil hún kjemur þar í næsta sinn, heítir **sóldagur** (24 stundir). Af þessu leíðir, að þegar eínhvurstaðar er hádeígjisflóð þann og þann dag, kjemur þar ekkji flóð dagjinn eptir firr enn 50 mínútum, 26,3 sekúndum seínna, eður $12^{h}$[1], 50′, 26,3″, hinn dagjinn $1^{h}$, 40′, 52,6″, þriðja dagjinn $2^{h}$, 31′, 18,9″, og svo framveígjis alltaf 50′, 26,3″ seínna á hvurjum sólarhríng. Það er auðsjeð, að hitt flóðið muni koma mitt ámillum þeírra takmarka, sem nú voru

---

[1]) h þíðir stund (hora, latínskt orð) og er þessi stafur almennt hafður í stjörnufræðisritum til að tákna með það tímabil. (′) táknar mínútur og (″) sekúndur. Talan 3, sem kjemur eptir aðgreíníngarmerkjið við 26 sekúndur, er tugabrot og þíðir þrjá tíundu hluti sekúndu.

ákveðin. Nú er það, sem áður er ávikjið, að tímabil þessi verða stundum nokkrum mínútum leingri eða skjemri enn hjer var sagt (auk þeírrar óreglu, er stormar og hafrót fá af stað komið svo stundum skjiptir); enn eínmitt þessi óregla sannar enn fremur, að túnglið ræður eínkum sjáarföllum, því það breítir og mjög mikjið hraða sínum eptir afstöðu þess við sól og jörð; og ef vjer gjefum nákvæmar gjætur að hvurjumtveggja óreglum þessum, er svo þikja vera, sjáum vjer að þeím ber nákvæmlega saman.

Þótt nú túnglið ráði mest sjáarföllum, ræður það þeím ekkji eíttsaman. Ekkji þarf annað enn gjefa gjætur að flóði og fjöru um nokkra mánuði til að taka eptir því, að þau flóð, sem verða með níu túngli og fullu, eru ætíð meíri enn hin, sem verða þegar túngl er í þverstefnu (Qvadratur) milli firsta og annars, og milli þriðja og fjórða kvartils, og má af því sjá, að sólin ræður eínnig nokkru. Ef vjer gjefum nú ennfremur gaum að sjáarföllunum og breítíngu þeírra, komumst vjer eínnig að raun um, að sjáarföllin verða því meíri, sem jörð vor kjemur nær sólu eða túngli, og miðbaugsfjærð þeírra, eður fjarlægð suður og norður frá miðbaugji, má sjer og nokkuð um þetta mál; aldreí verða því sjáarföll meíri, enn þegar sól og túngl standast svo á um ní og nið, að mirkva dregur á þau.

Í höfum þeím, sem lokuð eru að mestu eða fullu og öllu, svo sem er Eístrasalt, Miðjarðarhafið, hið kaspiska haf og önnur fleíri, verður og að vísu vart við sjáarföll, enn allsjaldan eru þau þar jafn regluleg, og aldreí jafn mikjil, eíns og við strendur úthafsins; mest verða sjáarföll á hafströndum um miðbik jarðar.

Nú seígjum vjer sjáarföll firirfram samkvæmt því, sem hjer hefir verið ávikjið, og ber því ætíð hvurutveggja saman, þegar rjett er reíknað; það er því varla efunarmál, að ástæður þær, sem reíkníngar vorir stiðjast við, sje sannar í raun rjettri, og flóð og fjara komi eínúngjis af aðdráttar-

magni túngls og sólar, er kjemur fram á höfum þeim, er hilja mikjinn hlut jarðar vorrar.




Setjum nú svo, að L (Fig. 1 a) sè miðja túngls, C miðja jarðar, Z n N m þverskurður hennar, og deplabaugurinn utan um þíði vatnið, sem hilur jörðina, þá er Z sá staður á jörðu, sem næstur er túnglinu, og N sá, sem fjærstur er því allra staða á ifirborði jarðarinnar; sá, sem stendur á staðnum Z, hefir túnglið ifir hvirfli sjer (í hvirfilstað, Zenith), enn staðurinn N er hinumeígjin jarðar beínlínis firir fótum hans (í iljastað, Nadir). Setjum ennfremur, að deplabogjinn AB sje kabli úr braut jarðarinnar kríngum sólina. Þótt nú bæði líkamstærð og þíngd túnglsins sje harla lítil að telja á við sólina, og aðdráttarmagn þeírra að því skapi, má samt túnglið sjer mikjið á jörðu hjer, því það er 4 hundruð sinnum nær oss enn sólin, og orkar því að teígja jörðina nokkuð úr leíð, svo miðja hennar C (Fig. 1 b) lendir ekkji rjett á brautinni A B, heldur á staðnum C'. Staðirnir Z C og N eru mislángt frá túnglinu L, og það er lögmál þíngdarinnar, að aðdráttarablið mínkar eptir sama hlutfalli og fjarlægð hlutanna eíkst margfölduð með sjálfri sjer, það er að skjilja: þegar vjer t. a. m. ímindum oss, að aðdráttarablið í eínhvurri tiltekjinni fjarlægð sje á við 1, og vjer tvöföldum fjarlægðina, þá er aðdráttarablið þar ekkji $\frac{1}{2}$, heldur að eins $\frac{1}{2}.2$ eður $\frac{1}{4}$ hluti; aptur ef vjer þreföldum fjarlægðina, er aðdráttarablið $\frac{1}{3}.3$ eður $\frac{1}{9}$ hluti; ef vjer ferföldum fjarlægðina, er það $\frac{1}{4}.4$ eður $\frac{1}{16}$ hluti, o. s. fr. Af þessu leíðir, að aðdráttarmagn túnglsins verður mest á staðnum Z, og minnst á staðnum N, enn á n og m verður það hjerumbil eíns og í miðju jarðarinnar C. Væri nú jörðin öll föst í sjer og samkjinja, mundi ekkji

meíga á henni sjá mismun aðdráttarablsins, því hvur hluti hennar um sig gjæti þá ekkji gjeíngjið úr skorðum, og aðdráttarmagnið mundi sína sig eíns og það hrifi á eínasaman miðju jarðarinnar C, og drægji jafnt með henni allan knöttin, sem þar er umhverfis. Enn nú er vatninu svo varið, að það er mjög kvikult og hræranlegt; aðdráttarmagnið á staðnum Z og þar íkríng má sjer því svo mikjið, að vatnið dregst þar saman og hækkar frá miðju jarðar; þar kjemur flóð, er vjer svo köllum.

Eíns fer á staðnum N og á Z, að þar verður flóð um sama leíti, þótt gagnstæður hlutur valdi, því það er þurnan aðdráttarmagnsins. Túnglið L dregur meír að sjer miðbik jarðarinnar og þá jafnframt allan hinn fasta jarðarknött, heldur enn vatnið utan um knöttinn á staðnum N, það er fjærst er túnglinu. Miðja jarðarinnar C nálgast því túnglið meír enn staðurinn N á ifirborði sjáarins, það er með öðrum orðum: það er eíns og hin fasta jörð þokjist burtu frá ifirborði vatnsins á staðnum N, svo vatnið verður aptur úr og liptir sjer þar eður vegs, svo þar verður eínnig flóð. Eíns fer það, þótt flóðið smámínkji, á öllum þeím stöðum jarðarinnar, sem liggja undir sama hádeígjisbaug, sem Z og N, eður þar, sem túnglið er í hádeígjis- og miðnættisstað. Allt annað vatn umhverfis jörðina fjarlægjir sig því minna miðju hennar, sem það er fjær hádeígjisbaug; það er með öðrum orðum: aðdráttarablið liptir því þeím mun minna. Á stöðunum n og m ber túnglið við sjóndeíldarhríng, og þar dregur túnglið vatnið að sjer með jafn miklu abli og miðju jarðarinnar C; aðdráttarmagnið breítir því ekkji í sjálfu sjer sjáarhæðinni á þeím stöðum; samt sem áður hlítur hæð sjáarins að breítast þar um sama leíti og sjórinn eíkst á Z og N; ifirborð sjáarins lækkar á n og m, því mikjill hluti vatnsmegnisins er orðinn eptir við N, og jafn mikjið er runnið til Z, svo ifirborð alls vatnsins er nú búið að fá þá mind, sem sjá er á

deplabaugnum Z′ n′ N′ m′ (Fig. 1 b). Á stöðunum Z′ og N′ er flóð, og á n′ og m′ er fjara.

Af þessu má það sjá án alls reíknings, að flóð og fjara verður að koma tvisvar á hvurju tímabili, sem líður ámilli þess, er túnglið kjemur í hádeígjisstað, svo og, að flóð kjemur alstaðar á jörðunni, þar sem túnglið er í hádeígjis- og miðnættisstað, og fjara hlítur að koma þar rúmum 6 stundum seínna, þegar túnglið nemur við sjóndeíldarhríng, það er að skjilja: þegar það kjemur upp og gjeíngur undir.

Sama er að seígja um sólina, og nú hefir verið sagt um túnglið; því eínu munar, að miklu minna ber á aðdráttarmagni sólarinnar, þótt það raunar sje miklu meira, af því fjarlægð hennar er svo afarmikjil; enn það höfum vjer áður sjeð, að flóð og fjara kjemur af því, að aðdráttarmagnið má sjer mikjið eða lítið á jörðunni, eptir því sem staðirnir á ifirborði hennar eru fjær eður nær þeím líkömum, sem að sjer draga. Meðalfjarlægð túngls frá jörðu er 51,536 mílur, og þvermál jarðarinnar er 1719 mílur; iljastaðurinn N (Fig. 1) er því $\frac{1}{30}$ fjær miðju túngls enn hvirfilstaðurinn Z, og aðdráttarmagni túnglsins munar því töluvert á báðum þeím stöðum. Meðalfjarlægð sólar frá jörðu er 20,666,800 mílna; mismunur fjarlægðanna á N og Z frá miðju jarðar er því aðeíns $\frac{1}{12000}$, og mismunur aðdráttarins harla lítill, þó eígji svo, að ekkji beri á honum.




Setjum nú, að S (Fig. 2) sje miðja sólar, og A-B kafli úr jarðbrautinni kríngum sólina; hinir stafirnir þíða hjer sama og í Fig. 1. Af því jörðin gjeíngur í hríng um sólina, mundi hvur hluti hennar vera á kasti, sem steíni sje snarað úr slaungu, og fjarlægjast hvur annann.

ef aðdráttarmagn jarðarinnar sjálfrar orkaði ekkji að halda þeím saman. Slaungukast þetta er almennt kallað **miðflóttamagn**, og er það mest á staðnum N, á C, n og m er það minna og jafnmikjið á þeim öllum, og á staðnum Z er það minnst. Þetta er gagnstætt því, sem vjer höfum áður heírt um aðdráttarmagnið, því mest er það á Z og minnst á N. Slaungukastið liptir því sjónum við N, og aðdráttarmagn sólarinnar liptir því einnig við Z, svo ifirborð þess fær þá mind, sem sjá er á deplahríngnum Z′ n′ N′ m′; sú mind er þverskurður veraldarhafsins.

Sólflóðið kjemur alstaðar á jörðu um sama leíti og þar er hádeígji eður miðnætti. Það er tvisvar í hvurjum mánuði, að afstaða túngls frá sólu og jörðu er nærfelt beín stefna, það er um ní og nið. Aðdráttarmagn sólar og túngls verður þá samtaka, og af því aukast straumar; enn þegar rúnglið er í þverstefnu, togast á sól og máni, svo sólflóð verður um sama leíti sem túnglfjara, og svo á hinn bógjinn túnglflóð um sama leíti og sólfjara. Þetta má betur sjá á mind þeírri, sem hjer er sett (Fig. 3).




Setjum svo, að S sje sólin, T jörðin og L rúnglið, og kvartilaskjipti þess við tölurnar 1, 2, 3 og 4; 1 merkjir nítt túngl eður ní, 2 firsta kvartil, 3 fullt túngl eður nið, og 4 seínasta kvartil. Nú er auðsætt, að þegar túnglið er á stöðunum 1 og 3, gjörir það flóð og fjöru um sama leíti og sólin, enn gagnstætt henni, þegar það er á stöðunum 2 og 4. Nú draga ennfremur túngl og sól í sömu stefnu með níu túngli, og það er því eíngji furða, þótt flóð verði þá mest; það köllum vjer **stórstraum**; þegar túnglið er í þverstefnum, verða minnst flóð, og er þá kallað **smástreímt**. Svo er háttað, að háflóð kjemur varla nokkurstaðar jafnskjótt og túngl er þar í hádeígjisstað, og munar það opt mörgum

stundum; þetta kjemur auðsjáanlega af því, að sjórinn þarf nokkra stund til að streíma frá n og m til Z og N. Mishæðir á sjáarbotni, straumar í höfum, strandalögunin og margt annað eíga einnig mikjinn þátt í að tálma hreífíngu úthafsins. Til þessa má telja mörg dæmi; svo er t. a. m. á Frakklanz ströndum, að mikjill tímamunur er þar á flóði og fjöru í höfnum, þótt þær hvurkji sje mjög fjarri hvur annarri nje liggji lángt frá úthafi. Við "Dünkirken" t. a. m. kjemur ekkji flóð firr enn 12 stundum seínna enn túngl hefir verið á hádeígjisbaug; við "St. Malo" (48° 39′ norðurbreíddar) kjemur það 6 stundum seínna; enn við Góðvonarhöfða er háflóð komið 1½ stundu seínna enn túngl hefir verið á hádeígjisbaug.

Vjer höfum áður sagt, að á öllum þeím stöðum, er liggja á sama hádeígjisbaug og Z og N, verði flóð og fjara um sama leíti; enn því meír og minna ber þar á sjáarföllum, sem þeír staðir eru nær eður fjær Z og N. Nú fjarlægjast aldreí sól og túngl miðbaugjinn mjög mikjið, og af því leíðir, að staðirnir Z og N, þar sem flóð verður mest, eru ætíð innan hvarfbauga (á hitabelti jarðar), og sjáarföll mínka því meír, sem nær dregur heímskautunum. Þetta sannar reínslan. Í Austurheími og við hitastrendur Vesturheíms eru sjáarföll vön að vera allmikjil, þótt ímsatvik aukji þau og ástundum annarstaðar; svo er um höfnina við "St. Malo", að fjöruborð er þar 50 fet rjett mælt upp og niður. Í Vesturhafinu eru sjáarföll miklu minni; firir Hamborgarelfu hækkar og lækkar stundum ifirborð sjáar um 25 fet; við norðurstrendur Noregs ber hvurkji á flóði nje fjöru.

---

Nú viljum vjer að síðustu heímfæra það, sem hjer hefir verið sagt um flóð og fjöru, til þeirra atburða, sem oss eru bezt kunnir og mest forvitni á að gjeta þekkt grandgjæfilega og reiknað oss til firirfram. Vjer viljum

skjíra frá, hvunær háflóð komi með níu túngli og fullu í höfnum vorum á Íslandi og við strendur lanzins, þar sem vjer þekkjum bezt til; svo skal og greína, hvað sjáarföll verði þar mest og minnst að öllum jöfnuði, eður hve mikjið sjór hækkji þar ámillum flóðs og fjöru með stórstraumi og smástraumi. — Físi nokkurn að setja á sig sjáarföll við Íslanz-strendur á fleírum stöðum enn hjer eru tilgreíndir, væri það að vísu allfróðlegt verk og í mörgu tilliti æskjilégt, og hið sama er að seígja um strauma; enn til þess þarf elju og aðgjæzlu og áreíðanlegt hádeígjismerkji eður sólskjífu, og sigurverk svo gott, að ekkji skjátli sjáanlega að minnsta kosti á tveím dagsmörkum; ennfremur þarf þvergníptan klett velmerktan í þumlúngatali við sjáarströndina, eður og staur á hagkvæmum stað merktan á sama hátt. Svo má og þess gjeta, að nákvæmlega þarf að setja á sig, hvar túngl kvikni þann dag, sem athugað er um kveíkjíngu. Ef t. a. m. túngl hefir kviknað um miðjan morgun, þá er það um sólarhádeígji orðið 3¼ gr. aptur úr, og kjemur því ekkji á hádeígjisbaug firr enn rúmum þrem mínútum seinna enn sólin, og verður því að taka tillit til þess, þegar á að fastsetja tímann, er háflóð komi á hvurjum stað með níu túngli. Aptur þegar svo stendur á, að túngl er beínt í sólstefnu eður jarðstefnu í sama mund og það kjemur á hádeígjisbaug um dag eður nóttu, það er að skjilja þegar túngl kviknar um sjálft hádeígji eður miðnætti, má telja þaðanfrá til næsta flóðs án nokkrar leíðrjettíngar.

| Nöfn. | Háflóð með níum og niðum. | | Hæðarmunur flóðsborðs og fjöru. | | Stefna flóðstraumanna | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Stundir. | Minútur. | með níum. | með niðum. | með aðfalli. | með útfalli. | |
| | | | Fet. | Fet. | | | |
| Vestmanneyar .... | 5 | - | - | - | - | - | |
| Þórshöfn firir norðan Reíkjanes ..... | 5 | 40 | 9 | 5 | n. v. | s. a. | |
| Bázendar ....... | 5 | 40 | 9 | 5 | n v. | s. a. | |
| Kjeþlavík ....... | 5 | 50 | 12 | 7 | - | - | |
| Hafnarfjörður ..... | 6 | - | 14½ | 9 | - | - | |
| Skjerjafjörður .... | 5 | 50 | 14 | 9 | - | - | |
| Reíkjavík ...... | 5 | 50 | 14 | 9 | - | - | |
| Straumfjörður .... | 5 | 30—40 | 12—14 | - | s. a. | n. n. v. | |
| Búðir ......... | 6 | 30 | 8½—10 | - | s. a. | n. v. | Óreglulegt flóð; kvöldflóðið hálfu feti hærra enn morgunflóðið. |
| Olafsvík ....... | 5 | 30 | 11 | - | - | | |
| Grundarfjörður .... | 5 | 45 | - | - | s. a. | n. v. | |
| Hafnir firir norðan Látrabjörg. Tálknafjörður | 6 | - | 11—13 | - | - | - | |
| Hafnir firir norðan Látrabjörg. Skutulsfjörður | 6 | - | 14 | 5—6 | - | - | Utanstranda ber flóðstraumurinn eður aðfallið á öllum Vestfjörðum til suðurs og suðvesturs, enn fjörustraumurinn, útfallið, til norðurs |

| Nöfn. | Háflóð með níum og niðum. | | Hæðarmunur flóðsborðs og fjöru. | | Stefna flóðstraumanna. | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Stundir. | Mínútur. | með níum. | með niðum. | með aðfalli, | með útfalli. | |
| | | | Fet. | Fet. | | | og norðausturs. Sunnanfallið leggur inn á hvurn fjörð vestan um tángana og út með hinu eistra landi, og norðanfallið aptur í gagnstæða átt suður með öllum ströndum, sem firdir liggja. |
| Siglufjörður . . . . . . | - | - | 9—10 | - | - | - | |
| Eiafjörður . . . . . . | 9 | 30 | - | - | - | - | |
| Vopnafjörður . . . . | 12 | - | 6—7 | - | - | - | |
| Loðmundarfjörður . . | - | 45 | 9 | 5 | - | - | |
| Seíðisfjörður . . . . . | 1 | - | 9 | - | - | - | |
| Skrúðurinn . . . . . . | 3 | - | - | - | - | - | |
| Eskjifjörður . . . . . | 3 | 45 | 5 | 5 | - | - | |
| Djúpivogur . . . . . . | 3 | 10 | 5 | 5 | - | - | Með stórstraumi og álanzvindi gjetur flóðhæð orðið 9—10 fet. |
| Lónið . . . . . . . . . | 5 | - | - | - | - | - | Straumarnir í röstum undan taungum á Austfjörðum liggja jafnaðarlega eptir sjáarföllum s. s. v. með aðfalli, og n. n. a. með útfalli. |

# ALMIRKVI Á SÓLU Í VÍNARBORG 8DA DAG JÚLÍMÁNAÐAR 1842.

(Eptir *Schumacker* stjörnuspekjíng. *Schumackers* Jarbuch für 1843.)

Í birjun þessa árs glæddist aptur með mjer laungun sú, er jeg hafði alið um lángan aldur, að fá að sjá almirkva á sólu, að minnsta kosti einu sinni á æfi minni. Nú þurfti jeg ekkji nema að ferðast til Vínarborgar til að gjeta sjeð svo sjaldgjæfan atburð, og konúngur veitti mjer af náð sinni fararleifi og nægjilegt skotsilfur.

Þegar jeg kom í Vínarborg, var mjer feíngjinn til umráða turn sá, er ljósbrjóturinn (Refraktor) stendur í; það er ágjæt sjónpípa áttfætt, er hinn nafnfrægji Frauenhofer hefir smíðað, og mátti jeg nota hana einn sem bezt jeg gat. Það var áður fundið með rannsóknum, að turnar háskólakirkjunnar, er stendur í grend við stjörnuhúsið, mundu bera af, svo þessi staður væri sá einn, er þaðan mætti sjá allan sólmirkvann úr stjörnuhúsinu, og því hafði herra Littrow sint mjer þá góðvild, að fá mjer þenna turn til umráða. Deígjinum firir sólmirkvann flutti hann sig sjálfur með hinar sjónpípurnar í urtagarðinn svo kallaðan, til að athuga þar þenna firirburð, ásamt nokkrum öðrum innlendum og útlendum stjörnufræðíngum. Jeg þurfti ekkji að hafa annann viðbúnað, enn láta búa til handa mjer fáein sólgler skjærri enn þau, er þar voru áður, og búa svo um, að halda mætti á þeim í hendi sjer í stað þess að festa þau á sjónpípuna, því svo voru þau hægri til umskjipta; í þeím var að sjá sólmindina næstum hvíta, svo að eins sló á hana blárri slikju.

Tvo daga á undan hafði verið skjíað lopt og regn ástundum, enn þenna dag kom sólin upp á heíðum himni. Þegar að því leíð, að sólmirkvinn skjildi hefjast, kom móða nokkur í loptið, þó ekkji svo mikjil, að ekkji mætti vel sjá til sólar. Mjer gafst færi á að sjá randir túngls og sólar nema saman, eíns nákvæmlega og orðið gat, og nota alla þá stund, sem frá því leíð og þángað til almirkvinn hófst, til að athuga þenna firirburð í kjirð og næði. Eptir því sem túnglið huldi meira hluta sólar, var að sjá sem allir litir eíddust og gránuðu, móðan í loptinu jókst æ því meír, og birtan ifir landinu varð æ skuggalegri. Ljósið eíddist ekkji á þann hátt eínsog þá dimmir af kvöldi, því kvöldbjarminn í vestrinu, sem jafnan er með gulum og rauðleítum litum, breíðir nokkurskonar glaðlegan og fagran blæ ifir jörðina; enn þetta var á annann hátt; ljósið sloknaði, litlaus grádimma lagðist ifir allt og varð æ mirkvari, svo ímind sú, sem ósjálfrátt barst mjer firir hugskotssjónir, líktist því fremur sem allur heimur væri að deía, enn að hann væri að sofna. Nú gjekk jeg inn af svölunni, þar sem jeg hafði staðið úti til að athuga þenna svipmikla firirburð, og fór að búa mig undir athuganir mínar í turninum; það var fám mínútum firr enn almirkvinn hófst. Þá var að sjá sem öskugrá þoka grúfði ifir landinu, svo rofaði að eíns í turna og þök staðarhúsanna. Þegar jeg var búinn að merkja mjer timann, sem sólarljósið hvarf á, og leít aptur í sjónpípuna, tók jeg eptir að hvítur ljósbaugur var umhverfis túnglið, og hvarf á alla vegu út í himingránann; enn jafnframt sá jeg sjón, sem jeg átti ekkji von á; það var first til að sjá eíns og rauða loga leggði út úr túnglröndinni á þrem stöðum; enn þegar jeg horfði betur á það, sá jeg að logar þessir, er svo þóttu vera, bærðust ekkji; það var líkast því sem fagurrautt ljós skjini á tindóttan jökul. Jeg gat ekkji sjeð að mind nje

hæð fjalla [1] þessara breítti sjer, og hafði jeg þó ágjæta sjónpípu og skjært sólgler, svo jeg mátti sjá allt þetta greínilega. Því var miður að það var að eíns stutt stund, sem jeg átti til að athuga þessa sjón í kjirð og næði. Almirkvinn stóð ekkji ifir nema eína mínútu og 57 sekúndur. Ef vjer nú teljum 10 sekúndur til að gá á sigurverkjið og merkja tímann, og aðrar 10, sem eíddust firir mjer af því þessi sjón kom svo flatt upp á mig, að jeg vissi ekkji í firstunni, hvurt jeg ætti að trúa sjálfum mjer, og ennfremur 20 sekúnður firr enn almirkvann drægji af, sem jeg þurfti til að athuga, hvunær hinn firsti sólgjeísli kjæmi aptur í ljós, þá er ekkji eptir nema 1¼ mínútu, sem jeg gjet með sanni sagt, að jeg hafi horft á þenna firirburð óbreíttan. Skömmu firr enn almirkvann dróg af, kom fram fagurrauð rönd á jaðar túnglsins, þar sem hinn firsti sólgjeísli átti að birtast, enn hún hvarf ásamt hinum rauðu fjöllum og ljósbaugnum, jafnskjótt sem mirkvann dróg af.

Dimman, sem var meðan sólin var hulin, var öldúngjis ólík náttmirkri. Jeg hafði raunar ljós hjá mjer í turninum til að gjeta lesið á stundamælinn, enn sonur minn, sem var út' á svölunni og athugaði þar, gat vel greínt tölur og merkji á sigurverkji sinu, þó hann væri ljóslaus. Gluggjinn á turnmæninum var ekkji stærri enn svo, að jeg sá að eíns um lítinn hluta himinhvolfsins, svo mjer var ekkji auðið að higgja að stjörnum, enn sonur minn, sem stóð undir berum himni, sá þær ekkji heldur, og líklega sökum móðunnar, sem var í loptinu, fremur enn af því, að verið hafi of bjart.

Þegar sólarljósið kom fram, var eíns og allir hlutir lifnuðu við, og miklu fljótar enn þeir síndust hafa dáið. Það var eíns og ljett væri af mjer steíni, þegar jeg sá aptur blessaðan dagjinn.

[1]) Jeg kalla það svona fjöll til að gjefa þessum firirburði eitthvurt stutt nafn, enn gjet þess jafnframt, að jeg vil ekkji með því nafni hafa sagt neítt um eðli hans.

Þetta er einföld frásaga um það, sem jeg sá. Það væri framhleipni, ef jeg færi nú þegar að leitast við að skjera úr, hvað þessar óskjiljanlegu fjallamindir muni hafa verið, og það er efamál, hvurt það muni takast, þegar búið er að safna öllum þeim athugunum, sem gjörðar hafa verið um þetta efni. Það má samt fullirða, að það hafa hvurkji verið skjí í lopthafi voru nje veruleg fjöll í túnglinu. Skjíin voru þá algjörlega í skugga túnglsins, svo á þeim gátu ekkji sjest bjartir broddar; og hitt gjetur ekkji heldur hafa verið margra hluta vegna, og því síður, sem þessar rauðu mindir voru svo miklar, að hæð þeirra jafnaðist við segstánda hluta úr þvermæli túnglsins.

---

# BÓKAFREGN.

Það er eínkjennilegt um ástand vort í bóklegum efnum, að Skjírnir, eína timaritið sem kjemur nokkurnveígjinn stöðugt á prent, hefir eíns og gjört sjer að skjildu, að telja upp á ári hvurju danskar bækur illar og góðar, þar sem hinna íslenzku er hvurgji gjetið. Þó vel gjeti verið, að dönsku bækurnar að öllu samtöldu sje miklu betri enn hinar, þá er líklega sama að seígja um bækur annarra mentaðra þjóða, og þó gjetur eíngji þeírra firir Íslendíngum, sem ekkji er heldur von, því til hvurs er að telja upp fjölda af bókum, sem eíngji skjilur? Íslenzkar bækur eru að sönnu opt og eínatt næstum eíns torskjildar og þær væri tóm danska; enn þær eru þó ætlaðar Íslendíngum, og hvur er líka sjálfum sjer næstur.

Fjölnir telur því ekkji eptir sjer að nefna þessar fáu hræður, sem koma í ljós á íslenzku í Viðeí og Kaupmannahöfn að því leíti sem vjer höfum fregnir af; og eru nú í þetta sinn taldar þær bækur, sem fæðst hafa í þenna heím síðan 1839, og er í ráði að hinu sama verði haldið framveígjis; þó hefir forstöðumaður prenthússins heíma feíngjið lausn frá að senda þær bækur í bókasafn háskólans í Kaupmannahöfn, sem koma í ljós að níu óumbreíttar áður enn tíu ár sje liðin frá hinni síðustu prentun, svo vel gjetur verið, að eítthvað af hinum eldri bókum læðist á prent í Videí án þess hjer verði þjóðkunnugt. Ekkji er heldur víst nema hjer vanti eítthvað af því, sem komið hefir siðan 1839; og biðjum vjer þá vini vora á Íslandi að gjefa oss vísbendíng um það, svo þeírra irði minnst næsta sinn.

---

I. Helgidaga Prédíkanir, Arid um kríng, Samanteknar af Arna Helgasyni, Stiptprófasti og Sóknarpresti til Garda og Bessastada, Riddara af Dannebrogen. Önnur endurbætt Utgáfa. Videyar Klaustri. Prentud á Forlag Sekretéra O. M. Stephensens, 1839. 8. VIII + 852 blss.

II. Sjø Midvikudaga Prédíkanir á Føstunni, samanteknar af Sál. Sýslumanni J. Espólín, útgéfnar á kostnad Sonar hans Síra H. Espólíns. Videyar Klaustri, 1839. 8. 111 blss.

III. Stutt Rædusnid, eda Fáeinar Hugvekjur, ætladar Prédíkurum af Pétri Péturssyni Presti til Stadastadar, og Prófasti í Snæfellsness- og Hnappadals-Sisslna Prófastsdæmi. Videyar Klaustri, 1839. 8. 52 blss.

IV. Andlegir Sálmar, orktir af Sál. Sýslumanni J. Espólín, Utgéfnir á kostnad Sonar hans Síra H. Espólíns. Videyar Klaustri, 1839. 8. 131 blss.

V. Andlegt Versa-Safn innihaldandi Missiraskipta-Hátída-Helgidaga-Kvøld- og Morgun og Dagleg Vers til gudrækilegrar Brúkunar í Heimahúsum. Videyar Klaustri, 1839. 12. 187 blss.

VI. Þrettánda, fjórtánda, fimtánda og sextánda bók af Homeri Odyssea, á íslenzku útlagdar af Sveinbirni Egilssyni, Adjúnkt. Videyar Klaustri, 1839. 8. 74 blss. (Boðsrit).

VII. Búnadar-Rit Sudur-Amtsins Húss- og Bústjórnar Félags, útgéfin ad þess tilhlutun og á þess kostnad. Fyrsta bindis fyrri deild. Videyar Klaustri, 1839. 8. 256 blss. og eín tabla.

Af því vjer erum óreíndir búmenn hjerna í henni Höfn, þá dirfumst vjer ekkji að eíga við efnið í þessari bók, enn hitt mun síður verða virt oss til framhleípni, þó vjer tilgreínum eítt eða tvö dæmi um orðfærið.

Þessi "fyrsti bæklíngur af Sudur-Amtsins Húss- og Bú-Stjórnar-Fèlags búnaðar rita safni" — sjer er hvurt nafnið! — hefir þetta orðtak (motto): ***neglectis urenda***

*filix innascitur agris*, og er orðtakjið þannig íslenzkað: "akurlendi, sem engin rækir, elur illgresi, í eldin hæf!". Þetta er nú ekkji nema eín lína, enn þó eru tvær málvillur í henni, sem eíga eíngan stað; "engin" hlítur að vera kvennkjins, og "eldin" fleírtala af eldi, og ætti því efníð í orðtakjinu að vera: að þau sáðlönd, sem eíngji kona rækjir, ali gott illgresi til fóðurs. Líka er þar nóg af öðrum eíns orðatiltækjum og þessum: "*í tilfelli af*," "ad margir af okkur aptur í dag erum hèr *mættir* í sama tilgángi," "ad *fánga* þorsk," "og adra Íslands vini og *velunnara*," "án þess *ad koma til skada*," "fram í Juli*um*". Það mun varla þurfa að gjeta þess, að orðfærið á því, sem sjera Tómas heítinn hefir samið, ber af hinu eíns og gull af eíri.

VIII. Auglýsíng um Vesturamtsins opinbera búskapar fjársjóð fyri Árin 1827 til 1839 utgéfin af stjórnendum ens sama Amtmanni B. Thorsteinson Riddara af Dannebrogen og Sýsslumanni S. Schulesen í Snæfellsness Sýslu. Videyar Klaustri, 1839. 8. 16 blss

"Eptir sem þessi bók er ekkji mjög laung, hvar um hvur og eínn gjetur sig ifirbevísað með því að lesa bókjina, eíns og vjer eínnig höldum okkur þar um ifirbevísaða, hvur sannfæríng þar við framast, að sjálf bókjin er ekkji nema tvö blöð, eíns og hún líka er samanskrifuð af vesturamtsins opinbera amtmanni, að frádreígnum síslumanni Schulesen, hvað vjer skilja þikjumst af 1stu bls. línu 21stu, samt að viðbættum þremur listum, á hvurjum eígjineígnarbænda og annarra gjafara nöfn standa skráð; svo má þó samt sem áður af áðurnemdri bók sjá og skjilja, að þar gjefast menn, jafnvel meðal vesturamtsins góðu innbúa, sem láta á prent útgánga, að okkar higgju, harla nitsamar og vel samdar ritgjörðir, ef eínhvur vildi semja þær, hvar á mót það er af þeím í bókjinni viðteíngdla lista í augum uppi, að líka mætti finna eínstaka efnaðan og rausnarlindan mann, í það minnsta sem álitinn er að vera það, hvur þó

stendur eins mikjið á bakji annarra í örlegheítum til þessarar skiptunar, sem er vesturamtsins góðu innbúa eígjin eígn, og hvar um bókjin höndlar, eins og hins vegar sumir í hinni gjeístlegu röð."

X. Adfinníng vid Eineygda Fjølnir Samantekin og útgéfin af Jóhni Hjaltalín, Dr. Medic. et Chirurgiæ, útnefndum Battallions Chirurg vid Hans Hátignar Konúngs vors eigin herlidsflock. Videyar Klaustri, 1839. 8. 28 blss.

XI. Ljódasmámunir, samt Emilíu Raunir, af Sigurdi Breidfjørd. Annar árs flokkur. Videyar Klaustri, 1839. 12[1]. 144 blss.

Þetta nafn er mikjils til of stutt, því bókjin ætti reíndar að heíta: "*Lítilfjörlegur samtíníngur af málleísum, bögumælum, dönskuslettum, hortittum, klaufalegum orðatiltækjum, smekkleísum og öðrum þess háttar smámunum, — sumt frjálst og sumu stolið af Sigurði Breíðfjörð.*" Hjer eru fáeín dæmi af hvurju firir sig.

*Málleísur og Bögumæli.* landvættur, 11[6] (í fleírtölu); intum rann, 23[1] (firir intu ranni); ølteitid, 23[10] (firir ölteítin); hepti nádum blídum, 28[13]; jór, 29[12] (firir jó); Borgargata, 23[7] (firir "Borgaragata"); hjógum, 29[17] (firir hjuggum); hættulegra (firir *hættulegar*) leit þad út, 29[4]; (þetta bögumæli er líka dönskusletta); unn, 33[19] (firir *unni*); tosa fréttir(?), 59[6]; øldi, 61[20]; Hlín (um sólina), 39[9]; lýad, 30[20]; varda, 40[8] (firir *varna*); skilja frá einhvurjum, 64[9] (firir *skjiljast við einhvurn*); þekid, 69[21] (firir *þakjið*); láta hærdum manni lygdir einar ad lasti bella, 42[4—5]; ergi hugar, 41[7]; ædur, 49[16] (í fleírtölu); Lundúnarbý, 50[11]; unni, 55[13] (firir *ann*); røgvættur, 18[13—14] (í þolanda), og fram eptir því; (það er ekkji kjin, þó höfundurinn sje að forniröa og hafa við innanum þetta, t. a. m.: fér eg, 33[11,12]; flúa, 18[14], og þvíumlíkt.)

---

[1]) Firri "ársflokkurinn" er í sæmilega stóru átta blaða broti. Höfundurinn hefir ætlast til að báðir ársflokkarnir irði bundnir saman.

*Dönskuslettur:* einasta, $9^{9}$; mega, $12^{12}$ og víða (firir *hljóta* eða *verða*); staður, $13^{11}$; ektuð, $13^{12}$; ektaborin, $83^{11}$; máské, $13^{18}$; maki, $16^{1}$ (firir *bóndi*); Markarflóð, $16^{1-2}$, mun eíga að vera sona hálf danska, (sbr: flóðin, $40^{9}$); þénari, $41^{13}$, (og víða); falskur (reikníngur), $48^{14}$; þánki, $45^{17}$; þeinkja, $24^{5}$; æfa múkalifnað, $24^{5-6}$; yfirsetja, $50^{19}$; hvað? ef eg . . .?, $50^{20-21}$; frísk (þjóð), $51^{25}$; rar, $53^{17}$; billegur, $52^{4}$; frór, $52^{22}$; nettur, $53^{13}$; bara, $53^{20}$; merkja, $53^{23}$ (firir *verða var við*); grandt, $53^{23}$ (firir *nákvæmlega*); eg dreimi, $55^{25}$ (firir *mig dreímir*); klæða drakt, $21^{3}$; géfast, $21^{6}$ (firir *vera til*); prís, $21^{7}$ (firir *verð*); mála, $24^{26}$; vert, $24^{22}$ (firir *húsráðandi*); kóngshøndlun, $25^{27}$; akkers tó, $27^{4}$; (hvurugt orðið er íslenzkt eíns og akkjeri er hneigt hjer); ríngur, $29^{4}$ (firir *lítill*); kaupinhøfn $31^{23}$; hinn, eíns og það er haft $17^{24}$; veigra sér, $19^{7}$; lángt (firir *lángtum*) heldur, $19^{17}$; láta í læri, $20^{2}$; fínn, $34^{9}$; þrykkja, $34^{25}$; verk, $35^{24}$ (firir *rit*); héðan frá (á dönsku *herfra*), $24^{13}$; betl, $25^{7}$; reisa, $26^{2}$ (firir *ferð*); Hetland, $27^{27}$; forgánga, $31^{3}$; glans, $53^{8}$; krans, $53^{9}$; frí, $37^{7}$; amma, $33^{20}$, (á líklega að vera *fóstra*, sbr: $34^{12}$); þvínga, $39^{16}$; tóna, $55^{6}$ (firir *hljóma*); trón, $41^{5}$; voga sér, $49^{8}$; frómur $49^{10}$ (firir meínlaus); hasta, $58^{19}$; posi, $59^{4}$; háttaktaður, $59^{8}$; píka, $63,^{26}$; klaga, $64^{15}$ (á dönsku *beklage*); hastur, $64^{19}$ (firir flítir); nú heítir það: að hún skal passa, $66^{13}$; saft, $70^{20}$; stífur, $71^{8}$; strjálandi, $81^{10}$ (á dönsku *straalende*); dána, $82^{4}$ (á dönsku *daane*), og miklu fleíra. Hjer á er auðsjeð, hvað skáldskapur höfundarins græðir á því, að hann kann dálítið í dönsku

*Hortittir og Vitleisur:*ønnum tvennum hlaðinn, $33^{6-7}$; hvergi staðar vegur, $33^{15-16}$; sem bjóða þessum herra má, $17^{10}$; haldtu við skírnar heitið þitt, $20^{14}$; vina flokki bjarta, $43^{14}$; hætt, $13^{23}$; hér, $57^{12}$, $59^{20}$; hitt, $83^{10}$; sem venjast látum píkurnar, $64^{5-6}$; opt þó stofni vanda, $69^{13-14}$.

*Smekkleísur og klaufaleg orðatiltækji:* drýgja digurð, $67^{20}$; eg með dúrum dilla mér, $55^{24}$; finn þá yndi allra

handa og edlis værar hugsaner, $57^{12-13}$; á honum lítið verður feitt, $18^{2}$; láð fyrir dýrra klæða, $35^{4-5}$ (er hlaufaleg kjenníng); aptur og framan barið, $35^{11-12}$; anna máli, $51^{12}$; eldin teit, ama reifuð grandi, $29^{7-8}$; $67^{23}$ er Lóndrángur farinn að „naga sjóarbotninn"; báðir drángarnir „gleypa haudrið í kríngum sig", $68^{15}$; enn sjórinn „fælist fugla nið og margan voða", $68^{18}$; $79^{8}$ eru tindarnir að kveða undir andvörp „vísra" manna á Íslandi; bibillinn eltir enda vorn með ástarsaung og glediláti, $65^{21-22}$; hrukka á vánga, $65^{23}$; stúlkurnar hans vaða fenin „bara að þjóunum", $63^{18}$; fuglar meðan tempra téða tóna stránga, $68^{19}$; og drykki yndis anda smá, sem undir brjóstum dúdi, $62^{8-9}$; brugga drauma, $62^{15}$; letur færa lætst eg þér, $62^{25}$. Hjeraðaukji hefir hann búið sjer til stúlku, sem heítir eðalsteína Rósa ($56^{15}$). Físi nokkurn að vita, hvurnig sú „vefja glætu strauma" ($62^{14}$) lítur út, þá seígjir skáldið sjálft, að hún hafi grænt sjáaldur og rauðan hríng þar utan um („með smaragðs steinum innaní ofnum rósakrønsum", $53^{8-9}$); "item" rauð kjinnbeín og fagurrauða höku ($53^{22}$); hún hefir „þíða húð" (enn hvað það var ekkji *há*! ($53^{25-26}$); enn haldið þið hann "hafi sjeð hana innanklæða" ($54^{3}$), þó hann hafi "flanað í ormshíði um iður jarðarinnar" til að leíta hana upp? ($54^{20}$). Af $57^{8}$ virðist enn fremur meíga ráða, að unnusta hans verði firir æði mikjilli ásókn af flugum, eínkanlega á vortímanum. — Þetta lítilræði er tekjið á stángli og af handahófi úr nokkrum hluta bókarinnar, þar sem hún á að heíta skást, og sjer þó ekkji högg á vatni. Kveðlíngar þessir hafa ekkji svo mikjið til síns ágjætis, að þeir sje alstaðar liðugjir; orðin eru víða aflöguð með rángri áherzlu, t. a. m. Orkneyar, $27^{24}$; lagsbræður, $28^{5}$; lífakkerin (bæði danskt og stirt), $29^{2}$; brikkskipið, $29^{3}$; kóleru sýki, $34^{18}$; hádegi, $37^{24}$; farnað, $36^{1}$, og fleíra. Hann lætur orðin enda á *er* firir *ir*, þegar honum liggur á; fuglarnir verður að vera fuglarner, $49^{10}$, og eins hugsaner, $57^{13}$; o s fr v. Hann

lætur mála standast á við sálar ($54^{5-6}$); báu við sáum ($29^{20-21}$); Glói við skógi, ($18^{1,3}$) o. s. frv.

Slíkt væri miklu firirgjefanlegra, ef efnið væri nokkurnveígjinn bærilegt; enn það er öðru að heílsa þar sem höfundurinn á hlut að. Það stoðar ekkji heldur, þó hann steli frá öðrum, eíns og hann gjörir, því það er eíns og honum filgji sú náttúra, að allt þess háttar verði að óþverra, þegar hans "hreína sál" ($44^{12}$) kjemur nærri því, og þó er hann að líkja sjer saman við Eívind skáldaspilli ($44^{1}$); tala um "andagjipt" ($34^{15}$), "verkjin sín" ($35^{24}$), "andar auðinn" ($45^{7}$), í "vizkuleínum" sínum ($55^{8-9}$); seígjir, að "eíngjin önnur þjóð skjildi taka æðri þakkjir" ($45^{17-18}$), enn Íslendíngar, ef þeír vildi hans "*lítil* ljóð launa meðan hann stríðir" ($43^{20-21}$); lætur í veðri vaka, að hann sje kraptaskáld ($64^{2}$), þó mentagjiðjan hans láti svo lítið á stundum, að "kjitla viðkvæmnina" ($35^{16-18}$), sem líklega er helzt, þegar hann "dillar sjer með dúrunum" og dreímir um Rósu, meðan "búrabóndinn" er að "stjana við" þessi "næturblis" ($55^{23-25}$), enn það verður hann að eíga, að hann er eíns fús á, að smjaðra firir öðrum, þegar svo ber undir, að minnsta kosti firir sjera Ásgrími heítnum og "höfðíngja okkar Vesturlands", þar sem hann er að láta Fjölni bíta hann í hælinn, og reína til "með lasti að líta lofsælu bókasmíðar hans" ($17^{21-22}$). G. Th.

XI. Hugleiðíngar um høfuðatriði kristinnar trúar samdar af Dr. J. P. Mynster Sjálandsbiskupi og skriptaføður Dana konúngs og s. frv. Utgefnar á íslenzku af Þorgeiri Guðmundssyni, Presti til Glólundar og Grashaga á Lálandi. Kaupmannahøfn. 1839. 8. VIII + 568 blss.

XII Um sannrar Guðhræðslu uppbyrjun og framgáng í manneskjunnar sálu. Samanskrifað í fyrstu á Engelsku, síðan, vegna síns ágæta innihalds, útlagt á ýms Norðurálfunnar túngumal; og nú síðast á Íslenzku af Jóni Jónssyni, Presti Grundar- og Møðruvallna-safnaða. Kaupmannahøfn. 1839. 8. 336 blss.

**XIII.** Tvær Æfisögur útlendra merkismanna, útgefnar af hinu íslenzka bókmentafèlagi. I. Franklíns æfi. II. Þarfur maður í sveit. Kaupmannahöfn 1839. 8. 159 blss.

**XIV.** Jólagjøf handa Børnum frá Jóhanni Halldórssyni. Kaupmannahøfn. 1839. 16.139 blss.

**XV.** Sagan af Hrafnkeli Freysgoða. Udgivet af P. G. Thorsen, og Konráð Gíslason. Köbenhavn, 1839. 34 + 54 blss.

Það hefir verið tilgángur útgjefendanna, að sína hina fornu íslenzku í þeírri mind, sem þeír hjeldu rjettasta, og var þessi saga tekjin til útgjefníngar fremur einhvurri annarri ekkji að eíns firir þær sakjir, að hún er stutt og áður óprentuð, heldur og hins vegna, að handritin eru öll í ómerkara lagji, eínkum að allri stafsetníngu, svo að útgjefendurnir voru sjálfráðir firir þeím í þeírri greín, enn öðru hafa þeír ekkji dirft sig að breíta. Mindum orðanna er jafnvel ekkji alstaðar snúið til hins rjettasta máls. Þolmindaðar sagnir *(verba passivae formae)* ætti að endast á *sk*; *rís* (37[15]) ætti að vera *ríss* (firir *rís-r*); *vili* (23[6]) er firsta persóna núlegs tíma í afleíðíngarhætti, og á að vera vilja; *mýri* (38[4], 39[7]) ætti að vera prentað *mýrr*, samkvæmt bendíngu frá Dr. Schévíng til útgjefendanna í skrifuðum athugasemdum, eíns og *merr* (nú *meri*), sömuleíðis *eyrr* (nú *eyri*), *Mærr (Sunnmærr, Norðmærr* í Noreígji); slíkt hið sama á að breita *veiði* (32[17]) í *veiðr*, eíns og *heiðr* (nú *heiði*), *flæðr* (aðfall sjáar), *festr* (nú *festi*), *helgr* (t. a. m. *örskotshelgr*), og fleíri; hefir þetta niðurlag haldizt allt til þessa dags í orðunum *reyður*, *brúður* (þó þetta síðara orð breítist öðru vísi í fleirtölunni), og í mörgum kvennmanna nöfnum; *Hrafnketill, Þorketill,* o. s. frv., er eldra enn Hrafnkell, Þorkell, og þvíumlíkt; *ne einn* er eldra og upphaflegra enn *neinn*; *aldreigi* er ekkji rjett, og ætti að vera *aldri* eða *aldrigi*; (líka finnst *aldre, aldregi, aldregin, aldrigin*); *kom, komt* (í þálegri tið af *koma*) er ekkji eins fornt og *kvam, kvamt* (í fleírt.

*kvúmum*); *skjör* (9[1]) á að vera *skjörr*, eins og sjá má af orðinu *skirra*, (t. a. m. vandræðum), sem er náskjilt orðinu *skjarr; eigi* (11[19], 26[17]) seígjir Dr. Schéving eígji að vera *ekki*, af því það *sje* ekkjert, og er auðsjeð að svo er. — Hins vegar eru sumar mindir orðanna í útgáfu þessari of fornar, og hafa ekkji nógu fastan grundvöll í fornritunum, og ekkji stoðar að skrifa orðin *sunr*, *viðr*, *liðr*, o. s. frv., (jafnvel ekkji þau, sem hafa ö í stofninum, eins og *völlr*, *göltr*, *fjörðr*, *skjöldr*) með - *ur* í gjöranda eintölunnar (*nominat. sing.*), þó þau endist á -ú í þolanda fleírtölunnar (*acc. plur.*); líkt er að seígja um þau *e*, sem nú eru nemd *je*, og almennast eru skrifuð *è* í útgáfum fornrita, að þau virðast hafa haft sama atkvæði og nú, þegar hinar elztu skjinnbækur, sem nú eru til, voru ritaðar, svo að menn hafi sagt ekkji að eins *hèlt*, *sèt* eða *sèð*, og þvíumlíkt, heldur einnig *mèr*, *þèr*, *sèr*, *hèr*, *nè* (enn ekkji *helt*, *set*, o. s. frv.). Fornafnið *engi* (kjinlaust *ekki*) er prentað *eingi* í Hrafnkjels sögu, og kjemst það að sönnu nær uppruna orzins, (þar sem það er dreígjið af *einn* og -*gi* sem neítunar orði), enn virðist þó ekkji vera alls kostar rjett, þegar farið er eptir ritshætti forn bókanna og öðru fleíra.

Mörgu öðru mætti hjer viðhníta um útgáfu sögunnar, ef þetta þætti ekkji nógu lángt að sinni. K. G.

XVI. Skírnir, ný tíðindi hins íslenzka bókmentafèlags. Kaupmannahöfn. 1839. 8. 112 blss.

XVII. Almanak fyrir ár eptir Krists fæðíng 1840, sem er Hlaupár enn annað eptir Sumarauka, útreiknað fyri Reykjavík á Íslandi af C. F. R. Olufsen, Prof. Astronom. útlagt og lagað eptir íslendsku tímatali af Finni Magnússyni, Prof. Kaupmannahøfn. (1839.) 16. 32 blss.

---

XVIII. Þriár Reglur fyrir alla þá sem sáluhólpnir verda vilja; enn sérílagi þá sem vilja verduglega til Guds

bords gánga. (Þeirra evangelisku Smárita No. 55.) Viðeyar Klaustri, 1840. 8. 12 blss.

XIX. Fáeinar Athugasemdir um Kúa-bólusetníngu og Bólusótt fyrir Almúga á Íslandi. Skrifað af J. Thorsteinsen. Prentað í Viðeyar Klaustri á opinberan kostnað 1840. 8. 15 blss.

XX. Fjølnir og Eineigði-Fjølnir. Viðeyar Klaustri 1840. 8. 38 blss.

XXI. Seytjánda, átjánda, nítjánda og tuttugasta bók af Homeri Odyssea, á íslenzku útlagðar af Sveinbirni Egilssyni, Adjúnkt. Viðeyar Klaustri, 1840. 8. 76 blss. (Boðsrit).

XXII. Tuttugasta og fyrsta, tuttugasta og ønnur, tuttugasta og þriðja, tuttugasta og fjórða bók af Homeri Odyssea, á íslenzku útlagðar af Sveinbirni Egilssyni, Adjúnkt. Viðeyar Klaustri, 1840. 8. 69 blss. (Boðsrit.)

Með þessu boðsriti er nú lokjið "Odysseifs-drápu", og er kunnugra á Íslandi enn frá þurfi að seígja, hvurt snilldarverk þessi útleggjíng er; og væri firir þá sök freísni firir oss, að taka hana heldur firir til að sjá, ef nokkuð irði að fundið, heldur enn eítthvað annað, sem hvurgji er heíl brú í frá upphafi til enda, af því allt er annaðhvurt danskt eða bjagað. Enn flest í útleggjíngu þessari mun þó vera svo úr garði gjört, að það meígji að minnsta kosti vel til sanns vegar færa, og gjetum vjer þess eíns, að oss lítast hinar síðari bækurnar ekkji fullt eíns vandaðar og hinar firri, sem orsakast gjetur af fleíra enn eínu, og ef þetta er ekkji missíníng vor, má vera höfundurinn ljeti sjer annt um, að sljetta ifir þess háttar smáójöfnur, og hvað annað, sem þurfa þikjir, hvurt sem er í ritshætti eða orðatiltækjum, ef bókjin irði prentuð að níu, sem bæði er óskanda og vonanda, þar eð hún nú sem stendur mun bæði vera nokkuð sjaldgjæf, eínkanlega firstu bækurnar, og er þar á ofan allóeíguleg sakjir pappírs og prentunar og alls útlits, eíns og flest sem prentað er í Videíar-klaustri, enn þó mundi oss þikja enn vænna um

hitt, ef sami maðurinn hefði einnig tóm til að snúa "skáldinu" á íslenzk ljóðmæli; því naumast er þess að vænta, að þjóð vor eignist í bráð annann, sem verði jafn fær um það í alla staði.

XXIII. Tvær fáordar líkrædur, fluttar vid jardarför Madame sálugu Önnu Sigrídar Aradóttur, Konu Prófasts Síra P. Pèturssonar, ad Stadastad 23 Mai 1839 Af Síra Sigurdi Jónssyni, firrum presti til Goddala og Ábæar Safnada. Kaupmannahöfn, 1840. 8. 16 blss.

XXIV. Lækninga-kver samið af Jóni Hjaltalín, Dr. Medicinæ et Chirurgiæ. Prentað á kostnað ens íslenzka Bókmentafèlags. Kaupmannahöfn, 1810. 8. 70 blss.

XXV. Hugvekja um Þínglýsíngar, Jarðakaup, Veðsetníngar og Peníngabrúkun á Íslandi, samin og gefin út af J. Johnsen, Assessori í ennm konúnglega íslenzka Landsyfirrétti. Kaupmannahöfn, 1840. 8. 268 blss.

XXVI. Frèttir frá Fulltrúa-þínginu í Hróarskeldu, viðvíkjandi málefnum Íslendínga, gefnar út af nokkrum Íslendíngum. Kaupmannahöfn. 1840. 8. 72 blss.

XXVII. Skírnir, ný Tíðindi hins íslenzka Bókmentafèlags. Kaupmannahöfn. 1840. 8. 84 + XXXIV blss.

XXVIII. Almanak firir ár eptir Krists fæðíng 1841, sem er fyrsta ár eptir Hlaupár enn þriðja eptir Sumarauka, útreiknað fyri Reykjavík á Íslandi af C. F. R. Oluffen, Prof. Astronom. útlagt og lagað eptir íslendsku tímatali af Finni Magnússyni. Kaupmannahøfn (1840). 16. 32 blss.

---

XXIX. Biblía, það er: Heiløg Ritníng. Í 5ta sinni útgéfin, á ný yfirskoðuð og leiðrétt, að tilhlutun ens íslendska Biblíu-félags. Prentuð með tilstirk sama Félags, á kostnað Sekretéra O. M. Stephensen. Viðeyar Klaustri, 1841. 4. VIII + 1440 blss.

XXX. Ræður við íms tækifæri Síra Tómasar Sæmundssonar Prófasts í Rángárþíngi og Sóknarprests að

Breidabólstad í Fljótshlíd. Videyar Klaustri, 1841. 8. 264 blss.

XXXI. Fáein ljódmæli, Þorgeirs Markússonar fyrrum Prests ad Utskálum frá 1747—1753. Utgéfin á kostnad Dóttursonar hans Þorgeirs Andréssonar Hreppstjóra í Rosmhvalaneshrepp. Til verdugrar og ræktarfullrar Endurminníngar Afa síns. Videyar Klaustri, 1841. 12. 71 blss.

XXXII. Stuttur Leidarvísir í Reiknings=list handa Bændafólki, samantekinn og útgéfinn af S. Br. Sivertsen presti til Utskála og Hvalsness=safnada. Videyar Klanstri. 1841. 8. 53 blss.

XXXIII. Reikníngslist einkum handa leikmønnum, eptir Jón Gudmundsson Klausturhaldara. Videyar Klaustri, 1841. 8. 260 blss.

XXXIV. Skírsla um Bessastada=Skóla fyrir skólaárid 1840–1841. Samin af Jóni Jónssyni Lector theologiæ R. af D. Videyar Klaustri. 1841. 4. 24 blss.

XXXV. Þrjár Ritgjörðir: 1. Um hina íslendsku kaupverslun, 2. Um alþíng, 3. Um Hugvekju hra Johnsens, kostaðar og út gjefnar af 17 Íslendíngum. Kaupmannahöfn. 1841. 8. 152 blss.

XXXVI. Nýársgjøf handa Børnum frá Jóhanni Halldórssyni. Kaupmannahøfn. 1841. 8. 231 blss.

XXXVII. Alberts Thorvaldsens æfisaga, gefin út af enu íslenzka bókmentafélagi. Kaupmannahöfn, 1841. 8. 66 blss.

XXXVIII. Ný Félagsrit, gefin út af nokkrum Íslendíngum. Fyrsta ár. Kaupmannahöfn, 1841. 8. 140 blss.

XXXIX. Skírnir, ný tiðindi hins íslenzka bókmentafélags. Kaupmannahöfn. 1841. 8. 108 + XXX blss.

XL. Almanak fyrir ár eptir Krists fædíng 1842, sem er annad ár eptir Hlaupár enn fjórda eptir Sumarauka, útreiknad fyri Reykjavík á Íslandi af C. F. R. Olufsen, Prof. Astronom. útlagt og lagad eptir íslendsku tímatali af Finni Magnússyni. Kaupmannahøfn. (1841.) 16. 32 blss.

---

XLI. Kristinndóms Bók handa Börnum, útgéfin og útløgd af S. B. Sivertsen Presti til Utskála og Hvalsness-safnada. Videyar Klaustri. 1842. 8. 208 blss.

Það hefði eflaust átt betur við að íslenzka bók þessa skömmu firir aldamótin, enn að fara til þess nú, því þá hefði hún sjálfsagt gjetað orðið að nokkru liði. Svo mikjil umbreíting er orðin á flestum vísindagreínum, og ekkji sízt á guðfræðinni, síðan 1772, þegar þessi bók er samin, að gjeta má nærri, að hún sje æði mikjið orðin á eptir öldinni, enda þarf ekkji annað enn fara fljótlega augum ifir hana til að sjá, að þetta er annað enn hugarburður. Það sem bókjinni baggar mest, er skjipulagsleísið. Þó kveður mest að þessu í sindafræðinni. Það er eíns og höfundinum hafi óað við, að taka sindina alla í eínu, svo hann hefir skjipt henni niður á tvo staði, í 18da og 40sta "samtalinu", enn *stór*brotum og *öðrum* glæpum hefir hann dreíft niður hjer og hvar í 27da, 28da, 33ja, 36ta, 37da, 38da og 39da samtalinu, sem auðsjáanlega á þó að vera allt saman.

Það er auðsjeð, að þíðarinn hefir haft allan vilja á að vanda útleggjínguna að orðfærinu, sem bezt hann mátti, og lísir hann því ifir í formálanum. Á hann og mikla þökk skjilið firir viðleítni sína. Það er og sannast að seígja, að opt hafa komið á prent ritlíngar á Íslandi, sem lakara mál hefir verið á. Þó er málinu víða ábóta vant, því bæði er orðaskjipanin sumstaðar óíslenzkuleg, og ekkji laust við að dönsk orð slæðist innanum, t. a. m. *prísa* firir vegsama, *vanart* firir ósiður, *straff* firir hegníng, *stríðsfólk* firir hermenn, *hræríng* firir hreífíng, *þessi* firir hann, *lærifaðir* firir kjennari, *úngdómur* firir úngmenni eða börn, og margt fleíra, enn þessi orð eru brúkuð optast. Þó vjer höfum sagt, að bók þessi hefði mátt vera óíslenzkuð, þá er það ekkji þannig að skjilja, að vjer viljum aptra bóka útleggjíngum; það er siður allra mentaðra þjóða, að snúa útlendum ritum á sína túngu, þegar þau eru þess verð,

og auðga á þann hátt vísindi sín, og þurfum vjer þess ekkji hvað sízt með Íslendíngar; enn þá ríður á að þekkja þær bækurnar, sem bezt eru til þess fallnar, enn streítast ekkji við að snúa bókum, sem firir laungu eru úreltar og ekkjert eíga skjilt við tíma þann, er vjer lifum á. Að endíngu viljum vjer gjeta ritlíngs nokkurs, er óskanda hefði verið að þíðarinn hefði heldur tekjið, er það bók eptir Lisco "doktor", prentuð í Berlín 1838 og útlögð á dönsku 1843 af Öhlenschlæger og Becher "kandídötum" í guðfræði. Bókjin heítir "Den christelig-apostoliske Troesbekjendelse". Er hún reíndar eínkum ætluð til stuðníngs við barnakjennslu, enn trúarlædómarnir eru svo ljóslega útlistaðir, að ekkji mundi hún almenníngji torskjilin, væri henni laglega snúið.

XLII. Stjørnufræði, ljett og handa alþídu, eptir Dr. G. F. Ursin stjørnuspekíng og háskólakjennara. með 4 eirspjaldabrjefum. Jónas Hallgrímsson íslendskaði. Videyar Klaustri 1842. 8. 220 blss.

XLIII. Skýrsla og Bóka-Listi Flateyar Framfara Stiftunar á Breidafyrdi. Utgéfin af núverandi Stýrendum hennar, 1841. Videyar Klaustri, 1842. 4. 24 blss.

XLIV. Æfi- og Utfarar-Minníng Dannibrogsmanns Jóns Sighvatssonar. Á Prent útgéfin af Børnum hans. Videyar Klaustri. 1842. 8. 99 blss.

XLV. Minníng Ragnheidar Gudmundsdóttur. Utgéfin á kostnad ektamans ennar framlidnu Jóns hreppstjóra Jónssonar. Videyar Klaustri. 1842. 8. 20 blss.

XLVI. Oeconomia christiana edur Húss-Tabla sem sérhvørjum í sínu standi þann rétta kristindóms veg fyrir sjónir leidir, í ljódmæli samansett af þeim heidursverduga og hágáfada Guds manni Síra Jóni Magnússyni fordum sóknar presti ad Laufási. 3ja Utgáfa eptir þeirri í Hrappsey útkomnu 1774. Videyar Klaustri, prentud á kostnad Síra E. B. Sivertsens. 1842. 8. 128 blss.

XLVII. Ljóðmæli Conferenceráðs Magnúsar Stephensens, Doctoris juris fyrrum Justitiarii í Íslands konúnglega landsyfirrjétti. Viðeyar Klaustri, 1842. 8. 152 blss.

Af virðíngu við höfundinn — slíkur maður sem hann var um flesta hluti — viljum vjer fara sem vægast í að dæma um ljóðmæli hans, einkum þar eð oss finnast þau víðahvar vera ágjæt að efninu til, enn ekkji verður varið að margt er stirt, og málið ekkji nógu hreint. Hefði hann sjálfur ráðið, mundi hann og ei hafa látið prenta það allt, er nú stendur í bókjinni, t. a. m. sumar stökurnar.

XLVIII. Stutt Leiðar-Ljóð handa Börnum. Orkt af Jóni Jóhannessyni. Bókbindara. Viðeyar Klaustri. 1842. 8. 84 blss.

XLIX. Rímur af Valdimar og Sveini og Vardaga í Grata-heiði orktar af Sigurði Breidfjörð. Viðeyar Klaustri. Prentaðar á kostnað Studiosi Þ. Jónssonar. 1842. 8. 68 blss.

L. Boðsrit til að hlusta á þá opinberu yfirheyrslu í Bessastaða skóla þann 23—28 Maji 1842. Viðeyar Klaustri, 1842. 8. 103 blss. (1. Njóla. 2. Skólaskýrsla.)

LI. Íslenzk Ljóðabók Jóns Þorlákssonar prests að Bægisá. Fyrri deild. Kaupmannahöfn, 1842. 8. 496 blss.

LII. Lýsíng landsins helga á Krists dögum, gefin út af enu íslenzka bókmentafèlagi. Með steinprentaðri landsmynd. Kaupmannahöfn, 1842. 8. 148 blss.

LIII. Tíðindi frá Nefndarfundum íslenzkra embættismanna í Reykjavík Árin 1839 og 1841. Utgefin að tilhlutun nefndarinnar af stúdenti Þorsteini Jónssyni. Kaupmannahöfn, 1842. 8. XI + 208 blss.

LIV. Ný Fèlagsrit, gefin út af nokkrum Íslendíngum. Annað ár. Kaupmannahöfn, 1842. 8. 177 blss.

LV. Skírnir, ný tíðindi hins íslenzka bókmentafèlags. Kaupmannahöfn. 1842. 8. 138 + XXXII blss.

LV Almanak fyrir ár eptir Krists fæding 1843, sem er þridja ár eptir Hlaupár og hefur Sumarauka, útreiknad fyri Reykjavík á Íslandi af C. F. R. Olufsen, Prof. Astronom. útlagt og lagad eptir íslendsku tímatali af Finni Magnússyni Etatsrádi og Prófessóri. Kaupmannahøfn. (1842.) 16. 32 blss.

---

# BÓKASALA.

(Markús bókasölumaður stendur ifir bókaskrínum inn' í skjemmu, fólkjið safnast að, rífur bækurnar upp úr skrínunum og les hátt erindi híngað og þángað úr flokkabókjinni, sumir lesa í Þórðarbænum).

*Markús*
(síngur).

Gjöri nú hvur sem gjetur bezt,
gvuð veít eg hefi klif á hest,
Þórð, Þorlák, Bjarna, bænakver
og bækur fleíri fáið þjer,
fjórtán biblíur, flokkabók,
fimm Tístransrímur með eg tók,
eg hefi rímur eíns og sand,
sem eínkum príða þetta land.

*Fólkjið.*

Það eru þarfleg kver,
sem allir þurfa að eíga,
iður þakka allir meíga,
æ hvað fleíra hafið þjer?

*Markús.*

Konferensráðsins kvæðabók
sem kostagrip eg með mjer tók,
Vinaspeígjil og Veðraspá,
Vikuoffur í kápu blá,
eg hefi Njólu og önnur rit.
sem eínkum skjerpa mannsins vit.

*Nokkrir af fólkjinu.*

Fögur bókafregn!

*Aðrir.*

Nemdi hann ekkji njóla?

*Markús.*

Hann spratt í sumar suður í skóla,
hann þolir bæði þurk og regn.

Nú vil eg gjarna verðið fá
í vörum og silfri gjalda má,
af iður tek jeg ull og smjer,
og allt sem fleíra hafið þjer.

*Fólkjið.*

Hann bíður beztu kjör!
gott er slíkum gjalda,
sind er að seígja hann vilji valda,
að óaítis vjer förum för.

*Markús*
(tekur upp Tístransrímur).

Þessar rímur "in duodes"
til dægrastittíngar opt jeg les,
jeg kní aungvan til að kaupa bull,
þær kosta fjögur pund af ull.

*Eínn af fólkjinu.*

Hvur kaupir þetta kver?

*Vinnukona.*

Eg vil á því hánga.
Kjí kjí! þarna kjeípti hún Mánga,
jeg óska jeg kjeípti aldreí ver.

*Markús.*

Alla, sem vilja eítthvað fá,
í eínu hljóði eg biðja má,

að lúka kaupum og gjalda greítt,
enn gángji þeír burt, sem kaupa eí neítt.

(þriðjúngurinn af fólkjinu tekur ofan húurnar sínar firir Markúsi, hneígjir sig og leggur á stað.)

*Eínn af fólkjinu.*

Jeg bið um bænakver.

*Annar.*

Og eg um Agnarsrímur,
það sagði eitt sinn sjera Grímur,
að þar væri lög, sem ljeti mjer.

*Halla, bóndadóttir.*

Jeg sje þjer eruð að selja
sálmabækur og önnur kver,
æ að þjer vilduð velja
vænstu bókjina handa mjer.

*Markús*
(tekur Ljóðasmámunina).

Það er gvuðvelkomið, góðin mín!
jeg gjef þjer þetta vísnakver,
enn láttu mig sjá og minnstu mín,
því Markús opt í ferðum er.

*Bóndadóttir.*

Já! iður eg skal muna
og alltaf þjóna í hvurri ferð,
við bókjina eg skal una,
hvurt úng eða gömul kona eg verð.

*Markús*
(við sjálfan sig).

"Hún er úng, hún er fríð og hún elskar mig!"
(við hana).

Já! undu þjer nú við þetta kver,
enn láttu mig sjá og mundu mig,
því Markús opt í ferðum er.

*Bóndadóttir.*

Þjer verðið á ferð í vetur,
þá víkur dagur og kveíkt er ljós;
hvur sem vill hitt mig gjetur,
jeg hleíp á kvöldin út í fjós.

*Markús.*

O! skrínunum vil eg skjella í lás
og skjótast með þjer út í fjós.

*Hún.*

Við hittumst inn' í hlöðubás,
þegar hallar deígji og kveíkt er ljós.

*Bæði.*

Við hittumst inn' í hlöðubás,
þegar hallar deígji og kveíkt er ljós.

*Gvuðmundur*
(kjemur inn).

Jeg sje hjer er fjölmennt, sælir verið þjer!

*Heímabóndinn.*

Sælir, Gvuðmundur! hjer eru snotur kver,
sem hvur má fá, sem hefur á því ráð,
það hefur sekri veítt firir drottins náð,
hjer er ritníngjin, rímur, bænakver,
sem renna út firir ull og tólg og smjer,
gvuðsorðabækur gjörðar af fornu og níu,
hann gjefur þjer eína, ef selurðu firir hann tíu

*Gvuðmundur.*

Þó þetta kunni að þikja boðið vel,
þigg jeg það ekkji og aldreí firir hann sel,
jeg ljæ mig eí til að breíða út bókafans,
sem brennast ætti á enni seljandans,
sem málinu spillir, meíngar rjetta trú,
Markús! að þessu verkji starfar þú.

*Markús.*

Sem sekretjerans sendimaður og hjú
jeg svara, Gvuðmundur! þessu lígur þú,
því sekretjerinn setur það eítt á prent,
sem sjer hann að iður verður að vera hent,
ekkjert það, sem að iður móðgað gjetur,
af ásetníngji hann á pappír setur,
í eínrúmi við mig eítt sinn sagði hann:
"já! eg vildi eg mætti prenta Grallarann";
ef honum endist heílsa og líf í vetur,
hugsar hann þó að gjöra dáltið betur,
hann seígjist ætla að senda út um landið
sálm, sem að jeg hef ort um hjónabandið,
og Sigurður Breíðfjörð, sem að aldreí þrítur,
er seztur upp [1] og mikjils heíðurs nítur,
hann seígjist ætla að semja nían brag,
á Set hann birjar — það er rímnalag —
helztu kappana úr heímsins sögu hann velur,
hvurjum þeírra hann eína rímu "gjelur",
höfuðmennina hjer jeg nefna skal,
Henok, Faraó, Nimroð, Belíal,
Bíleam, Sírus, Sóróaster, Nínus,
Sardanapál og Job og Konstantínus,
Mahómet, sem að Tirkjum kjenndi trúna,
að telja fleíri man eg ekkji núna.

*Gvuðmundur.*

Það var þó mildi að minnið í þjer þraut,
mjer hefur leíðst að hlíða á þenna graut;
firr enn þú breíðir bókjina þína um landið,
bezt væri þjer að reína hjónabandið,
enn Sigurði Breíðfjörð, "sem að aldreí þrítur",
seigðu frá mjer að hann sje skáldas ..... [2],

---

[1]) eíns og æðarkolla.

[2]) sjá Tístransrímur.

enn heldur vil jeg að heilsan Ólaf þrjóti,
enn hann oss gabbi opt með þessu móti,
og ann eg honum þó allrar heilsu og lífs.

*Markús*

(tekur upp hnífinn).

Ef eí þú þeígjir, neíti eg þessa hnífs.

(við fólkjið).

Iðar velvild eg allra til mín fann,
enn ógjæfan rak þá híngað þenna mann,
iður færði eg andlega sálarfæðu,
enn okkur til hinnar mestu kvalar og mæðu,
þegar þjer borguðuð bæði ull og smjer,
b . . . . . . . maðurinn snjeri sjer að mjer;
eg sem póstur í embættis er stjett,
og á þess vegna mikjið háan rjett;
eg er í frakka og á honum veít eg sjest,
að eg hefi "ráng" við meðal sveítaprest,
þjer sjáið að jeg hefi í hendi hníf,
enn hirði samt ekkji að taka mannsins líf,
enn krefst eínúngjis þjer kjeírið hann burt frá mjer,
jeg kaupi eí meíra meðan hann er hjer.

*Eínn af fólkjinu.*

Hvað sje jeg hjer!
harðnar enn rimma,
og herrann er reíður,
auðjeð er það.

*Annar.*

Gvendur er þver,
og það er að dimma,
enn það er hans heiður,
hvurt orð á sjer stað.

*Þriðji.*

Ekkji má vita, hvað af þessu flítur,
enn illa sje jeg á margan það bítur,
mjer þótti vest að vera hjer.

*Fjórði.*

Af hræðslu er eg hvítur,
hvurnig sem því slítur,
heilir og sælir allir!
heím eg fer.

*Allir fjórir.*

Af hræðslu er eg hvítur,
hvurnig sem því slítur,
heilir og sælir allir!
heím eg fer.

(*Bóndadóttir* kjemur inn. Gvuðmundur gjeíngur á móti henni og heílsar henni með kossi. *Markús* hleípur að og hrindir honum frá).

*Markús.*

Mjer var það huggun mesta og rauna bót
að meíga sjá þig, elskulega snót!
þessi maður, sem þarna hjá þjer stendur,
þessi hjer eístra nafntogaði Gvendur,
hefur firir mjer helmíng kaupa spilt,
hvur sem hann á fær efnilegan pilt,
ónít seígjir hann öll sjeu þessi kver,
og eíns lítla bókjin, sem að jeg gaf þjer,
þú sjerð að fólkjið er að fara út.

*Bóndadóttir*

(rífur klútinn af hálsinum á sjer og fleígjir í Gvuðmund).

F . . . . . . . eígji þig nú og þenna klút,
"ærleg" taug hjelt jeg eínhvur hjá þjer væri,
og af því þáði eg líka þessi skjæri.
(fleígjir þeím í hann).
Þú færðir mjer í firra sumar dreígjil
á fatið mitt græna, enn þá ljeði jeg þjer leígjil,
þú brauzt úr honum botn í suðurferð,
enn botninn kostaði mig dreígjilsins verð;
um fráfærurnar færðirðu mjer lamb,
þá fjekkstu líka hjá mjer lúsakamb.

sem ef í það fer var átta fiska virði,
af þjer að hafa í neinu sizt eg hirði;
þú hefur smanað þenna mikla mann,
enn mjer lízt nú lángtum ver á þig enn hann,
og honum mun jeg hjeðan af triggðir veíta,
hvar sem þú vilt þú mátt þjer konu leíta.

*Markús.*

Hafðu það firir heímsku þín!
hún er nú orðin stúlkan mín,
þó kverin mín eíngjinn kaupi hjèr,
kvennfólkjið hnígur allt að mjer.

*Folkjið.*

Vildirðu þetta þá,
meí frá manni að snúa?
eíngjinn mun þjer optar trúa,
við viljum okkar vörur fá.

*Markús.*

Eg vil verða hjer upp' í sveít,
jeg uni mjer bezt í þessum reít,
eíga meígjið þið öll mín kver
og ullina, sem þið gulduð mjer.

*Fólkjið.*

Hann er orðinn ær!
sekretjerinn þig sendi.

*Markús.*

Nú hirði jeg ekkji hót hvar lendir,
hafa meígjið þið hvur það nær.

(Fólkjið þítur i skrínunu, hleður utan á sig bókunum og hvur tekur það, sem hann nær).

*Gvuðmundur.*

Með heíðri heim eg fer,
eígðu hana Höllu,
að skapi þínu hún er í öllu,
enn bókasalan enduð er.

(kveður og fer).

*Fólkjið.*

"Forlíkast gjörðu fjandmenn tveír",
þó freklega reíðir væri þeír,
hin efnilega únga mær
af öllu hinn mesta heíður fær,
af henni læri önnur fljóð
við aðkomumenn að vera góð.

*Márkús*
(tveím árum síðar grátandi).

"Þegar jeg inngjekk þetta stand,
þettað a . . . . . . . . hjónaband."

# GÓÐUR SNJÓR.

"Snæliga snuggir,
kváðu Finnar."

Fornm. S. VIIda B. 20sta bls.

Einu sinni var síslumaður — jeg held það hafi verið í Rússlandi. Hann þótti vera tekjuharður, og fór þá stundum ekkji vel að bændunum, enn við einn þeirra gat hann ekkjert átt, því hann var svo þver og þrálátur, að hann galt alla þegnskjildu sína í tækan tíma, og vildi svo aldreí gjalda neítt meíra. Hann drakk ekkji heldur, svo á því irði haft, og átti fallegasta húsið í því þorpi. Hann hjet Pjetur Ívarsson, og var ekkji von að síslumanninum væri vel við hann.

Leíð síslumanns lá opt um þorpið, þar sem Pjetur átti heíma, og var honum þá alltjent raun í að sjá þar svona fallegan bóndagarð. Eínn veturinn gjörði fannfergji, fóru menn þá í sleðum bæa í millum, eíns og siður er til. Það bar við eínn dag, að síslumaður ók í sleða, hann var í bjarnarfeldi, og kom í þorpið, þar sem Pjetur bjó. Hann var þá að velta firir sjer, hvurnig hann ætti að komast ifir lítið af því, sem þessa heíms hafnendur kalla valtan veraldarauð, og datt honum þá Pjetur alltaf í hug.

Neíðin kjennir naktri konu að spinna, og svo var um síslumann, því satt að seígja var lítið orðið í budduuni hans, því heldri mennirnir í síslunni gáfu honum sjaldan færi á sjer, enn af aumíngjum er lítið að hafa. Alltaf var

hann samt óþreítandi að sjá um þá. Nú kom honum ráð í hug, og ekur heím í hlað hjá Pjetri. Bóndi kjemur út berhöf aður, og biður hann auðmjúklega að koma inn. þótt honum raunar þætti þetta ekkji vera vinafundur. Síslumaður hafði á sjer höfðíngjasnið, og ljet leíngji gánga eptir sjer, fór þó seínast inn í stofu og taldist ekkji undan að borða morgunverð, og var alltaf að stinja og kvarta, hvursu störf sin væri erfið og mæðusöm.

"Það er fallegt", sagði hann, "sem mjer hefir verið sagt að gjöra núna seínast; jeg á að grenslast eptir hjerna á allri kjeísaraeígninni, hvurt hjer sje ekkji nokkurs konar snjór, sem þeír vilja fá, og á að senda hann til hirðarinnar, hvar sem jeg finn hann." "Guð blessi kjeísarann, síslumaður góður!" sagði bóndinn; "er mjer leífilegt að spirja, hvað þeír ætla að gjöra við snjóinn?" "Þú veízt það, Pjetur minn"! sagði síslumaður, "að stórhöfðíngjar eru stundum skrítnir; það hefir komizt í þrætni við hirðina, hvurt snjórinn væri hvítari firir sunnan eða norðan. Nú ætlar kjeísarinn sjálfur að skjera úr málinu og vill fá að sjá hvurntveggja snjóinn."

"Dírt er drottins orðið", sagði Pjetur, "gjörið þjer svo vel að súpa á, síslumaður góður"! Hann var orðinn hræddur um, að sjer irði skjipað að fara að flitja snjó lángar leíðir. Það var auðsjeð, hvað það mundi kosta, ef hann ætti að aka snjó á mörgum vögnum heím til höfuðborgarinnar, þvílíkan óraveg. Þá sagði bóndi: "bág er tíðin, herra góður! peníngaeklan og kaupstaðarskuldirnar, eíns og þjer vitið sjálfur." Síslumaður leít við honum og sagði með bitann upp' í sjer. nokkuðsona, öllum verður eítthvað til bjargar, þá er að leíta bragða."

"Ætla þjer vilduð láta svo lítið, Andres minn!" sagði bóndinn, "að taka við þrem spesíum, mjer væri þökk á því." "Þú gjetur ekkji betur boðið, Pjetur minn!" sagði síslumaður, "enn mjer liggur ekkji á peníngum". Hann hætti þá að borða og stóð upp, og fór að gánga um gólf

og varð litið út um stofugluggann. Pjetur stóð berhöfðaður út' í horni og klóraði sjer í höfðinu, því honum var ekkji farið að verða um sel. "Það kalla jeg hvítan snjó," sagði sísluma'urinn, "sem þarna er úti, hann er eíns og mjöll, Pjetur!" "Vægðu mjer, herra góður! það er ekkji betri snjór enn annarstaðar; jeg skal seígja iður nokkuð, snjórinn er miklu hvítari hjá honum nafna mínum." "Vertu ekkji að því arna", sagði sísluma ður, "jeg sje það dável, þetta er ágjætur snjór, þú mátt til að fara með hann á tíu vögnum".

Bóndi bað sig undan sem bezt hann gat, og barði sjer á alla vegu og fór að hrína, enn það dugði leíngji vel ekkji neítt, þó ljet síslumaður leíðast til um síðir firir 50 spesíur, enn Pjetur varð að lofa honum með kossi og handabandi, að þeígja um þetta eíns og steínn, svo það kjæmist ekkji upp, að síslumaður hefði leínt svona fallegum snjó.



# ATHUGASEMD.

Prentvillur eru allmargar í þessari bók, t. a. m. d fírir ð ($1,^{4},^{6},^{16}$; $9^{17}$; $12^{17}$); ð f. d ($23^{16}$; $40^{9}$); s f. z ($13^{7}$; $24^{10}$; $62^{24}$); i f. í ($4^{21}$; $14^{26}$; $22^{9}$; $44^{20}$; $50^{4}$; $57^{22}$; $53^{3},^{27}$; $62^{32}$); í f. i ($2^{12}$; $4^{22}$; $31^{16}$); ě f. je ($47^{4}$); ey f. ei ($53^{9}$ í firsta dálkji); N f. N′ og Z f. Z′ (49 á efri mindinni); X f. IX ($62^{5}$); XI f. X ($62^{10}$); út f. út’ ($38^{3}$); og eins f. eins og ($64^{34}$); (;) f. (?) ($9^{29}$); (.) f. (:) ($18^{17}$; $62^{15}$); j vantar ($2^{12},^{20}$; $14^{26}$; $22^{5}$; $61^{26}$); stafir hafa skjipst um (lf f. fl, $28^{25}$; ðí f. íð, $35^{14}$), eða fallið burt (mi, $36^{7}$; n, $26^{18}$, $48^{5}$); (—) ($12^{21}$) á að standa eptir dírðar.

# FJÖLNIR.

## ÁRRIT HANDA ÍSLENDINGUM.

"Gefið út"

af

NOKKRUM ÍSLENDINGUM.

Sjöunda ár.

ÁBYRGÐARMAÐUR:

GÍSLI MAGNÚSSON.

KAUPMANNAHÖFN.

Prentað hjá J. D. Kvisti, bóka-prentara og nótna.

1844.

# YFIRLIT EFNISINS.

## PRENTVILLUR.

Á bls. $1^{1}$: A f. Á.
— $28^{7}$: þú f. þá.
— $30^{16}$: ertinn f. ertain.
— $52^{6}$: skinseminnar f. skynseminnar.
— $54^{10}$: fa f. af.
— $80^{10}$: ahorfsmál f. áhorfsmál.
— $83^{7}$: $50^{16}$ f. $48^{11}$.

## LEIÐRJETTING.

Á bls. 106 vantar *J. H.* undir kvæðið.

# UM STAFSETNINGUNA A ÞESSU ÁRI FJÖLNIS.

Þegar byrjað var á riti þessu, var haft í huga, að færa stafsetninguna nær og nær framburðinum, svo að framburður og stafsetning yrðu að síðustu öldungis samfara, með þeim hætti, að hvert hljóð hefði einn staf fyrir sig, en ekki fleiri, og að aldrei væru felld úr heyranleg hljóð nje heldur í bætt óheyranlegum (eða dauðum) stöfum. Hugðu þeir, sem þá stóðu að ritinu, þá stafsetningu eina saman rjetta, þó hún hafi hvergi verið við höfð, svo kunnugt sje, og gjörðu sjer í hugarlund, að landar sínir mundu geta orðið á undan öðrum í því efni. Á fyrsta árinu var ritshátturinn hafður nærri því lagi, sem tíðkanlegast á að heita, og þar að eins sveigt á leið til framburðarins, er ekki þótti stinga í stúf. Í hinum næstu árum var ýmsu við bætt, og sagt berlega, hvað áformað væri með stafsetninguna, og reynt að færa til ljós rök, að sú ein væri rjett, sem færi eptir engu öðru, enn atkvæði orðanna. Eptir það liðu svo nokkur ár, að Fjölnir ljet ekki til sín heyra á voru landi, þangað til í fyrra, að hann gjörði vart við sig aptur, og voru þá orðnir fleiri hlutaðeigendur og svo sem meiri handagangur í öskjunni. Sannast það hjer sem optar, að svo er mart sinnið sem maðurinn er, og eru

ekki allir á eitt sáttir um stafsetninguna, þó oss komi vel saman um önnur efni, er snerta rit vort. Að sönnu eru flestir á því, að sú regla sje rjett, að rita eins og menn tala, einkum ef við sje bætt: þegar rjett er talað; en þessi viðbætir á alls ekki inn í sfafsetningarregluna, ef að er gáð; rjettmæli og rjettritun er hvorugt komið undir öðru. Hitt þykir flestum ófært, að rita með öllu eins og talað er; og þar sem fleiri eru saman í fjelagskap, þar verður afl að ráða og atkvæðafjöldi. Nú þykir sumum takandi í mál, að vera kyr, þar sem komið er, með stafsetninguna á riti voru; en þeir eru fáir, sem betur fer, og aldrei kom hinum fyrri hlutaðeigendum Fjölnis það í hug, að nema staðar á miðri leið — sem ekki væri til annars, enn auka þann rugling, sem er áður á stafsetningu íslenzkra bóka. Eptir þessu er ekki annar kostur fyrir höndum, enn hverfa aptur á hina breiðu slóð, eða rjettara að segja, á þá villustigu, er liggja í ótal króka, hver innan um annan, eins og fjárgötur. Vjer vonum svo góðs til allra skynsamra manna, að enginn þykkist af þessari samlíkingu, þó landar vorir sjeu að vísu langtum hörundsárari við allskonar aðfyndni, enn nokkur önnur þjóð. En í þessu efni eru dæmin degi ljósari. Er ekki vant að rita sama orðið á marga vega, ekki að eins í sömu ritgjörð, heldur og á sömu blaðsíðu, eða jafnvel í sömu línu? Bera ekki flestar bækur með sjer, að höfundar þeirra hafa litlu meira vit á málinu, sem þeir tala og rita, enn barnið í vöggunni? Menn látast rita eptir uppruna orðanna, en rita þó beint á móti honum, að minnsta kosti í öðru hverju orði; og þeir, sem verst eru að sjer í þessu efni, verða reiðastir, og láta verst, ef reynt er að kippa þessu í liðinn, og setja einhverja reglu í stað fullkominnar óreglu; og sannast hjer, sem optar, að sá segir mest af Ólafi konungi, sem hvorki hefur heyrt hann nje sjeð. En af því ekki er að hugsa til, að lifa svo öllum líki, þá ættu menn ekki að láta sjer í augum vaxa, að gjöra eitt-

hvað við þetta mál, og væri full þörf á heilli bók um það efni, þar sem kalla má, að alls engin sje til áður. Vjer dyljumst ekki við hina miklu örðugleika, sem eru á því, að koma einhverju lagi á stafsetningu þá, sem helzt er við höfð, og það væri nærri því, að reisa sjer hurðarás um öxl, fyr enn máli voru, eins og það er nú á dögum, hefði verið lýst nokkurn veginn til hlítar; því enginn þarf að hugsa, aðstoðarlaust, að láta sjer detta í hug, á stuttum tíma, allt, sem reglurnar ættu að ná yfir. En lítið væri betra, enn alls ekki neitt; og ekkert er eins óþolandi fyrir skynsamar verur og fullkomin óregla og vitleysa. Sú stafsetning, sem nú tíðkast, ef hún er nokkur, er eins og gamall bátur, lasinn og rifinn og ófær í allar ferðir; og fyrst ekki tjáir að búa til nýjan bát, þá er ekki annað til ráða, enn bæta þann gamla, eptir því sem föng eru á. Um þetta ættu nokkrir af þeim að taka sig saman, sem helzt hafa hugsað dálítið um mál vort, og bera síðan aðgjörðir sínar undir þá tvo menn, sem allir vita, að eru sómi lands vors í kunnáttu á málinu, og er þá ekki ólíklegt, ef reglurnar væru síðan prentaðar, að flestir hinir skynsamari menn, sem ekki vilja gjöra mál vort og feðra vorra að athlægi, mundu fallast á þær og fylgja þeim.

Vjer ræðum ekki fleira hjer um að sinni, því oss nægir, að hafa minnzt á, hvað til þess kemur, að þetta ár Fjölnis er með annari stafsetningu, enn undanfarin ár.

---

# UM TEKJUR PRESTA Á ÍSLANDI.

## I.

Fyrst eptir að kristni var lögtekin á Íslandi, var þar mikill hörgull á kennimönnum, sem sjá má af Eyrbyggju (49. kap.); þar er komizt svo að orði: "prestar urðu eigi

til at veita tíðir at kirkjum, þótt görvar væri, því þeir váru fáir á Íslandi í þann tíma". En ekki leið langt um áður þeir fjölguðu, því bæði skildi Friðrekur biskup og eins Stefnir og Þangbrandur nokkra presta þar eptir, og líka fluttu þeir Gissur hvíti og Hjalti Skeggjason nokkra út þangað; litlu síðar komu einnig margir klerkar af öðrum löndum út til Íslands, sem voru kallaðir biskupar; til dæmis að taka Bjarnvarður bókvísi; hann var enskur að kyni, og fór út til Íslands að áeggjun Ólafs helga Noregs-konungs, og dvaldist þar fimm vetur; annar hjet Kolur; var hann nokkra vetur með Halli í Haukadal áður hann andaðist, og var hann fyrstur allra biskupa grafinn að Skálholti; hinn þriðji var Róðúlfur eða Úlfur frá Róðuborg; hann bjó að Lundi í Borgarfirði, og setti munklífi í Bæ, og skildi þar eptir þrjá munka þegar hann fór úr landi; hinn fjórði hjet Jón, og kalla sumir hann saxneskan, en aðrir írskan; hinn fimmti Heinrekur var tvo vetur út á Íslandi; hinn sjötti Bjarnvarður, eða Bjarnharður, saxneskur maður; hafði hann verið með Magnúsi góða Noregs-konungi, en eptir fráfall hans flýði hann til Íslands fyrir hræðslu sakir við Harald Sigurðarson, og setti bú að Steinstöðum og Giljá í Vatnsdal, og bjó þar 19 vetur eða 20; eptir andlát Haralds harðráða fór hann utan á fund Ólafs konungs kyrra, sonar hans, og sendi konungur hann til Rómaborgar að friða fyrir önduðum. Auk þessara, sem nú voru taldir, er líka getið nokkurra annara erlendra biskupa, og eru þessir einna merkastir: Örnúlfur, Gottskálk, Pjetur, Abraham, Stefán. Hungurvaka (2. kap.) kemst svo að orði um þessa biskupa: "um daga Ísleifs biskups komu út biskupar af öðrum löndum, ok buðu mart linara enn Ísleifr biskup, urðu þeir af því vinsælir við vánda menn, þar til er Adalbertus erkibiskup sendi brèf sitt út til Íslands ok bannaði mönnum alla þjónustu af þeim at þiggja, ok kvað þá suma vera bannsetta, en alla í úleyfi sínu farit hafa". Þessir biskupar

sungu bæði sjálfir messur, og líka prestvígðu þeir aðra. Á þenna hátt fjölguðu prestarnir smásaman; þeir höfðu fyrst framan af öngvar ákveðnar tekjur, heldur lifðu af því, sem góðir menn gáfu þeim, og með fram af handafla sínum, því af sögunum má ráða, að margir þeirra hafi verið góðir búhöldar, t. a. m. Grettla segir (í 67. kap.) um prest nokkurn, er Steinn hjet, og bjó að Eyjardalsá, að hann hafi verið búþegn góður og auðugur að fje. En þegar tíundarskrá Gissurar biskups var lögleidd á alþingi (1096), fengu prestarnir fjórðung tíundar og þegar kristinrjettur Þorláks og Ketils var lögtekinn (1123), fengu þeir sex álnir í líksöngskaup (5. kap.). Þessi kristinrjettur gjörði töluverða breytingu á kjörum prestanna. Þar er ákveðið (í 13. kap.), að annaðhvort skuli kirkjueigandi láta læra prestling til kirkju sinnar, og gjöra máldaga við sveininn sjálfan, ef hann sje 16 vetra, en sje hann yngri, þá við lögráðanda hans; sá, sem fjekk sveininum kennslu, hann átti líka að fá honum messuföt og bækur, þær sem biskupi sýndist svo sem veita mætti tólf mánaða tíðir með; ellegar að öðrum kosti (12. kap.) átti sá, sem á kirkjubæ bjó, að fæða prest í tvö missiri, ef hann átti þar lögheimili og söng þar hvern dag löghelgan nauðsynjalaust; ef prestur söng þar sjaldnar, átti bóndi einungis að ala hann að dagverði, þegar hann söng messu þar um daginn, og mann eða hross, ef honum fylgdi; þetta var kirkjubóndi skyldur að gjöra, hvort sem hann var landeigandi eða ekki. Auk þessa fjekk prestur kaup fyrir tíðahald sitt. Kristinrjettur segir (í 40. kap.), að sá sem kirkju varðveiti, hann eigi að kaupa tíðir að presti, svo sem hann megi við komast, og á öðrum stað (í 12. kap.), að sá, sem kirkju eigi, skuli til fá vaxljós og eigi færri messur enn tíu milli alþinga tveggja; þar er líka til tekið (í 15. kap.), að prestar eigi að selja tíðir sínar, en meta eigi dýrra enn 12 marka milli alþinga tveggja. Þetta kaupgjald hefur tillit til þeirra, sem ekki voru lærðir til

vissrar kirkju, því kjör þeirra voru komin undir máldaga þeim, sem gjörður var við kirkjueiganda, og má fortakslaust segja, að þeir hafi átt við langtum bágri kost að búa, því þeir höfðu fyrirgjört frelsi sínu, og þeim var ekki leyft að leysast frá kirkju, nema með því, að læra annan í sinn stað. Prestar þurftu ekki að tíunda bækur sínar eða föt, nje svara þingfararkaupi. Seinna komu upp lausaprestar, sem að sönnu höfðu tekið vígslu, en fóru sveit úr sveit, og höfðu hvergi lögheimili. Leikmenn höfðu upphaflega öll kirknaforráð á Íslandi, því þeir byggðu kirkjurnar, og áttu bæði land og staði; þeir tóku preststíund og kirkjutíund, og fengu presti í hendur þann fjórðung tíundar, sem honum bar; en það er fráleitt eðli katólskrar kirkju, að leikmenn hafi vald yfir nokkrum kristnum dómi, og þessvegna er þeim það harðlega bannað í kirkjulögum þeim, sem katólskir menn kalla guðslög, eða heilagra feðra setninga eða lögbók heilagrar kirkju *(jus canonicum)*; og ekki leið langt um, áður enn klerkavaldið hófst á Íslandi, og eptir því uxu líka tekjur prestanna. Ofríki og yfirgangur biskupanna byrjaði þar með Þorláki Þórhallasyni [1] (1170), og magnaðist undir Árna Þorlákssyni frá 1269, og einkum eptir það hann gaf út kristinrjett sinn (1274); hann átti í sífeldum deilum við leikmenn og Noregs-konunga út af staða umráðum og kirkna, og fylgdi því kappsamlega fram, sem hann hafði boðið í kristinrjetti, að biskup skyldi ráða kirkjum og svo öllum eignum þeirra og öllum kristnum dómi, svo og tíundum og tilgjöfum þeim, sem menn gefa guði og hans helgum mönnum löglega sjer til sáluhjálpar, því að leikmenn mættu ekki eiga vald yfir slíkum hlutum utan biskupa skipan. Það yrði of langt mál, að skýra frá öllum

---

[1]) þessi biskup var síðan tekinn í heilagra manna tölu; hann var Þórhallason, en hinn, sem tók saman kristinrjett eldra var Runólfsson.

deilum og yfirgangi Árna biskups, því hann varði allri æfi sinni til að efla prestavaldið á Íslandi, sem sjá má af sögu hans, og tókst honum með vitsmunum og harðfylgi og ófyrirlátsemi að koma þessari fyrirætlun sinni fram, og ljet hann sjer öllu fremur vera annt um, að ná undir presta stöðum og kirkjum, því leikmenn höfðu lagt ærið fje til kirkna sinna, bæði í löndum og lausum eyri; urðu þeir víðast hvar að láta undan ofríki hans, og gefa staði og tíundir í hans vald, því erkibiskupar í Niðarósi, bæði Jón og Jörundur, fylgdu máli hans fastlega; Eiríkur prestahatari Noregs-konungur veitti þó leikmönnum alla þá liðveizlu, er hann mátti, og varð það loks að sætt milli hans og Árna biskups á Ögvaldsnesi (1297), að þeir staðir í Skálholts-biskupsdæmi, sem kirkjur ættu alla, skyldu vera undir biskups forræði, en þær kirkna eignir, sem leikmenn ættu hálfar eða meiri, skyldu leikmenn halda með þvílíkum kennimanna-skyldum, sem sá hefði fyrir skilið, er gaf, en lúka af ekki framar. Við þessa sætt komust margar kirkjur og kirknaeignir í hendur presta, en þó hjeldu leikmenn mörgum eptir, og þetta líkaði eptirkomendum Árna biskups í Skálholti og eins Hóla-biskupum stórilla, og með því það var fyrirætlun þeirra, að ná undir sig öllu kirknagóðsi, þá reyndu þeir til með öllu móti að ónýta sættargjörð þá, sem gjörð var á Ögvaldsnesi milli Árna biskups og Eiríks konungs; tóku þeir því það til bragðs, að skylda kirkjubændur til að gjöra reikning af öllum tíundum og eignum þeim, sem kirkjur þeirra áttu, og leggja eptir tíundir kirknanna, og sýna eigi síður allt kirkjunnar góðs, þá er þeir skildust við jörð; því næst buðu þeir kirkjubændum að sýna með löglegum vitnum, að skuldir kirkjunnar heîðu lagst í lausafje og útjarðir, því ellegar sögðu þeir kirkjuna eiga fimmtíu hundruð í jörð þeirri, sem hún á stóð; og gjörðu biskupar þetta til þess, að ná meiru enn helmingi heimajarðanna undir kirkjurnar, því þá fjellu þær undir biskupa vald. Á þenna

hátt leituðu biskupar allra bragða, til að auka vald og tekjur kennidómsins á Íslandi, og tókst þeim þetta því betur, sem hjátrú og hindurvitni fór dagvaxandi, og prestar töldu alþýðu trú um það, að dyggð og guðrækni væri einkanlega fólgin í örlæti og fjegjöfum til kirkna og klerka og annara heilagra hluta. Snemma komu upp ýmsar aukatolla tegundir, t. a. m. ostatollur, skæðatollur, lambatollur, fiskatollur, sem voru þannig undir komnir, að þegar einhver ljet reisa kirkju eða bænahús á bæ sínum, og gaf fje kirkjunni til uppheldis, eða kennimönnum til kostar og kaupgjalds, þá hjetu sóknarmenn því einnig fyrir sína hönd og eptirkomenda sinna, að af bæjum í sókninni skyldi árlega gjalda kirkju eða presti ost, skóleður, eða lamb, eða þess andvirði, og var þetta allt kallað ískyld, en eldi prests og tíðakaup var kölluð prestskyld; en þar sem tekjur kirknanna með fyrsta hrukku ekki til þessa, þá var ákveðið, hvað mörg kvígildi eða hvað mikið úr heimajörðinni skyldi standa fyrir því, sem brysti á prestskyldina, og var það kallað prestskyld í heimalandi. Í kirkjusögu Finns biskups (3. b., bls. 336) er sagt, að prestskyld í heimalandi hafi verið 10 málnytu kvígildi og 10 geldfjár kvígildi, og er þar vitnað til samnings þess, sem Ólafur Hjaltason Hóla-biskup gjörði 1553 við Vigfús Þorsteinsson, eiganda Áskirkju í Þingeyjarsýslu. Verið getur, að prestskyld í heimalandi hafi þannig verið ákveðin á sumum stöðum, en kirknamáldagar sýnast benda til þess, að hún hafi ekki verið alstaðar jafnmikil, t. a. m. í máldaga kirkjunnar í Ási 1399 stendur: "er þar prestskyld, ok tekr heima í leigu IV merkr, en utangarðs XII aura"; í máldaga Ingjaldshóls-kirkju er kveðið svo að orði: "Gunnarr bóndi Hauksson, er kirkjuna lèt göra ok þá átti Ingjaldshvál, lagði þessa skyld í heimaland — bóndi sá, er býr á Ingjaldshváli, skal greiða presti hálft annat hundrað frítt á hverju ári, en X aura til Fróðárkirkju; hann skal ok fæða prest þá daga, er hann

syngr þar messu, ok mann með hánum á vetr eða hest, ef prestr hefir eigi langsetur; hann skal halda upp allri kirkjuskyld"; máldagi kirkjunnar í Bræðratungu segir svo: "Andrèskirkja í Tungu á svá mikit í heimalandi, sem prestskyld heyrir, II kýr ok XII ær — þar skal vera prestr"; Staðarfells-kirkju máldagi getur ekki um prestskyld, en segir þar skuli vera heimilisprestur, og ákveður ekki kaupgjald hans; þar á móti segir í máldaga kirkjunnar í Sælingsdalstungu; "kirkjan á ekki í heimalandi, þar á at vera heimilisprestr — prestr í Tungu skal taka IV merkr heima", og í Tungufells-kirkju máldaga: "þar skal vera heimilisprestr, skal bóndi lúka hánum IV merkr hvert ár í tíðarentu". Af þessu sjest, að prestskyld hefur ekki alstaðar verið jafnmikil, þar eð heimilisprestur og prestur á kirkjufjám eru taldir, þar sem engin prestskyld er til tekin, og skyld í landi eða prestskyld í heimalandi, þar sem ekki var heimilisprestur; það má líka sjá af kirknamáldögum, að staðarpresturinn átti sumstaðar að ala einn eða tvo presta aðra, en hvergi er þess getið, hverjar tekjur þessir prestar hafi haft, nema í Oddakirkju máldaga er sagt, að annar presturinn eigi að fá 4 merkur, en hinn 10 aura fyrir sálumessur. Af þessu virðist það líka auðsætt, að prestskyld muni víða hafa verið misjöfn, og hygg jeg, að þannig hafi verið kallað allt það fje, sem presti var goldið í tíðakaup, bæði eptir biskups úrskurði og samkomulagi við kirkjueiganda, og að prestskyldin hafi verið lögð í heimalandi, þar sem kirkjan upphaflega átti ekki svo mörg kvígildi, að numið gætu prestseldi og tíðakaupi. Það er ekki ólíklegt, að kirkjueigandi og prestur hafi samið um tíðarentu, þar sem hennar er ekki getið í máldögunum, og má af sumum máldögum ráða, að biskupar hafa ekki með eindæmi sínu getað ákveðið hana, t. a. m. í máldaga kirkjunnar í Hvammi stendur: "Jón játti biskupi (Jóni Haldórssyni)

tveggja manna skyld, eptir því sem áðr hefir verit í Hvammi, prests ok djákna".

Þess er áður getið, að kjör presta komust í allt annað horf eptir sættargjörðina á Ögvaldsnesi 1297 milli Eiríks konungs og Árna biskups, því þá fengu þeir ráð yfir mörgum stöðum, kirkjum og kirkna eignum, sem þeir höfðu ekki áður haft, og tóku þar að auki allar presttekjur og tíundir úr sóknum sínum; þeir sem höfðu útkirkjur fengu einnig hundraðskaup á hverri þeirra og af hverju bænahúsi víðast hvar 6 aura, og sumstaðar meira.[1] Jeg hef einnig áður minnzt á líksöngseyri, og að hann hafi verið sex álnir eptir eldra kristinrjetti; þar er þriggja marka sekt við lögð væri honum haldið. Að sönnu bannaði kristinrjettur yngri (11. kap.) að kaupa leg að kirkju og líksöng, og er það samkvæmt lögbók heilagrar kirkju, en Árni biskup bjó samt svo um hnútana, að prestar höfðu ekki halla við það, því hann segir, að fyrir því það sje hvervetna háttur góðra kristinna manna, að gefa nokkuð til kirkna eða kennimönnum til bænahalds fyrir þeim, sem fram eru farnir af heiminum, þá eigi biskup að þrýsta þeim til, sem ellegar vilji umrækja, að gjöra slíkar minningar, sem að fornu hafi verið á Íslandi. Það lítur svo út, eins og seinni biskupar hafi í þessu efni fylgt hvorumtveggja kristinrjetti, og látið presta bæði taka líksöngseyri eptir hinum eldra, og gjafir eða minningar eptir hinum yngra. Pjetur biskup Nikulásson á Hólum (um aldamótin 1400), sem þó fylgdi kristinrjetti Árna biskups eins og allir hinir katólsku biskuparnir, leggur þriggja marka sekt við, eins og kristinrjettur eldri, ef líksöngseyri sje ekki lokið í tíundareindaga. Þessi Pjetur biskup er hinn fyrsti, sem hefur ákveðið, að prestum skyldi gjalda 18 álnir í oleunarkaup, Það er ekki efunarmál, að prestar

---

[1]) Næstum því hverri kirkju fylgdu fleiri enn eitt bænahús, og sumum 7.

hafa einnig fengið talsverða þóknun fyrir önnur aukaverk, t. a. m. barnaskírn, hjónavígslur, og innleiðslu kvenna í kirkju; því þó bæði Árni biskup í kristinrjetti sínum (11. kap.) og Eyleifur erkibiskup banni að heimta borgun fyrir þesshátttar verk, má þó af tilskipunum þeirra ráða, að þeir hafa ætlazt til, að þau væru launuð. Eyleifur erkibiskup fer þar um svo felldum orðum[1]: "fyrirboðit er ok öllum lærðum mönnum undir banns pínu at göra nökkut kaup, eða skilyrði, eða taka við eða krefja nökkurn mann fyrir púsan, olean, eða nökkut annat sitt prestligt embætti, þat sem hverr er skyldr at göra kaupláust; en krefja má síðan gört er forna skuld". Áður enn jeg skilst við tekjur katólsku prestanna, vil jeg geta þess, að þó fjesektir sjeu nokkuð felldar niður í kristinrjetti yngra, þá gætir þess eigi vegna þess, að fjárútlát eru þar komin aptur í stað fjörbaugsgarðs og skóggangs, sem kristinrjettur eldri hafði lagt við stórbrot; fjesektir fóru líka allt af vaxandi, eptir því sem biskupar drógu fleiri mál til kristins rjettar, og þó ekki væri lagður tollur á skriptir, má samt nærri geta, að þeir, sem voru í stórskriptum, muni hafa þægt prestinum einhverju, til að ávinna sjer hlífð og hliðdrægni.

II.

En þessi gullöld prestanna leið undir lok með síðari siðaskiptunum; þegar undirstaðan hrundi, sem flestar prestatekjurnar voru byggðar á, þegar hjátrú og hleypidómar tóku til að eyðast, þá hvarf líka klerkavaldið og með því mestar tekjur þeirra og tollar. Það vildi svo óheppilega til, að við siðaskiptin voru hvorki skólar á Íslandi, enda þekktu landar vorir lítið til bókmennta og vísinda um þær mundir; klerkar voru því með öllu ólærðir og svo fákunnandi, að alþýða gat ekki virt þá mikils.

---

[1]) Hist. eccl. Isl. I. b. bls. 493.

Þeir misstu þá mestallar tekjur sínar, og hjeldu ekki öðru eptir enn tíundinni, heytollinum og dagsverki hjá þeim bændum, sem eigi voru í skiptitíund eða sem tíunduðu minna enn fimm hundruð [1]. Það má og telja með tekjum presta, að þeir þurfa ekki að borga tolla þá, sem aðrir verða að gjalda af fje sínu, nema fátækra tíund, og hafa þeir haft þetta frelsi frá því á þrettándu öld og allt á þenna dag. Mikinn halla höfðu bæði prestar og kirkjur í Skálholts-biskupsdæmi við það, að stólsgóðsið var þar ótíundað, og var það biskupum að kenna, því bændur vildu ekki borga tíundir af ábýlisjörðum sínum, nema landskuldir væru felldar niður að því skapi, en biskupar vildu einskis í missa, og þessvegna fórst það jafnan fyrir, að jarðirnar væru tíundaðar; en í Hóla-biskupsdæmi bauð Friðrik konungur annar, 21. dag marz-mán. 1575, að telja allar jarðir til tíundar, hver sem þær ætti, og Kristján fjórði endurnýjaði þá skipun 1591, að svo miklu leiti sem kirkjutíund snerti. Auk þessa, sem nu er talið, taka prestar landskuldir og leigur af kirknajörðum og hálfar leigur eptir kvígildi á útkirkjum, síðan það var samþykkt á alþingi 1660. Um bújarðir presta vil jeg fyrst geta þess, að það fór svo fjærri því, að þeim væru fengnar bújarðir af klaustra-góðsi eða öðru, sem við siðaskiptin fjell undir konung, að þeir voru margir, sem alls öngva bújörð höfðu, einkum í þingabrauðum. Fyrir bænastað Gísla Jónssonar biskups í Skálholti og Guðbrands Þorlákssonar á Hólum, bætti Friðrik konungur annar nokkuð úr þessu með því hann gaf árlega fátækum prestum í Skálholts-biskupsdæmi 200 ríkisdali, en þeim í Hóla-biskupsdæmi 100 ríkisdali, og bauð þar að auki Guðbrandi biskupi að sjá prestunum fyrir jarðnæði af klaustragóðsi

---

[1]) Dagsverkið er komið til Íslands úr *Articuli Ripenses*; það er samþykkt á alþingi 1601 og 1678, og af amtmanni *Fuhrmann* 21. dag júlí-mán. 1721, og á prestastefnu 1726.

eða stólsjörðum, en Gísli biskup í Skálholti varði því fje, sem þangað var gefið, til að kaupa fyrir það jarðir með eins miklu afgjaldi og svaraði leigu fjárins, og fengu 32 prestar með því móti ábýlisjörð, en 6 presta ljet hann fá stólsjarðir til ábúðar. Þó voru það margir prestar löngu þar á eptir, sem öngva ljensjörð höfðu, því 1760 bar Gísli Hóla-biskup þetta málefni upp fyrir konungi, og ári síðar 18. dag apríls, lagði konungur þeim prestum til leyfis, sem ekki hefðu ábýlisjörð í sóknum sínum, að fá prófast, sýslumann og tvo áreiðanlega menn til að velja sjer bújörð, en þó voru þær undan skildar, sem annaðhvort eigandi byggi á, eða sýslumaður, eða sá sem hefði verið þar 20 ár og setið jörðina vel, eða hún væri ljensjörð einhvers annars. Eptirgjald jarðarinnar átti prestur að fá í hendur ábúanda, sem skyldaður var til að standa upp af jörðinni, en sýslumanni var boðið, að fá honum aptur einhverja hentuga og haganlega ábýlisjörð. Jarðir þessar skyldu vera æfinleg prestasetur, meðan þeir ættu ekki sjálfir jörð í sóknum sínum, en eignuðust þeir jörð innansóknar, þá skyldi byggja ábýlisjörð þeirra öðrum. Þó eru prestar ekki skyldir að búa á ljensjörðinni, fremur enn þeir sjálfir vilja (sbr. kanselíbrjef 17. febr. 1816).

Reglugjörðin 17. júlí 1782 hefur nú um langa hríð verið grundvöllur undir prestatekjunum, þó hún sje víða hvar gengin úr gildi. Prestarnir hafa haft óbærilegan halla við það, að landaurar eru sumstaðar í þessari reglugjörð metnir til peninga, því prestinum hefur einlægt verið borgað eptir því skildingatali, sem þá var, þó peningaverðið hafi allt af verið að breytast, og sje nú orðið allt annað, t. a. m. líksöngseyrir er þar metinn annaðhvort á 12 fiska eða 27 skildinga; þá var 1 fiskur á 2¼ sk., en nú er hann jafnaðarlega 7½ sk.; líksöngseyririnn er því eptir núverandi peningareikningi 90 skk. Sumar tekjur presta eru nú goldnar eptir verðlagsskrá, t. a. m. dagsverk, lambseldi, landskuldir og stundum leigur. Í 12. §

reglugjörðarinnar er að sönnu boðið, að bæði biskupar og veraldlegir embættismenn, umboðsmenn, klausturhaldarar, jarðeigendur, verzlunarmenn og þjónar þeirra eigi að gefa presti offur á þeim þremur stórhátíðum, jólum, páskum og hvítasunnu; en af því þar er ekki til tekið, hvað miklu offra skuli, heldur einungis sagt, ad offrið eigi að vera sómasamlegt, þá urðu margir til að láta það lítið heita; varð því að ákvarða þetta nákvæmar með lagaboði, sem dagsett er 4. júni 1790, og er þar boðið, að þeir sem tregðist við að greiða presti offur, skuli vera skyldir til að offra á hverri hátíð fjórum mörkum, ef það eru sýslumenn, konunglegir embættismenn eða verzlunarmenn, en einu marki bændur, sem að minnsta kosti eiga 20 hundruð í jörðu og að auk telja 10 hundruð til lausafjártíundar. Fyrir liðugum 20 árum síðan tók að brydda á því, að bæði hreppstjórar og aðrir veraldlegir embættismenn tregðuðust við að gjalda tíund presti og kirkju, og báru klerkar sig upp um þetta við biskup, Geir heitinn Vídalín; ritaði hann þá kanselíinu og beiddist úrskurðar þess bæði um það, hvort tíundarfrelsi það, sem hreppstjórum væri gefið með konungsúrskurði 21. júlí 1808 (í 4. §), næði til preststíundar og kirkjutíundar, og hvort veraldlegir embættismenn væru með konungsúrskurði 17. dag marz-mán. 1774 leystir undan þessari tíundargjörð. Kanselíið þverneitaði hinu fyrra í brjefi sínu, sem það sendi biskupinum 24. dag maí 1824, en kvað konungsúrskurðinn 17. marz 1774 hafa einungis tillit til konungstíundar, og vitnaði til ýmsra brjefa stjórnarráðanna, sem sönnuðu þetta. Í reglug. 17. júlí 1782 (í 10. §) er boðið, að borga skuli prestum aukaverk sín á þann hátt, að megandi bændur og þeir, sem bezt væru efnaðir, gjaldi t. a. m. fyrir trúlofun 2 mörk í kúranti, bændur í heldri röð gjaldi 24 skk., miður efnaðir gjaldi 16 skk. og hinir fátækustu gjaldi ekkert; fyrir barnskírn gjaldi hinir efnuðustu 24 skk., miðlungsbændur gjaldi 14 skk., bjargálnamenn gjaldi 10 skk., og öreigar

gjaldi ekkert; innleiðsla kvenna í kirkju er metin helmingi minna enn barnskírn. Þessum gjöldum var nú loks breytt með tilskipun, sem birtist 8. dag marz-mánaðar í fyrra, og í stað þess þau hingað til hafa verið borguð með hinu sama skildingatali sem í reglug. 17. júlí 1782 er til tekið, þá á nú eptirleiðis að greiða þau í landaurum á þenna hátt: "fyrir hjónavígslu með tilliti til þess þar fyrirskipaða "flokkaskiptis, af 1. flokki 7 álnir, af 2. flokki 5½ al., "af 3. flokki 3½ al. og af 4. flokki 2½ al. Fyrir barns "skírn af 1. flokki 5½ al., 2. flokki 3½ al., og af 3. "flokki 2½ al. Fyrir undirbúning barna til fermingar hið "sama sem fyrir barns skírn, að tiltölu við þann flokk, til "hvers foreldrarnir heyra, og fyrir innleiðslu kvenna í "kirkju helmingur þess gjalds." Það er ljótur ágalli á þessum flokkaskiptum, að þeir eru svo ógreinilega ákveðnir, að ætli prestar þráðbeint að taka tekjur sínar eptir þeim, getur út af því risið mikil óvild og ágreiningur um það, í hvaða flokki bændur sjeu, þar sem þeir eru hvorki skorðaðir við tíundarupphæð eða fast ákveðna fjáreign. Að sönnu er jeg sannfærður um það, að flestir prestar muni heldur vilja nokkurs í missa, enn eiga í þrætum við bændur um það, eptir hvaða flokki þeim beri að greiða prestsgjöld, og sízt þeir fari að leita yfirvalds úrskurðar, því bæði er optastnær um svo lítið að tefla, að engum mundi þykja það til vinnandi, og þar að auk er það með öllu óprestlegt og andlegu embætti ósamkvæmt, en þó verður erfitt að mæla þesskonar ónákvæmni nokkra bót, sem elur óreglu, en heitir þó "reglugjörð".

Það hafa margir, einkum á fyrri tímum, orðið til, bæði á Íslandi og erlendis, að reyna til að bæta úr bágindum prestanna með fjegjöfum, sem jeg leiði hjá mjer að telja upp í þetta sinn, því bæði er sagt frá þeim í eptirmælum átjándu aldar, og hinar seinni gjafirnar má sjá í kirkjusögu Íslands frá 1740 til 1840, hingað og þangað. Það er hvorttveggja, að opt hefur farið órjelega um gjafir

þessar, enda hefur brauðunum aldrei getað orðið sönn endurbót að þeim, þó þær hafi, ef til vill, komið einstökum prestum að haldi, og hefur þó orðið að býta þeim út meðal svo margra, að lítið hefur komið á hvers hluta; en þá er þeim eins varið og hverri annari hjálp, sem ekki getur bætt úr þörf vorri til hlítar, að hún gjörir lítið annað að verkum, enn að sýna mönnum enn betur ofan á, að þeir sjeu hjálparþurfar. Ekkert bætir brauðin, nema svo sje, að ávextir þess nái til manns fram af manni; þessvegna geta fjegjafir ekki orðið þeim að liði, utan það sje æfinleg gjöf, eða fjeð sje sett á leigu, eða prestar geti einhvernveginn varið því brauðunum til bótar. Einungis í þessu tilliti get jeg hjer fjár þess, sem konungur hefur nú í nokkur ár látið útbýta úr Íslands sjóði meðal aumustu brauða, og er þó tvísýnt, hvað lengi það muni haldast. Auk fjegjafa þessara hafa líka aðrar tilraunir verið gjörðar til að bæta brauðin á Íslandi, bæði af stjórninni með lagaboðum þeim, sem áður er getið, er miða til að ákveða og auka tekjur prestanna, og líka af einstökum mönnum, sem annaðhvort að boði stjórnarráðanna eða sjálfkrafa hafa sent þeim hjeraðlútandi uppástungur, og hafa sumir þeirra látið sjer lynda, að kæra fyrir stjórnarráðunum bágindi kennidómsins, en sumir hafa einnig reynt til að leiða í ljós, hvernig ráða mætti bætur á þeim. Það var, til dæmis að taka, 1778, að margir prestar rjeðust í að rita kanselíinu og leita styrks hjá því til að geta bætt kirkjur þær, sem rjenað höfðu, því viðarkaup voru í þær mundir óbærileg, eptir þeirri verðlagsskrá, sem þá við gekkst; kanselíið sendi þá landstjóra og biskupum á Íslandi brjef sitt 30. dag maí 1778, og spurði, hvernig þeim þætti bezt til fallið að auka tekjur prestanna. Hið almenna kirknaumsjónarráð, sem þá var uppi, hjet því jafnframt, að bráður bugur skyldi verða undinn að málefni þessu; en þó varð því ekki framgengt í það sinn. Níu árum síðar sendi Hannes biskup Finnsson kanselíinu uppá-

stungu til að bæta kjör prestanna, en gat ekki áunnið annað, enn að kanselíið sendi uppástungu hans hinni íslenzku verzlunarnefnd; þó gafst hann ekki upp við svo búið, heldur ritaði kanselíinu annað brjef 1791 um sama efni, og leiddi því fyrir sjónir, að flest brauð á Íslandi væru svo rýr og vesöl, að prestar gætu ekki á þeim lifað, þó þeir væru bæði sparsamir og góðir búmenn, en af því leiddi, að þeir fengju ekki haldið virðingu þeirri, sem kennimönnum væri ómissandi. Kanselíið ritaði nú brjef til landstjóra, Ólafs Stefánssonar, og Sigurðar biskups Stefánssonar á Hólum (7. jan. 1792) og spurði, hvernig þeir hjeldu ráðlegast væri að bæta kjör prestanna; þó jeg hafi ekki sjeð svör þeirra, þá er hitt þó víst, að af þeim hefur enginn árangur komið í ljós. Um aldamótin sendi landsprófastur sjera Markús Magnússon kanselíinu nokkrar uppástungur um endurbót brauða á Íslandi, sem kanselíið sendi landstjóra og biskupi, og bauð þeim að segja álit sitt um þær; en þær hafa einhvernveginn farizt og að líkindum aldrei aptur komið. Skólabótanefndin á Íslandi skrásetti 1802 mart um bætur á brauðum og prestakjörum, biskup gjörði við það athugasemdir og kanselísekretjeri *Sivertsen* bjó til ágrip af því; að því búnu var það sent úr rentukammerinu í kanselíið; en af því uppástungur þessar voru einskorðaðar við ný sýsluskipti og sóknabreytingar, og þóttu líka í mörgu öðru tilliti vandasamar, þá kom stjórnarráðunum það ásamt, að bíða skyldi byrjar og skjóta þessu málefni á frest þangað til betur bljesi. Árið 1839, 27. dag febrúars, sendu þeir biskup og landstjóri á Íslandi rentukammerinu álit sitt um það, hvernig bæta mætti brauðin, og eins gjörðu amtmennirnir fyrir norðan og vestan; rentukammerið sendi þessi skjöl kanselíinu og kanselíið sendi þau aptur embættismannanefndinni í Reykjavík 15. dag októbers 1840, og æskti þess, að nefndin segði álit sitt um þær uppástungur, sem biskup og landstjóri og Bjarni heitinn amtmaður *Thorarensen* höfðu samið um að breyta reglu-

gjörðinni 17. júlí 1782. Nefndin hlýddi þessu, en sendi kanselíinu um leið lagafrumvarp um sama efni, og því næst bar kanselíið þetta mál undir konungs-úrskurð. Konungi þótti það áhorfsmál, eins og þá stóð á, að fara eptir þessum uppástungum, að því leiti sem þær ætluðust til, að tekjur prestanna væru auknar fram yfir það, sem til er tekið í reglugjörðinni 17. júlí 1782 um borgun fyrir aukaverk þeirra, en þótti það þó sanngjarnlegt, að borgun þessháttar verka væri komið í sama horf sem þá var, af því verðlag peninga og landaura raskaðist og ruglaðist við tilskipunina, 13. júní 1787, um hina íslenzku verzlun; hann ljet því semja annað lagafrumvarp, sem borið var undir fulltrúaþingið í Hróarskeldu; og eptir allan þenna undirbúning birtist loksins tilskipun sú, sem áður er á vikið, 8. dag marz-mánaðar í fyrra. Þótt Konungi hafi þótt vandhæfi á því í bráðina, að breyta öðrum tekjum prestanna, enn borgun á aukaverkum og yfirliti kirkjureikninga, þá vill hann þó eigi láta við svo búið standa, heldur hefur hann falið kanselíinu á hendur að bera upp aðra greinilegri og yfirgripsmeiri uppástungu, og síðan ætlar hann að bera lagafrumvarp um þetta málefni undir alþingismenn. Af því kanselíið þykist ekki vera svo kunnugt ásigkomulagi Íslands, að þetta lagafrumvarp verði samið í Danmörku, þá er það haft í ráði, að byggja ofan á hitt, sem embættismannanefndin í Reykjavík setti saman, en umbreyta því þó í ýmsum greinum áður enn það er borið undir alþingismenn, og hefur biskupi og landstjóra, og líklega amtmönnum á Íslandi, verið falið á hendur, að bera lagafrumvarpið undir aðra skynsama menn, ef þess væri kostur.

## III.

Mjer hefur ekki þótt það þurfa sönnunar, að brauðin á Íslandi þyrftu endurbótar við; því það votta allar tilraunir þær, sem gjörðar hafa verið til að bæta þau, og

á er vikið. Kjör margra presta á Íslandi eru svo bágborin, að óhætt er að fullyrða, að óvíða annarstaðar muni finnast þess dæmi; þeir verða flestir að berjast fyrir lífi sínu og sinna, og þykir gott, ef þeir deyja ekki út af í sulti og seyru, þó þeir vinni baki brotnu og erji vetur og sumar. Að brauðin þurfa endurbótar við er óyggjandi, en hvernig bótin á að vera, og hvaðan hún á að koma, úr því er torvelt að ráða. Hjer má enginn búast við að heyra neina stórkostlega uppástungu um endurbót brauðanna, heldur einungis fáeinar athugasemdir um það, hvaðan eðlilegast er að bæturnar komi, eptir því sem nú er á statt. En fyrst má geta þess, að þó því verði eigi móti mælt, að það sje skylda stjórnarinnar að sjá embættismönnum sínum fyrir uppheldi, og einkum prestunum, sem allra sízt ættu að slökkva andann í búksorg og veraldlegri áhyggju, þá má þó stjórninni mart telja til málbóta í þessu efni, eins og það nú er komið. Við síðari siðaskiptin var öðru máli að gegna, þá hefði verið hægt að leggja til brauðanna nokkuð af klaustra-góðsunum og eins af biskupsstóla eignunum þegar þær voru seldar, en það hefur einatt litið svo út, eins og prestarnir og brauðin á Íslandi hafi engan rjett átt á sjer, að minnsta kosti mátti sjá það á kirkjunum við siðaskiptin, því flestir menjagripir þeirra úr gulli og silfri voru þá frá þeim teknir og látnir í konungs sjóð. Þegar menn skoða tekjur prestanna á Íslandi, eru þær í tvennu fólgnar; annað eru aðgjöld, en annað ágóðinn af bújörðunum. Eptir því, sem nú sýnist vera orðin stjórnarregla Dana — að Ísland skuli bera sig sjálft — er óhætt að fullyrða, að stjórnin muni ekki leggja prestunum á Íslandi laun úr almennum ríkissjóði. En jafnlítt er við því að búast, að fulltrúar Íslendinga muni gefa það ráð, að lagður verði beinlínis skattur á landið til að auka aðgjöld prestanna. Það er að sönnu sannfæring mín, að þegar alþingismenn hafa nákvæmlega jafnað saman því fje, sem á ári hverju er varið úr

almennum sjóð til Íslands þarfa, við ágóðann af eignum landsins og álögur þær, sem liggja á þjóðinni, og renna annaðhvort í allsherjarsjóð, eða til embættismanna, eða til Dana einna, muni þeir komast að raun um, að landið geldur miklu meira, enn það tekur í aðra hönd. En af því mikill partur af álögum þessum felst í verzlunarokinu, og jeg býst ekki við, að þegar því verður ljett, muni nokkrar aðrar álögur verða lagðar á landið í stað þess, nema svo fari, að menn sjái þá, að tekjur landsins samsvari ekki því fje, sem nú er varið til landsins þarfa, þá býst jeg ekki heldur við, að tekjur prestanna geti átt von á nokkurri rífkun af nýjum, ákveðnum sköttum, fyr enn, ef til vill, þegar stundir líða. Öðru máli er að gegna um það, að nokkuð mætti bæta brauðin með því að hækka borgun á aukaverkum presta, eins og jeg hef áður vikið á; þó verður endurbót þessi prestum ekki eins notadrjúg og hún sýnist í fyrsta áliti, vegna þess að verk þeirra verða naumast metin dýrra enn því svarar, sem efnabændur gáfu þeim áður góðfúslega; meðan reglug. 17. júlí 1782 var óbreytt, þótti flestum það ósæmilegt, að bjóða presti sínum eins lítið og þar er til tekið, og gáfu honum þráfalt meira enn ákveðið er í tilskipuninni 8. marz í fyrra, en nú er jeg hræddur um, að flestir láti þar við lenda, enda hef jeg heyrt, að mörgum presti væri illa við þessa tilskipun. Þó hún rífki ekki tekjur prestanna, fellur mjer hún samt vel í geð, að því leiti sem prestar hafa nú fengið að vita, eptir hverju þeir eiga að ganga, og geta gegnt embætti sínu með meiri djörfung og frelsi, þegar þeir eru ekki komnir upp á örlæti bænda, og vita, að tekjur sínar, hversu litlar sem þær eru í raun og veru, heita lögboðið gjald en ekki gjafir; þó spillir það miklu, að flokkaskiptin eru þar svo ógreinileg, og er vonandi, bæði að þau verði nákvæmar ákveðin og brauðin bætt með einhverju öðru móti, því ellegar kemur endurbót þessi frámunalega ójafnt niður á brauðin, því að í fámennum sóknum eru aukaverkin varla

teljandi. Það hefur stundum átt að reyna til að bæta brauðin með því að steypa brauðum saman og gjöra eitt úr tveimur, þar sem svo á stæði, en óvíða mundi þessu verða komið við á Íslandi, vegna erfiðleika þeirra, sem prestur og sóknarfólk á flestum stöðum eiga við að stríða, sökum vegalengdar, vatnsfalla og ýmislegra torfærna, sem of víða leiðir af sjer hirðuleysi í fræðingu barna og tíðasóknum, og deyfir og deyðir allt andlegt fjör og samheldi, bæði hjá prestinum og sóknarbörnum hans. En einhver kynni að segja — og það hefur líka áður verið sagt — þá geta prestarnir tekið sjer aðstoðarpresta, og látið þá fá nokkuð af tekjunum; en allir sjá, að með því er ekkert áunnið nema illt eitt; brauðin fækka þá hvorki nje batna nema að nafninu til, og öll líkindi eru þá til, að embættið verði miður stundað enn áður; auk þessa eru rjettindi aðstoðarpresta svo lítil, og hagur þeirra svo stopull, að það má virðast áhorfsmál að fjölga þeim fram yfir það sem nú er; við því mætti líka búast, að þegar búið væri að steypa fleiri brauðum saman, þá mundu sóknarprestarnir, sem að líkindum yrðu aldraðir menn, hvíla sig eptir hita og þunga dagsins, en láta flest embættisverk og ferðalög lenda á aðstoðarprestum sínum; en allir heilvita menn sjá, að einum manni yrði þetta ofvaxið, þó hann væri einhleypur og búlaus, en því meiri ofætlun væri það fyrir hann, ef hann væri kvæntur og þyrfti líka að vera fyrir búi sínu. Ekki mundi brauðunum heldur verða bót í því, að selja allar kirkjujarðir og setja andvirði þeirra á leigu, og ber það einkum til þess, að verði ekki leiga andvirðisins meiri enn nemur landskuldar upphæð, þá er ekkert áunnið með því, en prestinum bökuð þau umsvif, að kaupa það, sem hann við þarf af landaurum, fyrir peninga, í stað þess hann tók áður við landaurum á hlaðinu hjá sjer; en þó nú svo mikið fengist fyrir jarðirnar, að leiga þeirra peninga yrði meiri enn landskuldinni nemur, þá yrði það þó að líkindum skaði fyrir prestinn með tíma-

lengdinni, ef verðlag landaura og peninga breytist eins eptirleiðis og það hefur gjört núna í 60 ár, þar að auk eru jarðirnar æfinlega vísar, hvernig sem fer.

En þó að lítil líkindi sjeu til, að aðgjöld prestanna verði beinlínis ríkuð svo að nokkru nemi, er þó vonandi, að þau aukist smátt og smátt, eptir því sem velmegun fer vaxandi í landinu, því allir vita hversu mikið aðgjöld prestanna eru komin undir auðlegð sóknarfólksins. Það er þá einnig mjög áríðandi að þessu leiti, að atvinnuvegum í landinu verði fjölgað og um þá rýmt, að jarðarræktinni verði komið í annað horf, og búnaðarhættir bænda og bjargræðis-útvegir til lands og sjáfar fái betri stefnu; en af því það er ekki fyrirætlun mín að sýna, hvernig þessu, hverju um sig, yrði bezt komið til leiðar, eða tala um fjárhag allrar þjóðarinnar, þá læt jeg mjer lynda að minnast með fám orðum á hina endurbót brauðanna, sem undir því er komin, að staðirnir sjeu vel setnir. Embætti prestanna er í sjálfu sjer svo háleitt og fagurt, að ekkert getur verið blessunarríkara fyrir aðra, nje indælla fyrir sjálfa þá, enn að leiða bræður sína á guðs götu og auðga þá að andlegum fjársjóðum; það mun því ekki hætt við, að nokkur misskilji svo orð mín, þó jeg álíti það skyldu prestanna að sitja staðina vel, að mjer geti það til hugar komið, að prestar megi vanrækja vísindi eða embættisverk sín sökum nokkurra veraldlegra hluta; það er ótilhlýðilegt fyrir alla, að meta líkamann meir enn sálina og hið jarðneska meir enn hið himneska, en engum sómir það eins illa og prestunum; þeir prestar, sem niður sokknir eru í búksorg og áhyggju, en hugsa lítið eða ekkert um embætti sitt, eru stjett sinni til hinnar mestu svívirðingar, og ábyrgðarhluti þeirra er meiri enn flestra annara manna. En þó þessu sje þannig háttað, þá er það bæði guðsorði og skynseminni samkvæmt, að prestar ali önn fyrir tímanlegri velgengni sinni, og færi sjer þá hluti í nyt, sem þeim eru lagðir til lífsuppheldis. Í flestum

löndum eru prestar bundnir við einhvern búskap, og á Íslandi verður ekki öðru við komið; því engin brauð eru þar svo inntektamikil, sízt upp til sveita, að prestar geti lifað eingöngu á tekjum sínum, og sumstaðar hafa þeir við lítið annað að styðjast enn bújarðir sínar; þeim er það því mjög áríðandi, vegna tímanlegrar velgengni sinnar, að þeir sitji staðina vel; þeir þurfa ekki að vanrækja vísindi eða verk köllunar sinnar fyrir það, þó þeir hafi gætur á því, að allt fari í sniðum á heimilinu, eða þó þeir líti eptir því, að verkum sje reglulega niður skipað; það ætti miklu fremur að vera þeim sjálfum hvíldarstund, sem svo er varið, frá andlegri áreynslu, og gefa þeim nýtt þol og fjör til embættisiðna sinna; þetta ber líka einkum að á sumrum, en veturnir eru býsna langir og mart má á þeim iðja og að hafast og auðgast að fróðleik og vísindum; það verður líka að auka virðingu sóknarfólks á prestum sínum, ef þeir líta eptir heimilisháttum sínum með forsjá og reglusemi, og ganga á undan öðrum í því með góðu eptirdæmi. Það er líka til þess ætlandi af prestum, að þeir sjeu svo samvizkusamir, að líta ekki eingöngu á sinn hagnað í þessu efni, heldur gæta þess einnig, að eptirkomendur þeirra og brauðin sjálf hafa af því ómetanlegan halla, ef staðirnir eru níddir niður. Þó ekki væri nú annað að hafzt, enn að staðirnir væru vel hirtir, ræktun túns og engja kostgæfilega áfram haldið og hlunnindi jarðanna stunduð með stjórnsemi og framkvæmd, þá sannfærir reynslan oss um það, að bújarðirnar mundu batna talsvert, þó það yrði ekki allt í einu; en langtum bráðari og betri endurbót mundu þær fá við það, ef túnin yrðu umgirt og sljettuð, og ræktuð að því skapi vel, ef vatni yrði veitt á engjar og af þeim aptur á hagan- legum tímum ársins, og öll þau gæði stunduð, sem hver jörð hefur til að bera; en til þessa þarf, bæði að prestar fái þekkingu á eðli jarða sinna, kunnáttu til að verja þekkingunni jörðunum til bóta, áræði til að hagnýta sjer

kunnáttuna, og nokkur efni til að styðja með áræðið og takast þessháttar hluti í fang. Því mun enginn geta hrundið með rökum, að þetta yrði bæði bújörðunum og brauðunum einhver hin bezta og haganlegasta bót; en það er sjer í lagi tvennt, sem við þetta efni er aðgætandi, hvort þessháttar búsýslur mundu ekki draga hugi prestanna of mjög frá hinni andlegu köllun þeirra, og hvort þessu muni nokkurntíma verða komið við á Íslandi. Um hið fyrra ber þess að gæta, að allir prestar á Íslandi þurfa að hafa einhvern búskap og hugsa nokkuð um hann, en flestum er hann nú sem stendur annaðhvort til niðurdreps eða einberrar armæðu, og flestir verða að arga og erja og verja talsverðum tíma til hans, án þess þeir beri þó þann arð úr býtum, sem samsvari áhyggju þeirra og erfiðismunum; nú er það svo í hverjum hlut, að allt vill lagið hafa, og að langtum minna þarf að hafa fyrir þeim hlutum, sem byggðir eru á þekkingu, forsjá og framsýni, enn hinum, sem barðir eru fram blákaldir í hugsunarleysi og vankunnáttu; það er því ótrúlegt og eðli hlutanna öldungis gagnstætt, að ímynda sjer, að það mundi deyfa andlegt fjör og framkvæmdarsemi prestanna, þó búsönnum þeirra væri komið í betra horf, þó þeir lærðu betur að þekkja eðli jarðarinnar og laga búskap sinn eptir því; það væri langtum skynsamlegra að geta sjer hins til, að eptir því sem þekking þeirra færi vaxandi, og þeir þyrftu að hafa minna fyrir búskapnum, og sæju góðar afleiðingar hans, þá mundu þeir bæði fá betri hentugleika til að gegna embættisönnum sínum og stunda þær með betra og glaðara geði enn áður; því betur sem menn læra að þekkja eðli hlutanna og krapta þá, sem stjórna náttúrunni, því andlegri verða hugsanirnar, og því meir nálgast þær drottinn og stjórnara allra hluta, en fjærstar þekkingu hans eru skynlausu skepnurnar, sem bíta grasið í haganum, og þeir sem ólmast eins og skynlausar skepnur og grúfa sig ofan í jarðarsvörðinn og lypta aldrei augum sínum til himins,

eða huga sínum til hins almáttuga kraptar, sem erfiðar í öllum hlutum. Það er því ólíklegra, að búskapur prestanna þyrfti eptirleiðis að draga hugi þeirra frá köllun sinni, sem þess er að vænta, að kennslan í skólanum verði svo bætt, og prestaefnin fái þá menntun, að þeir þurfi langtum minna að hafa fyrir því að búa sig undir embætti sitt, og því betur sem þeir verða undir það búnir, því betur læra þeir líka að þekkja, hversu það er mikilvægt og áríðandi, og fá því meiri ást á því og löngun til að leysa það vel af hendi. En þó þessu sje nú þannig varið, þá munu mörgum þykja litlar líkur til þess, að því muni geta orðið framgengt á Íslandi, af því talsverðar endurbætur jarðanna heimta bæði kunnáttu og efni, sem fæstir prestar hafa til að bera, allra sízt frumbýlingar. Þetta er hverju orðinu sannara, eins og nú á stendur, og það má ekki ætlast til, að búskaparvitið komi allt í einu yfir prestana, eða ástand þeirra breytist svo í einu vetfangi sjálfkrafa, að bújarðir þeirra verði með öllu móti bættar á fárra ára fresti. Það fæst engin þekking án ómaks og fyrirhafnar, og svo er líka búskaparvitinu varið, en það er um seinan fyrir prestana að leggja stund á þessa þekkingu, þegar þeir eru orðnir prestar og farnir að búa, því þá hafa þeir við svo mörgu öðru að snúast, að þeir ættu þá ekki að þurfa annað að gjöra, enn hagnýta sjer þá þekkingu á búskapnum, sem þeir væru búnir að fá; það virðist því öldungis nauðsynlegt, að jarðarfræði, garðyrkja og búnaðarfræði væri kennd í skóla, ásamt öðrum vísindum, svo skólapiltar yrðu kunnugir eðli fósturjarðar sinnar, og hvernig hún verði bezt ræktuð, svo þeir þyrftu ekki að berjast í blindni og eyða efnum og tíma til ónýtis, þegar þeir reisa bú; eða ef of mikið þætti í þetta borið, þá væri það betra enn ekkert, að skólapiltar og stúdentar kynntu sjer þær bækur, sem um þetta efni eru skráðar, og vel væri það gjört, að semja nýjar ritgjörðir um búnaðarháttu og endurbót bújarða, ef einhver Íslendingur kenndi sig mann til þess, en þekk-

ingin er ekki einhlít í þessu efni; flestir prestar eru svo efnalitlir í fyrstu, meðan þeir eru frumbýlingar, að þeir hafa litlu að miðla til að ráðast í það, sem nokkru nemur og ekki ber því bráðara ávöxt. Þetta er að vísu dagsanna; en þegar hagsýni vex með viti og kunnáttu, þá þarf miklu minna fje og fyrirhöfn til að koma því til leiðar, sem annars kostar virðist óbærilegt; sumum vex líka allt í augum, og þó ekki sje nema að hafa færikvíar á túnum sínum, þá finnst þeim það óþolandi umstang og erfiðismunir. Þó öðru máli sje að gegna um þúfnasljettun, túngarðahleðslu og þesskyns stórkostlegar endurbætur, sem ætíð hafa nokkurn kostnað í för með sjer, þá gætu prestar ljett sjer hann með mörgu móti, einkum ef þeir tækju lítið fyrir sig í einu, og verðu til þess dagsverkum þeim, sem þeir fá optast nær í einhverjum reytingi, og verður lítið eða ekkert úr. Samt sem áður mun það ætíð virðast áhorfsmál fyrir presta, að leggja mikið í sölurnar til að bæta með bújarðirnar, af því þeir eiga þær ekki sjálfir og vita ekki, hvað bráðlega þeir skiljast við þær; þetta mun líka hamla mörgum prestum frá því, að leggja meiri alúð á ræktun jarðanna, enn nú er tíðkanlegt; en þó munu þeir, sem í þetta hafa ráðizt, og setið staðina vel, og verið þar nokkra stund, færa oss heim sanninn um það, að endurbóta tilraunir borga margfaldlega kostnað og fyrirhöfn, þegar stundir líða, ef þær eru skynsamlega stofnaðar og þeim er rækilega áfram haldið; það sýnist ekki heldur efunarmál, að úr því staðirnir eru almenningseign, þá sje það bæði rjettvíst og sanngjarnlegt, að prestar fái að nokkru leiti launaðan þann kostnað, sem þeir hafa haft fyrir endurbót bújarða sinna, og að þeir sjeu styrktir til þessháttar endurbóta; en prestunum ber að gæta þess í þessari viðleitni, eins og öllu öðru, að leita fyrst guðs ríkis, og þá muni þeim allt annað gott veitast.

---

# DAL-VÍSA.



Fífilbrekka! gróin grund!
grösug hlíð með berjalautum!
flóatetur! fífusund!
fífilbrekka! smáragrund!
yður hjá jeg alla stund
uni bezt í sæld og þrautum;
fífilbrekka! gróin grund!
grösug hlíð með berjalautum!

Gljúfrabúi, gamli foss!
gilið mitt í kletta þröngum!
góða skarð með grasahnoss!
gljúfrabúi, hvítur foss!
verið hefur vel með oss,
verða mun það enn þá löngum;
gljúfrabúi, gamli foss!
gilið mitt í klettaþröngum!

Bunulækur blár og tær!
bakkafögur á í hvammi!
sólarylur, blíður blær,
bunulækur fagurtær!
yndið vekja ykkur nær
allra bezt í dalnum frammi;
bunulækur blár og tær!
bakkafögur á í hvammi!

Hnjúkafjöllin himinblá!
hamragarðar! hvítir tindar!
heyjavöllinn horfið á
hnjúkafjöllin hvít og blá!

skýlið öllu helg og há!
hlífið dal, er geysa vindar!
Hnjúkafjöllin himinblá!
hamragarðar! hvítir tindar!

Sæludalur! sveitin bezt!
sólin á þig geislum helli!
snemma risin seint þú sezt;
sæludalur! prýðin bezt!
þín er grundin gæðaflest,
gleðin æsku, hvíldin elli!
Sæludalur! sveitin bezt!
sólin á þig geislum helli!

---

## SLÁTTU-VÍSA.

Fellur vel á velli
verkið karli sterkum,
syngur enn á engi
eggjuð spík og rýkur
grasið grænt á mosa,
grundin þýtur undir,
blómin bíða dóminn,
bítur ljár í skára.

Gimbill gúla þembir,
gleður sig og kveður:
“Veit jeg, þegar vetur
“vakir, inn af klaka
“hnífill heim úr drífu
“harður kemst á garða,

"góðir verða gróðar
"gefnir sauðarefni."

Glymur ljárinn, gaman!
grundin þýtur undir,
hreifir sig í hófi
hrífan ljett mjer ettir,
hept er hönd á skapti,
höndin ljósrar drósar.
Eltu! áfram haltu!
ekki nær mjer, kæra!

Arfi lýtur orfi,
allar rósir falla,
stutta lífið styttir
sterkur karl í verki,
hept er hönd á skapti,
hrífan ljett mjer ettir,
glymur ljárinn, gaman!
grundin þýtur undir.

---

## ILLUR LÆKUR eða HEIMASETAN.

Lækur rennur í lautu,
liggur óg til þín sjer:
allt af eptirleiðis
eg skal gá að mjer.

Nú fór illa, 'móðir mín!
mjer var það samt ekki að kenna;
sástu litla lækinn renna
græna laut að gamni sín,

breiðka þar sem brekkan dvín,
bulla þar og hossa sjer!
vertu óhrædd! eptirleiðis
eg skal gá að mjer.

Lækur gott í lautu á,
leikur undir sólar brekkum,
faðmar hann á ferli þekkum
fjóla gul og rauð og blá;[1]
einni þeirra eg vil ná
og svo skvettir hann á mig.
Illur lækur eptirleiðis
eg skal muna þig.

Klukkan mín, svo hvít og hrein,
hún er nú öll vot að neðan;
hefðirðu þá heyrt og sjeð 'ann,
hvernig ertinn úr honum skein,
jeg hef orðið ögn of sein,
og svo skvetti hann á mig.
Illur lækur! eptirleiðis
eg skal muna þig.

Lækur fer um lautardrag,
leikur sjer að væta meyna
þá hún stígur þar á steina,
það er fallegt háttalag!
Jeg fer ekkert út í dag,
uni, móðir góð! hjá þjer,
vertu óhrædd! eptirleiðis
eg skal gá að mjer.

---

[1]) *Viola tricolor*, þrenningargras.

# KOSSA-VÍSA.

(Eptir *Chamisso.*)

Ljúfi! gef mjer lítinn koss,
lítinn koss af munni þínum!
Vel jeg mjer hið vænsta hnoss,
vinur! gef mer lítinn koss!
Ber jeg handa báðum oss
blíða gjöf á vörum mínum.
Ljúfi! gef mjer lítinn koss,
lítinn koss af munni þínum!

Leikur kossa lipur er,
lætur þeim, er á kann halda,
listin sú ei leiðist mjer,
leikur kossa fimur er,
einatt reyni' eg það hjá þjer —
þiggja, taka, endurgjalda.
Leikur kossa lipur er,
lætur þeim, er á kann halda.

Vinur! gef mjer enn þá einn
ástarkoss af ríkum vörum!
einn fyrir hundrað, ungur sveinn!
einn fyrir þúsund — rjettan einn!
einn enn! þú ert ofur seinn,
eg er betur greið í svörum.
Vinur! gef mjer enn þá einn
ástarkoss af ríkum vörum!

Rjett sem örskot tæpur telst
tíminn mjer við kossa þína;
tíminn, sem eg treindi helzt,
tæplega meir enn örskot dvelst,

sárt er að skilja, gráti geldst
gleðin — þiggðu kossa mína!
Rjett sem örskot tæpur telst
tíminn mjer við kossa þína.

Kossi föstum kveð jeg þig,
kyssi heitt mitt eptirlæti,
fæ mjer nesti fram á stig —
fyrst jeg verð að kveðja þig.
Vertu sæll! og mundu mig,
minn í allri hryggð og kæti!
Kossi föstum kveð jeg þig,
kyssi heitt mitt eptirlæti.

---

## UM BINDINDIS-FJELÖG.

Það þykir sumum mönnum óhrekjandi ástæða til þess, að leyfilegt sje að drekka áfenga drykki, að guð hafi skapað þá. "Til hvers mundi guð hafa skapað áfenga drykki", er sagt, "ef ekki væri leyfilegt að drekka þá"? En sá, er ber upp slíka spurningu, lýsir því berlega, að hann hefur svo auðvirðilegt álit á sköpunarverkinu, að hann heldur, að allt, sem skapað er, sje ætlað til matar og drykkjar, ella sannar spurning hans ekkert; til hvers mun guð t. a. m. hafa skapað grjótið, trjen, málmana, og annað þesskonar, fyrst það er svo hart, að það verður hvorki haft til matar nje drykkjar? eða mun guð hafa skapað manninn einungis til að jeta og drekka? Þar að auk er í spurningu þessari slengt saman orðinu "að skapa" og "búa til" eða "byrla"; því guð hefur ekki skapað áfenga drykki, heldur einungis efni það, er menn hafa síðan farið

að byrla þá úr. Því fer svo fjærri að áfengir drykkir finnist nokkurstaðar til búnir, að andi sá, er gjörir vínið áfengt, verður ekki skilinn frá öðrum efnistegundum í ávöxtunum fyr enn gróðrarlíf þeirra er dautt, og liðu nokkrar þúsundir ára áður menn fóru að gjöra það. Að því er menn vita gjörst, voru Serkir hinir fyrstu, er þetta gjörðu, á níundu eða tíundu öld e. Kr. b.; var þeim í fyrstu ókunnugt eðli anda þessa, og vissu ekki heldur, hvað þeir áttu að kalla hann. Þó voru þeir ekki lengi í vandræðum með nafnið, og kölluðu hann *alkohol*, og heldur hann því nafni á flestar tungur allt á þenna dag[1]. Orð þetta merkir reyndar smátt dupt, er konur Serkja höfðu til að núa á andlit sjer, til að auka með fegurð sína; en af því ekki leið á löngu, áður stöku menn fengu það álit á anda þessum, að honum fylgdi sú náttúra, að menn yrðu bæði fjörugri og unglegri ef menn bergðu á honum, þá ljetu menn hann heita í höfuðið á dupti þessu. Þó fór svo fjærri, að "alkóhól" væri þegar haft til drykkjar í öndverðu, að það var varla notað til annars um langan aldur, enn til ýmsra uppgötvana í náttúrunni, og engum hefði þá dottið í hug, að eitur þetta mundi nokkurntíma verða almennt haft til drykkjar, enda leið og langur tími áður svo fór. Í fyrstu var "alkóhólið" mjög fágætt, því um langan aldur kunnu Serkir einir að búa það til, en síðar komust aðrir út í frá líka upp á það. Eptir því sem það varð algengara, fóru menn líka að hagnýta sjer það á fleiri vega, og auk annars var farið að hafa það til lækninga. Í Norðurálfu var *Arnold de Villa* sá fyrsti, er mælti fram með því, að hafa "alkóhól" til lækninga við stöku krankleikum, og Remundur *Lullus*, lærisveinn hans, hjelt því áfram, er kennari hans hafði byrjað á. Af því menn þessir þóttu merkir læknar á sínum dögum, urðu eigi að eins margir til að fallast á kenningu þeirra,

[1]) Hann er og kallaður latínsku nafni *spiritus vini* og kynni að mega kalla hann "víneld" á íslensku.

heldur bættu þeir því líka við, að "alkóhól" væri ágætlega gott til að komast hjá sjúkdómum, og sú trú þróaðist smátt og smátt, að það væri ekki að eins gott að bergja á "alkóhóli" þegar maður væri veikur, heldur væri það líka óskaráð fyrir heilbrigðan mann, svo hann yrði ekki veikur. Menn fóru nú að skíra það upp aptur, og kalla það *aqva vitae* (ákavíti) eða lífsins vatn, því menn hjeldu það mundi lengja líf manna. Þessu trúðu margir, og því má nærri geta, að þeir hafa reynt til að útvega sjer slíkan kostagrip, svo þeir gætu sopið á honum, ef þeim yrði annaðhvort misdægurt eða þeir þyrftu að reyna eitthvað á sig, eða ef þeim væri þungt í skapi, því á öllu þessu átti "alkóhól" að ráða bætur, og af því það hressti þá í þann svipinn, styrktust þeir enn betur í trúnni. Svona breiddist álit það smátt og smátt út um alla Norðurálfu, að drykkur þessi væri eigi að eins meinlaus hressing, heldur nauðsynlegur til að halda við heilsu manna og lífi, og árangurinn varð sá, eins og ekki gat hjá farið, að ofdrykkja fór dagvaxandi á öllum löndum, þar sem álit þetta hafði náð að festa rætur. Þegar á öndverðri 18. öld var ofdrykkja orðin svo mögnuð á Bretlandi, að veitingamenn voru farnir að rita yfir húsdyr sínar: "Hjá mjer má drekka sig drukkinn fyrir hálfan fjórða skilding, og dauðadrukkinn fyrir sjö, og fá þó í kaupbæti hálm til að liggja á, þangað til af manni er rokið". Á líkan hátt fór drykkjuskapur vaxandi á öðrum löndum, og þó leið 18. öld og nokkuð af þeirri nítjándu svo, að ekki var reynt til að reisa neinar skorður við óhæfu þessari, og ekki var annað að sjá, enn að það væri með öllu gleymt, að ofdrykkja væri í guðsorði talin með þeim löstum, er varna hluttekningar í himnaríki. En það fór hjer eins og vant er að fara, að þó hið vonda beri hærri hlut um stundarsakir, verður sigur þess aldrei langvinnur, það hlýtur um síðir að lúta sannleikanum og hinu góða. Ofdrykkjan tók að vitna gegn sjálfri sjer, og vitnisburður hennar varð því

ljósari, sem hún magnaðist meira, og loks gat hann eigi lengur dulizt skynsömum mönnum, svo skrímsli þetta fór að birtast í sínum rjetta búningi. Þó hinir vitrari og skynsamari kæmu nú þegar auga á sannleikann, var allur þorri alþýðu enn þá í sömu villu og áður, svo ekki var að sjá, að hinir skynsamari ættu nokkra uppreistar von. En það lýsti sjer hjer, hve mikla einlægur vilji og samheldi og kappsöm ástundun geta komið til leiðar. Bretar í Vesturheimi, er nokkrum árum áður höfðu gjörzt forgöngumenn annara þjóða í að útvega sjer stjórnarfrelsi, urðu og fyrstir til að reka af sjer ánauð vondrar venju, því þeir sáu, að frelsi andans var svo náskylt stjórnarfrelsinu, að ef öðru væri traðkað, mundi hinu hætta búin, og þeim þótti frelsi það, er þeir höfðu keypt svo dýrt fáum árum áður, dýrmætara enn svo, að þeir vildu láta þvílíka ódæðu drottna í landi sínu, og ónýta ávexti þess. Þeir voru vanir að eiga við ofurefli og sigra þó, svo þeim óx eigi allt í augum, og reynslan hafði sannfært þá um, að "sigursæll er góður vilji". Af þessu má sjá, hvernig á því hefur staðið, að nokkrir menn í Bandaríkjunum í Vesturheimi höfðu þrek og áræði til, að lýsa skýlaust og einarðlega banni yfir það, er eigi að eins flestir af löndum þeirra, heldur allur þorri manna um víða veröld, kallaði ómissandi hressingu, og nefna það banvænt eitur, er aðrir kölluðu óbrigðula lækning, og ofdrykkju verri enn mannskæðustu drepsótt fyrir lönd og lýði. Því má nærri geta, að þessi nýja kenning hefur í fyrstu orðið fyrir ákaflegum mótmælum, þar sem hún var með öllu gagnstæð áliti því, er almennt drottnaði; en við því höfðu höfundar hennar líka búizt, og voru við búnir að svara því. Þeir sönnuðu með skýrum og órækum ástæðum, að af 12 þúsund þúsundum manna, er þá voru í Bandaríkjunum, dæju árlega 30,000 fyrir ofdrykkju sakir, að $\frac{3}{4}$ allra stórbrotamanna þar í ríkjunum væru drykkjumenn, að $\frac{3}{4}$ fátæklinga og ölmusumanna hefðu steypt sjer í volæði þetta við ofdrykkju,

og að þjóðin biði að öllu samtöldu hjer um bil 177,046,875 rdd. tjón við ofdrykkju á hverju ári; og þó væri tjón þetta lítils virði í samanburði við það, er sálin hreppti við ofdrykkjuna, því það væri með öllu ómetandi. Þó að allur þorri alþýðu væri svo blindaður af rótgrónum hleypidómum, að margir gæfu þessu engan gaum í fyrstu, voru þeir þó ekki allfáir, er þegar ljetu sannfærast, og það voru einmitt þeir, er mest liðsemd var í, því það voru vitrustu og beztu mennirnir. Við þetta fjölguðu hófsemdarvinir að vísu talsvert, en þó voru þeir enn þá harðla fáir, í samanburði við hina, er í móti mæltu. Þeir sáu, að samheldi var þeim því ómissandi, og bundu nú með sjer fjelagskap í *Boston* 1813, og hjetu því hverjir öðrum, að þeir skyldu eigi að eins sjálfir vera hófsamir í drykk, heldur skyldu þeir líka gjöra allt, er í þeirra valdi stæði, til að breiða hófsemi og siðgæði út meðal alþýðu, og þetta efndu þeir líka dyggilega. Margir af þeim, er stofnuðu fjelag þetta, höfðu áður sýnt mikla framkvæmd í stjett sinni, og voru tillögur þeirra mikils metnar, enda slepptu þeir ekki heldur nokkru tækifæri til að leiða sannleikann í ljós. Þeir söfnuðu dæmum til að sýna berlega, hve ljótur og svívirðilegur löstur ofdrykkjan væri, og hve mikið illt af henni hlytist daglega, og ljetu prenta það í tímaritum, svo að sem flestir læsu það. Prestarnir lýstu skorinort ljótleik ofdrykkjunnar og fegurð hófseminnar í kenningu sinni, og gengu á undan söfnuðum sínum með lofsverðu eptirdæmi, sem mest er í varið. Læknarnir gjörðu sjer mesta far um, að rýma út villuáliti því um lækniskrapt „alkóhóls", sem hinir fyrri læknar höfðu breitt út af fávizku. En árangurinn af öllum tilraunum þeirra varð næsta lítill. Að vísu snjerust margir drykkjumenn frá ofdrykkju við fortölur þeirra, en þegar minnst varði, voru eins margir af þeim, er áður höfðu drukkið hóflega, orðnir drykkjumenn í stað hinna, og hófsemdarvinirnir höfðu starfað hartnær til ónýtis í 13 ár, er þeir sáu, að regla sú, er

þeir höfðu gjört að grundvelli tilrauna sinna, var það, er varnaði þeim sigursins, og að þeir tóku að eins angana af illgresinu en skildu eptir ræturnar. Nú ljetu þeir ekki heldur lengi bíða, að leiðrjetta yfirsjón sína, og höfðu fund með sjer í *Boston* í janúar 1826, og gjörðu það að grundvallarreglu sinni: **að þeir skyldu ekki bergja a neinum áfengum drykk, nema í sjúkdómum að læknis ráði.** Fjelag það, er þá var stofnað, nefndist "bindindisfjelag Vesturheimsmanna", og er það nú orðið víðfrægt um allan heim fyrir framtakssemi og góðvilja til alls mannkyns. Þegar á fyrsta ári gengu bæði margir í fjelag þetta, og líka voru stofnuð að dæmi þess og áeggjun önnur bindindisfjelög víða um landið, og við árslokin 1828 voru 222 þesskonar fjelög stofnuð í Bandaríkjunum einum, og svo ótt fjölguðu þau, að ári seinna voru þau orðin þúsund að tölu; þá voru og þegar 400 kaupmenn hættir að selja áfenga drykki; í 50 görðum, þar sem brennivíns-tegundir höfðu áður verið búnar til, var því starfi öldungis hætt, og 1200 drykkjumenn höfðu með öllu hætt að drekka. Nú var og þegar svo langt komið í nokkrum hjeruðum í Bandaríkjunum, að þar var hvorki byrlaður eða seldur eða keyptur nokkur áfengur drykkur, og þau hjeruð blómguðust nú svo mjög ár frá ári, að ávextir bindindisfjelaganna gátu eigi lengur dulizt öðrum út í frá. Ár 1829 tóku Bretar í Nordurálfu og Írar að stofna bindindisfjelög, og Svíar ári seinna. Nokkru síðar var og byrjað á hinu sama í Garðaríki og á Þýzkalandi. Meðan dæmi Vesturheimsmanna efldi bindindi á öðrum löndum, voru þeir ekki aðgjörðalausir heima, enda sáust þess og ljósar menjar, því tala bindindismanna fór dagvaxandi í Bandaríkjunum, brennivínsgjörð minnkaði óðum, vínsölumenn og drykkjumenn fækkuðu dag frá degi, og almenn velmegun og siðgæði þróaðist. Ár 1831 stungu hinir merkustu hermannaforingjar upp á, að stofna bindindisfjelög meðal hermanna, og var að því gjörður svo góður rómur, að innan fárra ára voru allir hermenn í Banda-

ríkjunum orðnir bindindismenn. Árið eptir var hinu sama farið á flot meðal sjómanna, og varð að því svo góður árangur, að tveim árum síðar fóru 1200 skipa frá Vesturheimi, er ekki höfðu nokkurn áfengan drykk innanborðs [1]. Sama ár ljet bindindisfjelagið í *Boston* rita umburðarbrjef, er sent var til allra býla í Bandaríkjunum, og snjerist við það fjöldi manna til bindindis. Álit það var nú orðið svo almennt um allt landið, að enginn gæti syndlaust drukkið áfenga drykki, eða selt öðrum þá eða boðið, að kaupmenn köstuðu heldur víntunnum sínum í sjóinn, enn hafa þær á boðstólum. Nú leið ekki heldur á löngu, áður farið var að banna það með lögum, að búa til eða selja áfenga drykki í Bandaríkjunum, og mun þess egi langt að bíða, að víndrykkja verði þar upprætt með öllu.

Nú eru og bindindisfjelög stofnuð á flestum löndum í Norðurheimi, þó eru þau flest á Bretlandi og á Írlandi, því þegar ár 1835 voru 130,452 fjelög stofnuð á Bretlandi, og nú er allur þorri Íra orðnir bindindismenn. Hjer á Norðurlöndum voru Svíar hinir fyrstu, er stofnuðu bindindisfjelög; þó hafa þeir eigi gengið að því með öðru eins fylgi og atorkusemi og þjóð sú, er oss Íslendingum er skyldust, og það eru Norðmenn. Þegar fyrir nokkrum árum síðan reyndu þeir til að koma því á með lögum, að bannað væri að búa til nokkurt brennivín í Noregi; en er konungur mælti á móti, tóku þeir að stofna bindindis-fjelög, og hafa síðan fylgt því svo fast fram, að það eru öll líkindi til, að það verði að fárra ára fresti ekki að eins hætt að búa til brennivín í Noregi, heldur líka að drekka það. Í Danmörku var eigi hreift við málefni þessu fyr enn í sumar er var, og er það þar skammt á leið komið.

[1]) Nú á dögum er tekið miklu minna ábyrgðarfje af þeim skipum, þar sem skipverjar eru bindindismenn, enn af öðrum skipum; því reynslan hefur sýnt, að af þeim skipum farast miklu færri, enn af öðrum.

Það hefur einkum eflt útbreiðslu bindindis-fjelaga, að Vesturheimsmenn hafa látið prenta á hverju ári skýrslur um athafnir fjelags síns, og búið síðan til ágrip af þeim, og látið prenta í bók sjer, sem heitir "Saga bindindisfjelaganna í Vesturheimi". Til þess að sem flestir gætu haft not af bók þessari, sem í fyrstu er rituð á ensku, hafa Vesturheimsmenn sent erindreka sína til flestra landa í Norðurálfu, og látið snúa henni, á sinn kostnað, á flestar tungur, og útbýtt henni síðan að gjöf. Ár 1841 var henni snúið á dönsku, að tilhlutun Vesturheimsmanna, og prentuð í Kaupmannahöfn á kostnað þeirra, og skipt með Dönum og Norðmönnum, og 100 bækur sendar til Íslands. Því má nærri geta, að 100 bækur, á jafnstóru landi og Ísland er, verða að koma nokkuð strjált niður, og þar að auki er bókin á dönsku, svo allur þorri alþýðu getur eigi haft hennar nokkur not. Af því vjer höfum ekki tækifæri til að snúa bók þessari allri á íslenzku, þó vjer álítum það mesta þarfaverk, látum vjer oss nægja að íslenzka að eins lítinn kafla hennar, til að gefa alþýðu á Íslandi dálítið sýnishorn af því, hvert far þjóð sú, er nú er talin einhver hin merkasta í heimi, hefur gjört sjer um að breiða út bindindi í drykk alstaðar um víðan heim, og hverjar ástæður hún ber fyrir sig. Til þessa hefur oss þótt bezt fallið umburðarbrjef það, er áður er getið, og lesa má í 3. þætti bókarinnar (bls. 77—99). Það er hjerumbil svona á íslenzku:

Virðuglegu vinir! Vjer höfum ráðizt í mikinn hlut og þarflegan; en til að framkvæma hann þurfum vjer öflugrar liðsemdar við hjá yður. Áform vort er að breiða út bindindi í drykk, eigi að eins á voru landi, heldur og um allan heim. Oss hefur þegar tekizt, bæði með ritum vorum og erindrekum, að snúa stórum almennings áliti, og breyta mjög lifnaðarháttum manna, að því leyti sem víndrykkju snertir. Meir enn þúsund sinnum þúsund manna í Bandaríkjunum hafa þegar heitið að bergja eigi á nokkrum

áfengum drykk á æfi sinni; meir enn þúsund víngjörðarhúsum hefur verið lokað til fulls og alls; rúmar þrjár þúsundir kaupmanna eru hættir að selja áfenga drykki, og þrjár þúsundir drykkjurúta eru hættir að drekka. Vjer höfum ljós skýrteini fyrir því, að breyting sú, er bindindisfjelögin hafa komið á hugarfar manna og háttsemi, hefur varðveitt meir enn tíu þúsundir manna frá ofdrykkju, er ella mundu hafa steypt sjer í ófarsæld þá, er af þessum hinum óttalega lesti leiðir. Í mörgum hjeruðum landsins er nú drukkið miklu minna enn áður, og fátækt, stórbrot, krankleikar, vitfirring, og dauði á unga aldri er orðið þar jafnmiklum mun sjaldgæfara. Hófsemi, iðjusemi og sparsemi eru farnar að lifna við aptur í landi voru, og fróðir menn og sannsöglir, er að þessu hafa starfað, hafa sýnt með rökum, að í einusaman Jórvíkur-ríki *(New York)* hafi árið sem leið (1831) verið eytt þrem þúsundum þúsunda, sjö hundruð og fimmtíu þúsundum rdd. minna enn áður, og ber það einkum til þess, að bindindisfjelög eru stofnuð um allt það ríki. Ef að þesskonar fjelög væru stofnuð um allt land vort, og allir tækju þátt í þeim, svo víndrykkja yrði upprætt með öllu, mundi landinu sparast við það á hverju ári hundrað áttatíu og sjö þúsundir þúsunda og fimm hundruð þúsundir ríkisdala, og þrjátíu þúsundum færri menn mundu deyja árlega; það mundi og rýma burt tálmun þeirri, er mest aptrar því, að menn sjeu eins og þeir eiga að vera, eyða hættu þeirri, er háskalegust er fyrir allan fjelagskap manna og trúarbrögðin, og nema burt eitthvert versta eymdarefni úr landi voru.

Það er því bæn vor til yðar og allra á heimilum yðar, að þjer gjörist eigi að eins sjálfir bindindismenn, heldur gangið og, sökum bræðra yðar, í bindindisfjelag, og ritið í því skyni nöfn yðar á skuldbindingarskrá þá, er brjefi þessu fylgir, svo að nöfn yðar og áhrifsmáttur sá, er þeim fylgir, megi efla áform vort. Þessar eru ástæður þær, er vjer berum fyrir oss:

1. Áfengir drykkir eru eigi nauðsynlegir til drykkjar. Menn hafa lifað án þeirra meir enn fimm þúsundir vetra, og gegnt öllum störfum sínum; það eru ekki enn þrjú hundruð ár, síðan farið var að hafa þá til drykkjar á Bretlandi hinu mikla, og ekki hundrað ár, síðan þeir urðu algengir á voru landi. Þeir eru því ekki nauðsynlegir, hvorki til að halda við lífi nje heilsu manna.

2. Þeir eru ekki heldur nytsamir. Þá langar heldur aldrei í þá, sem aldrei bergja á þeim. Meir enn þúsund þúsunda manna í Bandaríkjunum hafa reynt á sjálfum sjer, að þeim heilsast langtum betur síðan þeir hættu að bergja á áfengum drykkjum, og drukku þó margir þeirra áður daglega, og álitu það ómissandi fyrir sig. Með því þeir, er þetta hafa reynt, eru úr ýmsum stjettum, virðist enginn efi á því, að þeim muni öllum reynast eins, er gjöra hið sama af alvöru, og halda því stöðugt áfram. Þar af má sjá, að áfengir drykkir eru eigi nytsamir.

3. "Alkóhólið", meginefnið í öllum áfengum drykkjum, er eitur. Ef af því er tekinn talsverður skamtur óblönduðu, verður það hverjum manni að bráðum bana; sje á því bergt í hófi, verður það tilefni margra sjúkdóma, og kveikir hjá mönnum hættulega löngun, sem þeim er eigi eðlileg. Löngun þessi í áfenga drykki vex því meir sem optar er látið eptir henni, og heimtar æ stærri skamt til svölunar, öllu fremur enn hver önnur löngun til að syndga. Af þessu má sjá, hvernig á því stendur, að ofdrykkja magnaðist svo mjög á Bretlandi á ekki fullum þrem hundruðum ára, að þar var seinast eytt árlega 160,000,000 potta af áfengum drykkjum, og á voru landi 240,000,000 potta, og verða það hjer um tuttugu pottar á hvert mannsbarn í landinu, þó konur og börn sjeu talin með. Þó seðst þessi hin bölvaða ílöngun ekki við allt þetta, heldur verður hún því ákafari sem henni er meir þjónað. Svona er eitri þessu háttað, og fýsn þeirri, er það kveikir. Hún

er ólík löngun þeirri, er guð hefur skapað í oss til vatns, brauðs og annarar fæðslu, er eigi verður heimtufrekari við það, þó vjer seðjum hana daglega, því þessi bölvaða fýsn er óseðjandi.

Af því, er nú var sagt, má skilja, hvernig á því stendur, að bæði ungir menn, er áður hafa verið hófsamir, og aðrir skynsamir menn, er hafa látið þessa bölvuðu fýsn kvikna í brjósti sjer, leiðast æ lengra af rjettum vegi, og vita ekki fyrri til, enn ofdrykkjan leggur þá í gröfina. Þó er eigi sá skilningur orða vorra, að ofdrykkja verði þeim öllum að bana, er fýsn þessi kviknar hjá, því margir hafa þrek til að bæla hana niður og frelsa sig frá þeim óttalegu afdrifum, er af henni leiða; en þó faðirinn geti útrýmt henni, má vera að hún drepi börn hans og afsprengi í þriðja og fjórða lið. "Orð yðar munu verða áhrifamikil í dag" sagði maður nokkur við einn af erindrekum fjelags vors, í því hann ætlaði að fara að flytja ræðu um þetta efni á mannfundi, "því vjer komum nú beinlínis heim frá greptrun manns nokkurs, er sjálfur olli dauða sínum með ofdrykkju. Hann var sonur smiðs eins, er átti tvo sonu, og er þeir voru fimmtán vetra, tók faðir þeirra þá sjer til aðstoðar við smíðar sínar. Hann var vanur að súpa á brennivíni tvisvar eða þrisvar á dag; synir hans gjörðu hið sama, og áður þeir væru fullra nítján vetra, voru þeir orðnir drykkjurútar. Sá eldri hjarði sona aumu og vanheilu lífi, þangað til hann hafði þrjá um tvítugt; þá dó hann; sá yngri mun vart verða svo gamall; hann er farinn þegar hver vill". Faðirinn komst hjá ógæfunni, en synir hans urðu henni að bráð. Þessi fáu orð sýna glögglega, hvernig á stendur meir enn á tíu þúsund býlum í Bandaríkjunum. Faðirinn komst hjá ógæfunni; hann hefur líklega eigi byrjað að drekka fyr enn hann var orðinn fullþroska, og hefur því haft meiri krapt í sjer, til að standast eitur þetta; vera má, að brennivínsdrykkja hafi ekki heldur verið orðin algeng í

æsku hans. En synir hans, er drukku í sig eitur þetta, áður enn þeir voru orðnir fullvaxta, þeir hlutu að verða því að bráð. Nú spyrjum vjer: hvernig mun fara fyrir nánustu afkomendum vorum og þeim er síðan fæðast, ef spilling þessi fer þannig í vöxt meðal barna vorra?

*Dr. Rubin Mussey*, forseti í læknafjelaginu og kennari í líkskurðarfræði og sáralækningum á *Dartmouth*-háskola, og einhver merkasti læknir í landi voru, kemst svo að orði um þetta mál: "hvernig stendur", segir hann, "á töfrakrapti þeim í áfengum drykkjum, er alla menn tælir? Jeg ætla að reyna að skýra frá því. Þegar drykkir þessir eru komnir í magann, berast þeir þaðan út í blóðið, og berast í blóðinu um allan líkamann, gegnum lungun, vöðvana, heilann og alla aðra parta líkamans, svo að engin æð eða taug kemst undan áhrifum þeirra; og hvernig eru þessi áhrif? Þau trufla lífsstörf líkamans". *Dr. Ebenezer Alden*, nafnkunnur læknir í *Massachusets*, segir svo: "Áfengir drykkir hafa sömu áhrif og eitur á alla parta líkamans, er þeir ná til. Í engum þeirra nema þeir svo lengi staðar, eða veikja svo mjög lífsmegn hans, að hann geti ekki flutt þá lengra; heldur æða þeir úr einum stað í annan gegnum allan líkamann, og hvar sem þeir koma, raska þeir og róta störfum þeim, er hverjum parti í líkamakerfinu eru ætluð, unz lífsaflinu tekst að rýma burtu þessum háskalega óvin. Þegar lífsmegnið er svo mjög veiklað, að menn geta eigi lengur verið án þessa ólyfjans, er dauðinn fyrir dyrum, og hinn síðasti lífsneisti þá og þegar kulnaður. Heilbrigðum mönnum er ætíð hættulegt að drekka áfenga drykki, hvað lítið sem er, því þeir eru óvinir mannlegs lífs, og hversu lítið sem á þeim er bergt, spillir það heilsu manna og lífi; þeir veikja en styrkja ekki, sýkja en lækna ekki, deyða en lífga ekki".

*Dr. Reuben Mussey*, er fyr var getið, kemst svo að orði hjer um: "Er "alkóhol" nauðsynlegt fyrir heilan og

hraustan verkmann? Ekki fremur enn hvert annað eitur. Reynslan hefur margsýnt, að menn geta afkastað miklu meira á jafnlöngum tíma, ef menn eiga gott í mat og drykk, enn þó þeir drekki brennivín".

Herra *Astley Cooper*, víðfrægur læknir á Bretlandi, telur orðin "áfengur" og "eitraður" sömu merkingar, *Dr. Daniel Drake* í *Ohio* kallar áfenga drykki banvænt eitur, og telur upp mörg dæmi þess, að þeir hafi orðið mönnum að bana. "Afengir drykkir", segir hann, "kveikja feikna ólgu í blóðinu, og fara loks með heilsuna; þeir eru eitur, sem æsir ákaft og brennir. Ef lítið er á þeim bergt, veldur það ónáttúrlegri ólgu; sje mjög mikið drukkið af þeim í senn, er það hvers manns bráður bani. "Alkóhól" hefur sömu áhrif og margur annar jurtasafi, er vjer köllum eitraðan."

*Dr. Samuel Emlin*, er fyrrum var ritari í læknafjelaginu í Bræðraborg, segir svo: "Hjer á ekki við orðtakið: *abusus non tollit usum*, því öll víndrykkja er ofdrykkja, og hefur ætíð skaðsamleg áhrif á heilsuna." *Dr. Cheyne* í Lundúnaborg segir, að "alkóhól" sje að eðli líkt svefnsafa *(opium)*, en sje jafn banvænt og *arsenik*. *Dr. Frank* segir að öll víndrykkja, hvað hófleg sem hún sje, leiði af sjer fjölda sjúkdóma, elli ungs manns og aldurtila. *Dr. Trotter* stendur fast á því, að engin hætta, sem lífi manna er búin, sje jafn geigvænleg og ofdrykkja, og að meir enn helmingur allra sviplegra mannláta sje af hennar völdum. Sama er álit þeirra *Harri's* og *Kirk's*, "doktóra", og halda þeir að hófleg drykkja verði fleirum að bana enn ofdrykkjan sjálf, af því hóflega drykkjan er langtum algengari. *Dr. Wilson* segir, að í stórum borgum muni ofdrykkja valda fleiri sjúkdómum,' enn spillt lopt, óholl gufa, og öll önnur vanheilsuefni saman.

*Dr. Cheyne* í Dýflinni, sem mjög er nafntogaður, og hefur haft læknisstörf á hendi í þrjátíu ár, og haft

marga sjúklinga undir höndum, segir svo: "Ef að tíu ungir menn fara að drekka áfenga drykki, þegar þeir hafa einn um tvítugt, og drekka upp frá því eitt staup á hverjum degi, munu níu þeirra stytta með því aldur sinn um tíu ár, þó þeir drekki aldrei meira".

Öllum ber saman í því, er ritað hafa um lækningar, hverrar þjóðar sem þeir eru, að áfengir drykkir sjeu eitur, og það sje ætíð skaðsamlegt að drekka þá, enda má og sanna það með ótal dæmum. Það þarf ekki annað, enn að sjerhver yðar skoði huga sinn um, hve margir af kunningjum hans hafi orðið eitri þessu að bráð tuttugu árin seinustu. Í *Portsmouth (New-Hampschire)* varð ofdrykkja tuttugu og einum manni að bana á einu ári; í *Salem (Massachusets)* dóu á einu ári hundrað áttatíu og einn, og af þeim 20 af ofdrykkju; í *New-Haven (Connecticut)* dóu 94 fullorðnir, og, að áliti læknafjelagsins, þrjátíu þeirra af ofdrykkju; í Nýju Brúnsvík *(New-Jersey)* sextíu og sjö, og rúmur þriðji hluti þeirra af ofdrykkju; í Bræðraborg ljetust alls fjögur þúsund tvö hundruð nífutíu og tveir menn, og álitur lækna fjelagið að sjö hundruð þeirra hafi dáið af ofdrykkju völdum, og er það meir enn hver sjöundi. Af öllu þessu er það auðsætt, að áfengir drykkir eru eitur, er fer með heilsu manna og líf.

Þó að tjón það, er af vínhdrykkju leiðir, sje bæði mikið og margvíslegt, þá eru þó hagsmunir þeir, er af bindindi spretta, engu minni eða færri, og kemst nafntogaður læknir í *Massachusets* svo að orði: "Frá þeim tíma að bindindi í drykk hófst alstaðar í ríki þessu, hafa hálfu færri sýkzt hjer enn áður, og efast jeg eigi um, að sama raun mundi á verða alstaðar í Bandaríkjunum, ef allir íbúar þeirra yrðu bindindismenn". Gamall læknir í sama ríki, er í fjöritíu ár hefur gegnt margbreyttum læknisstörfum, segir svo: "Það mundi takast að lækna helming þeirra, er árlega deyja úr ólgusóttum, ef víndrykkjan væri ekki. Margir af þeim, er nú hljóta að liggja rúmfastir vikum

saman, mundu eigi þurfa að liggja einn dag, ef þeir hefðu aldrei drukkið; þeir kynnu að fá ofurlítinn höfuðverk, er brátt mundi batna, ef þeir gættu þess, að borða eigi annað enn hollan mat, en úr sjúkdóminum mundi ekkert verða. Margir af þeim, er sóttin leggur í gröfina, þó allra bragða sje í leitað, mundu komast af og hjarna við aptur, ef þeir hefðu eigi veiklað líkama sinn með því að drekka nokkuð á hverjum degi; það veit enginn eins vel og læknar, hversu mjög sóttir æsast við daglega víndrykkju, enda þó hófleg sje, og hversu hún ónýtir allar læknistilraunir". Gamall læknir í *Maryland* kemst svo að orði: "Þegar drepsótt gýs upp á landi þessu, má búast við því, að hálfu færri fá hana af þeim, er eigi drekka, enn af hinum, er það gjöra, og þó þeir sýkist, batnar þeim langtum fyr aptur". Á eyjunni *Key West*, er liggur fyrir Flóriðu-ströndum, geysuðu langa hríð mannskæðar drepsóttir, svo að lífshætta var í að dveljast þar, en þegar að var gáð, reyndist svo, að þær drápu ekki aðra enn drykkjumenn.

*Dr. Mosely*, er lengi hefur verið í Vestureyjum, segir, að þeir, sem ekki drekki annað enn blávatn, eða að minnsta kosti mestmegnis, sjeu miklu óhultari fyrir hinum skaðvænu áhrifum, er loptslagið hefur í heitu löndunum, heldur enn hinir, sem fyrirlíti drykk þenna, og drekki heldur áfenga drykki; þeir geti borið hinar mestu þrautir og erfiði, og sjeu ekki undirorpnir eins skaðvænum sóttum og aðrir. *Dr. Ball* segir, að romm, þó það sje hóflega drukkið, veiki ávallt kraptana og gjöri menn sóttnæmari. Hann kveður svo að orði: "Eins óviturlegt og það væri, að hella viðsmjöri neðst í hús, er þak þess væri að brenna, og ætla sjer með því að aptra eldinum frá að komast þangað, eins óskynsamlegt er það, að demba ofan í magann í sjer áfengum drykkjum, í því skyni að minnka áhrif þau, er sólarhitinn hefur á höfuðið". Af 77 mönnum, er dauðir höfðu fundizt í ýmsum hjer-

uðum landsins, höfðu 67 orðið áfengum drykkjum að bráð, að sögn þeirra manna, er eiga að rannsaka mannalát þau, er annaðhvort hera snögglega að, eða eru af mannavöldum. Níu tíundu hlutir þeirra, er snöggt hafði orðið um, þegar þeir höfðu nýdrukkið kalt vatn, höfðu valdið dauða sínum með því að neyta áður áfengs drykkjar óhóflega. Í flestum borgum þeim, er kólerasóttin gengur í, er nú (1832) fer yfir alla Norðurálfuna, og vofir einnig yfir landi voru, eru fjórir fimmtu hlutir þeirra, er deyja úr sýki þessari, drykkjumenn. Hvort sem vjer því látum sannfærast af reynslu sjálfra vor og annara um áhrif áfengra drykkja, eða vjer förum að sögn læknanna, þá sjáum vjer, að áfengir drykkir eru eitur, og deyða bæði líf og heilsu manna, og þeir, sem neyta drykkja þessara, stytta líf sitt um 10—50 ár. Eptir hinum nákvæmustu dauðaskrám, og sögn hinna merkustu lækna, hefur þetta komið fram við meir enn 30,000 manna árlega í Bandaríkjunum. Og hver mundi sá af oss, er ekki gæti á meðal þeirra fundið einhvern kunningja sinn, góðan vin eður ættingja?

4. Neyzla áfengra drykkja veikir og truflar skynsemina. Af 781 vitstola mönnum, er voru í ýmsum vitfirringahúsum landsins, hafði, að því sem frændur þeirra sjálfra sögðu, ofdrykkja steypt 492 í ógæfu þessa, og, að sögn lækna, mörgum öðrum. Einhver hinn ágætasti læknir, sem einkum hefur fengizt við þesskonar veikindi, og er mjög reyndur í því efni, segir það með öllu víst, að meir enn helmingur, jafnvel næstum þrír fjórðu hlutir allra óðra manna, er hann hafi haft færi á að kynna sjer, hafi orðið óðir af mikilli neyzlu áfengra drykkja. "Náttúru til æðis og ástríðu til drykkjuskapar" segir *Dr. Peirson*, "leiðir hvort af öðru." *Dr. Kirk* segir: "Áfengir drykkir eru sljófgandi efnis, og líkjast svefnsafa *(opium)*; sá er einn munurinn, að áfengir drykkir sýna miklu fljótar æsandi áhrif sín á líkamann enn svefnsafinn. Fyrst fara

þeir út í blóðið, renna síðan um lungun, og í hverja smáæð líkamans, og komast þannig upp í heilann. Jeg hef skorið upp mann einn, sem dáið hafði í drykkjuskap, nokkrum stundum eptir það öndin var skroppin úr honum. Í báðum hliðar-hólfunum í heilanum var ámóta mikið af vatns-vökva, og vant er að vera. En þegar jeg gáði betur að, fann jeg glöggt brennivínsdauninn, sem lagði af vökva þessum; því næst tók jeg dálítið af honum og ljet í spón og bar að ljósi, kviknaði þegar á, og ljek bláleitur logi, er "alkóhólinu" er eiginlegur, nokkrar mínútur um spóninn." Margir aðrir læknar, er færi hefur gefizt að íhuga nákvæmlega þesskonar atburði, segjast hafa orðið hins sama vísir. Er þá nokkur furða, þó maður verði vitskertur, þegar annað eins eitur kemst upp í heilann? Það sætti miklu framar undrum, ef hann yrði það ekki. Þetta er líka tilefnið til, að drykkjumenn hafa langtum minna ímyndunarafl, enn þeir sem aldrei drekka neitt, og að þeir eru langtum óvitrari enn áður, þegar þeir hafa drukkið áfenga drykki; þá er það ólyfjan komið í heila þeim, er gjörir þá næsta óhyggna. Af þessu er líka auðsætt, hvernig á því stendur, að sá maður, er, áður enn hann vandi sig á áfenga drykki, hefur verið viðkvæmur faðir, ástúðlegur og tryggur bóndi, hefur orðið að óðum manni, drepið konu sína og brennt börn sín á arni sjálfs síns. En þessar hinar hörmulegu afleiðingar, er spretta af drykkjuskapnum, nema ekki staðar hjá sjálfum drykkjumönnunum, þær ná einnig til barna þeirra og barnabarna; æði og ýmsar meinsemdir leggjast í ættir, líkamavöxturinn minnkar, kraptar sálar og líkama veikjast, sjónin deprast, riða kemur á alla limi, öll áform og fyrirætlanir verða á reiki, allt hugarfarið versnar og ellin leitar fyr á mann, yfirsjónir feðranna koma fram á börnunum í marga liði. Þó nema afleiðingar drykkjuskaparins ekki staðar við þetta.

5. Neyzla áfengra drykkja veikir afl og krapt allra þeirra hluta, er geta leitt oss til hins góða, og sýnir með því ljóslega, að hún er siðgæðinu gagnstæðileg, og að enginn geti neytt áfengs drykkjar til muna, eða komið öðrum til þess, án þess að traðka skyldum sínum.

Næst trúarbrögðunum, verndar oss ekkert eins kröptuglega við lesti þessum og iðjusemi; hún er svo nauðsynleg, að engum er auðið að gjöra væna menn úr börnum sínum, nema þau sjeu vanin við iðjusemi og starfsemi. Því finnum vjer einnig mjög mart, bæði í sköpunarverkinu og í guðsorði, sem ætti að hvetja oss til starfsemi og kveikja hjá oss löngun til hennar. En allar þessar hvatir mega sjer einskis hjá þeim, er lagzt hafa í drykkjuskap; þeir eru og verða iðjuleysingjar, fátæklingar, lausungarmenn og mannlegu fjelagi til einberra þyngsla. Í greifadæminu *Washington* (í Jórvíkur-ríki) voru 334 öreigar, og 290 af þeim fyrir drykkjuskap; í greifadæminu *Oneida* 246 af 253, í greifadæminu Kumralandi (í Pennskógaríki) 48 af 50; í greifadæminu *Baltimore* (á Maríulandi) 1,059 af 1,134. Af þeim 1,969 öreigum, er ýms góðgjörðafjelög í Bandaríkjunum hjeldu lífinu í, höfðu 1,790 steypt sjer í eymdir þessar með ofdrykkju, að sögn sveitaforstjóranna. Hver getur efazt um, að allflestir aumingja þessara hefðu orðið starfsamir, þjóðinni að miklu gagni, og getað haft ofan af fyrir sjer og heimili sínu, ef þeir hefðu ekki orðið drykkjumenn? Hver getur efazt um, að neyzla áfengra drykkja sje siðgæðinu gagnstæðileg, þegar hún veldur því, að maðurinn verður með öllu óhæfur til að fullnægja hinum helgustu skyldum sínum, þ. e. að vera starfsamur og ala önn fyrir heimili sínu?

6, Neyzla áfengra drykkja aptrar oss ekki einungis frá að gjöra hið góða, heldur og einnig leiðir oss til hins illa. Margir þeir, sem annars kostar mundu hafa sigrazt á ástríðunum til að fremja einhvern glæp, lúta í lægra

haldi fyrir þeim, þegar þeir eru orðnir drykkjumenn. Af 39 bandingjum, sem eru í fangelsinu í greifadæminu *Lichtfield* (í *Connecticut*), eru 35 drykkjumenn; í fangelsinu í *Ogdens*borg (í Jórvíkur-ríki) voru sjö áttundu hlutir bandingjanna drykkjumenn; eins stóð á fyrir 467 af 647 í fangelsinu í *Auburn* (í Jórvíkur-ríki), og 346 af þeim voru drukknir, þegar þeir frömdu þau glæpaverk, er þeir voru settir í bönd fyrir; í ríkisfangelsinu í *Connecticut* voru 90 drykkjumenn af 120 bandingjum. Í líku hlutfalli voru bandingjarnir í öðrum fangelsum. Þó er einn hlutur einka markverður: að af 690 börnum, er sett voru í fangelsi í bænum Nýju-Jórvík fyrir óknytti, er þau höfðu hafzt að, voru meira enn 400 frá ofdrykkjuheimilum. Ef vjer gjörum nú ráð fyrir, að heimili þau, er ofdrykkja átti sjer stað á, hafi verið í sama hlutfalli við þau, er ekkert var drukkið á, og 1 á móti 10, þá leiðir þar af, að drykkjumennirnir hafa getið fjóra sjöundu hluti af þessum ungu afbrotamönnum, en bindindismennirnir, þó þeir sjeu tíu sinnum fleiri, naumlega þrjá sjöundu hluti. Börnum þeirra foreldra, er neyta áfengra drykkja, er því tíu sinnum hættara við að fremja glæpaverk, komast í fangelsi og verða hengd, enn börnum þeirra, er drekka alls ekki. Margir þjófar og morðingjar mundu ekki vera orðnir svo gjörspilltir, ef þeir hefðu ekki farið að drekka. Því margir eru þeir, sem eru svo gjörspilltir, að þeir svífast ekki hinna hryllilegustu glæpaverka, en þeir eru þó hræddir við dauðann og gálgann; þeir leitast því við, að fá aðra í fylgi með sjer, þegar þeir hafa eitthvað illt fyrir stafni; þá laumast þeir til einhverra, er þeir vita, að þykir góður sopinn, og bjóða þeim að drekka með sjer, og látast gjöra það af góðvilja einum; síðan ympra þeir á því svona í trúnaði, að þeir hafi í huga glæsilegt áform og stórum ábatavænlegt, er þeir ætli að framkvæma á næstu nótt, fara síðan smátt og smátt að skýra hinum betur frá, þangað til þeir halda að þessir vesalingar sjeu

svo vel undir búnir, að þá sje óhætt að segja þeim með berum orðum frá ránum þeim eða manndrápum, er þeir hafa í huga. Verið getur að hinir skorist undan í fyrstu, og þeim virðist tiltæki þetta heldur ógurlegt og hættulegt; þá er hellt aptur í staupið fyrir þá, og enn og aptur, þangað til þeir leggja á stað og fremja þenna hryllilega glæp. Það líður ekkjert ár svo, að eitthvert morð sje ekki framið, er þannig sje undir komið.

Hinn virðuglegi herra *J. B. O'Neal* úr Suður-Karólínu segist mega fullyrða, að ofdrykkja valdi allflestum manndrápum í því ríki, og af hverjum 11 manndrápum, er hann hafi átt að verja, hafi 10 haft fyrstu upptök sín í brennivínsdrykkju; og níu tíundu hlutir allra áfloga, upphlaupa og uppreisna sjeu sprottnir af sömu rótum. Herra *Thomas Williams* úr sama ríki segir, að í 11 manndrápsmálum, er rannsökuð hafi verið fyrir hans dómstóli, hafi ætíð annaðhvort sá, er verkið vann, eða sá, sem drepinn var, verið drykkjumaður, eða þá að minnsta kosti drukkinn í það skiptið; en optastnær hafi hvorirtveggja hlutaðeigendur verið drukknir. "Jeg hef", segir hann, "rekið óteljandi rannsóknir um önnur ofríkisverk, t. a. m. áflog, hvort sem menn hafa ætlað að drepa nokkurn eða ekki, um rán og annað því um líkt, og man jeg ekki til, að allir hlutaðeigendur hafi nokkurn tíma verið með öllu ódrukknir. Jeg hef rekið óteljandi þjófnaðarmál, og ætíð hafa þjófarnir annaðhvort verið drykkjurútar, eða að minnsta kosti drukknir þegar þeir stálu". Herra *Hugh Maxwell* úr Nýju-Jórvík segist hafa haft 22 morð til rannsóknar, sem öll hafi risið af drykkjuskap. Það mun varla vera eitt morð af 200, sem á hverju ári eru framin í Bandaríkjunum, er drykkjuskapur eigi ekki einhvern þátt í, eða ekki sje framið af drykkjumönnum. Þó andskotinn færi að leita þess drykkjar, er væri þess eðlis, að hann megnaði að gjöra aðra honum líka, og koma þeim til að verða hans vinnuhjú, þá væri ekki auðið að finna nokkurn drykk, er hæfari væri til

þessa, enn áfengir drykkir; af þeim leggur þá eiturgufu, er lestir og stórglæpir, eymd og dauði kvikna í og magnast, með öllum þeim illskuher, sem er í fylgd með þeim.

Ef drykkir þessir dræpu einungis niður velgengni vora í þessu lífi, en ekki vora eilífu farsæld; ef þeir eyddu að eins eignum vorum, spilltu heilsunni, trufluðu skinsemina og sviptu oss lífinu, þá væri þetta allt þolandi; þó þeir drægju meira enn 200,000,000 ríkisdala út úr ríki voru, og steyptu meira enn 30,000 samlanda vorra fyr í gröfina, enn annars kostar mundi hafa orðið; þó þeir þar á ofan gjörðu konur vorar að ekkjum, og börnin að munaðarleysingjum, og yllu hringinn í kringum sig bruna, auðn og dauða, þá væri það þolandi, ef sála vor yrði hrein og óflekkuð; ef hinn ódauðlegi partur vor næði að búa sig undir dýrð og sælu hins eilífa lífs. En —

7. Þeir spilla einnig sálum vorum. Þeir stæla syndugа menn í glæpum þeirra, og aptra þeim frá að kannast við náð guðs, er lýsir og helgar; þeir kveikja tilfinningu þá í brjóstum vorum, er lausnari vor hefur svo mikla andstyggð á: að vjer ætlum oss ríka í andanum og þurfa engrar aðstoðar við eða miskunar; og þetta veldur því, að vjer getum aldrei haft þær tilfinningar eða það hugarfar, er maðurinn hlýtur að hafa, ef hann á að verða endurlausnarinnar að njótandi. Heilagur andi vill ekki vitja þess manns, hvað þá heldur taka sjer bústað hjá honum, er lætur áfenga drykki drottna yfir sjer. Hugarfar það og hjartalag, er þeir geta af sjer, er andstyggð fyrir honum. Áfengir drykkir trufla ekki einungis skynsemina, stæla samvizkuna, saurga hinar helgustu tilfinningar og drepa niður öllum þrótti andans og sálarinnar, heldur sporna þeir á móti allri náð guðs, og allri hinni óumræðilegu gæzku og miskunsemi endurlausnara vors; þeir halda sálunni hertekinni í eilífum þrældómi; þeir geta "þann orm, er aldrei deyr", og kveikja "þann eld, er aldrei slokknar"; þeir koma sálunni til að örvílnast, veina og emja yfir því,

að hún sje dæmd til eilífra kvala, rekin frá augliti drottins og frá dýrð veldis hans.

Af þessum rökum öllum þykjumst vjer skyldir til að skora á yður, að þjer ekki einungis haldið sjálfum yður frá þessum hinum skaðvænu drykkjum, heldur að þjer einnig stuðlið til þess með dæmi yðar í fjelagskap við aðra, að allir menn gjöri hið sama. Ef að neyzla áfengra drykkja yrði eins mikil í næstu 30 ár, og verið hefur í seinustu 30 ár, þá mundi ríki vort verða við það fyrir svo miklu tjóni, að næmi 5,626,000,000 ríkisdala, og meira enn 1,000,000 af samlöndum vorum mundu hníga fyr í gröfina enn ella. Þar að auki mundi heil milión af drykkjumönnum vaxa upp, og þaðan mundi þessi bölvaða ástríða ganga í erfðir til barna þeirra, og þaðan til ókominna kynkvísla, þangað til þessi brennandi eldur, er enginn fær slökkt, mundi að síðustu eyða öllu mannkyninu; þar að auki mundi 5,000 manndrápsmanna fæðast á einum mannsaldri, og meir enn 1,500,000 glæpa verða framdir. Og þótt drykkjumennirnir fjölguðu ekki úr því sem nú er, og áfengir drykkir styttu ekki líf þeirra nema um 10 ár, og þeirra, er hóflega drekka, einungis um 5 ár, og þó svo teldist til, að einungis fimmti hver væri drykkjumaður, þá mundu þó missast 32,400,000 ára af lífinu, og það einmitt af þeim kafla lífsins, þegar maðurinn er bezt fallinn til allra ágætisverka, og hæfastur fyrir sjerhverja dyggð, sem hefur áhrif á líf vort eptir dauðann.

En hversu miklar og ógurlegar sem þessar óheillir eru; hversu óyggjandi sem það er, að ef tilefni þeirra helzt við, munu þær haldast við meðan heimurinn stendur, þá er þó auðvelt að rýma þeim burtu. Ef allir þeir, er þrek hafa í sjer til þess, hafna öllum áfengum drykkjum, þá mun óhófsemin með öllum svívirðingum þeim, er hún hefur í togi með sjer, hverfa smásaman með öllu, og bindindi með öllum þeim blessunum, er henni fylgja, ríkja um allan heim. Ef allir þeir, er hóflega drekka, tækju

þetta ráð, þá mundu drykkjumennirnir, er ekki vildu bæta lifnað sinn, líða fljótt undir lok, og landið losast við löst þeirra. 3,000,000 barna vorra mundu alást upp og neyta ekki áfengra drykkja og hafa ekki löngun í þá; þá mundi þvílík kynslóð koma í ljós, að slík hefði aldrei fyr verið í heiminum, og mundi bera með sjer blessun þá, er hin frjálsa stjórnarskipun vor hefur í för með sjer, og hinar enn þá mikilvægari blessanir, er spretta af fagnaðarboðskap lausnara vors, og glæða ljós það, er mundi rýma burtu fa jörðunni vanþekkingu þeirri, löstum og eymd, er hingað til hefur drottnað yfir henni.

Þess vegna fulltreystum vjer því, að þjer og allt yðar heimafólk munið styrkja að þessu góða áformi, og rita nöfn yðar undir skuldbindingu þá, er hnýtt er aptan við umburðarbrjef þetta. Sumir yðar kunna að segja: “Hví skyldum vjer skrifa nöfn vor undir skuldbindingu þessa? Er það ekki nóg, og jafnvel langtum betra, ef að vjer einsetjum oss hver um sig að drekka ekki neitt, eða hver um sig hefur nákvæmar gætur á athöfnum sínum, og lofar öllum öðrum að gjöra hið sama? Hvaða hagnaður er að almennu, reglulega stofnsettu fjelagi?” Þeim er svo mæla svörum vjer: Ef óvina her brytist inn í land vort til að bæla það undir sig, og hver um sig segði: “jeg ætla ekki að veita óvinum vorum, en jeg vil ekki heldur gjöra neitt samband við landa mína til að reka fjandmenn vora af höndum oss; jeg vil ekki bindast í neinu; þegar jeg fer að berjast, þá ætla jeg að berjast mjer, og eins og mjer lízt, en læt mig ekki varða um aðra” — hver mundu þá afdrifin verða? Óvinir vorir mundu bera sigurinn úr býtum, og vjer verða hnepptir í þrældóm.

Aðrir kunna að segja: “Mættum vjer ekki skammast vor, að eiga að fara að skuldbinda oss til bindindi með fjelagskap við aðra og með skriflegu loforði, þar eð vor eigin sómatilfinning býður oss þetta sjálfkrafa?” Vjer spyrjum þessa hina sömu aptur á móti: Ef maður fengi

einhverjum til undirskriptar í frelsisstríði kröfu þá, að hann gengi í mál ættjarðar sinnar og gjörði fjelagskap við samlanda sína til að frelsa hana undan ánauð, og hann segði þá: "það væri skömm að mjer ef jeg gæti ekki haft ást á ættjörðu minni, nema jeg ritaði nafn mitt undir þetta skjal og skuldbyndi mig til þess með því móti" — sýndi hann ekki beinlínis með þessu, að hann hefði enga ást á fósturjörðu sinni í raun og veru? Þó menn væru beðnir að rita nöfn sín undir þesskonar brjef, þá væri það ekki gjört í þeirri veru, að gjöra menn að vinum ættjarðar sinnar, heldur ætti það einungis að vera til þess, að sameina alla þá, er hefðu ást á fósturjörðu sinni, til þess áforms, er almenningi mætti að gagni verða, og leysa með þessu móti landið undan þrældómsoki óvina þess. Eins er tilgangur bindindisfjelaganna, með því að láta menn rita nöfn sín undir skjalið, ekki sá að leiða þá, er í því eru, til bindindi í neyzlu áfengra drykkja og hófsemi, heldur að sameina alla þá, sem bindindissamir eru og hófsamir, í almennt fjelag og reglulega stofnað, til þess að sýna með dæmi þeirra, sem er áhrifamest allra kenninga, að mennirnir, á hvaða aldri og í hvaða stöðu sem eru, og að hverju sem þeir starfa, eru í öllu tilliti hraustari og heilbrigðari, þegar þeir neyta ekki áfengra drykkja. En þegar menn hafa viðurkennt þetta, sem ekki getur hjá farið þegar dæmið verður svo almennt, þá getur enginn, sem þekkir ógæfu þá, er þessir drykkir ætíð hafa í togi með sjer, hrundið þeirri sannfæringu frá sjer, að það er syndsamlegt, bæði að neyta þeirra sjálfur og bjóða þá öðrum.

Einhver kynni að segja: "Jeg drekk enga áfenga drykki, og ætla ekki að gjöra það; þó vil jeg ekki skuldbinda mig til þess með því að rita nafn mitt; því hver getur vitað nema þeir komi tímarnir, að jeg vilji, eða, ef til vill, jafnvel álíti það skyldu mína, að neyta þessara drykkja". Það væri rjett eins og einhver segði: "Nú er

jeg frjáls maður, og ætla jeg muni líka verða það framvegis; ekki vil jeg samt skuldbinda mig til þess, svo jeg eigi kost á að verða þræll aptur, ef það kynni að detta í mig". Bindindisfjelögin eru ekki stofnuð í þeirri veru, að svipta nokkurn mann frjálsræði viljans með skuldbindingu þessari, eða neyða nokkurn mann til að bergja aldrei á áfengum drykkjum, hvernig sem á stendur, heldur er sá tilgangurinn, að þeir bindi allir með sjer fjelagskap að sjálfvilja sínum, er ekki bergja á áfengum drykkjum, og álíta það nauðsynlegt sakir barna sinna og landsmanna. En færi svo, að einhverjum þætti sem skyldur sínar við guð, sjálfan sig eða aðra menn, byði honum að bergja á áfengum drykkjum eptir það hann hefði reynt bindindi hlutdrægnislaust, á hann frjálst að ganga úr fjelaginu og láta má nafn sitt af skrám þess. En það fer líkt hjer eins og þegar maður losast úr einhverri annari ánauð, að því lengur sem maður hefur verið frjáls, og því frjálsari sem maður er, því kærra verður manni frelsið, og því síður mun maður vilja hverfa aptur í hina fornu ánauð. Það er og dæmalaust, að nokkur af þeim, er hingað til hafa gengið í bindindisfjelög, og verið stöðugt í þeim í tvö ár, hafi eigi sannfærzt um, að honum heilsaðist miklu betur, síðan hann hætti að bergja á áfengum drykkjum, enn áður; og vjer teljum það fullvíst, að ef slíkar tilraunir væru gjörðar víða og haganlega, mundi öllum reynast svo.

En fremur segja sumir: "Til hvers eiga konur að ganga í bindindisfjelög"? Sje það satt, að guðsorð hafi eins blessunarík áhrif á huga konunnar og á huga karlmannsins, og gjöri hana jafn-hæfa honum til allra góðra hluta, þá hlýtur sjerhvert fjelag, er hvortveggja taka þátt í, bæði konur og karlar, að hafa meiri áhrif á alþýðu, og einkum á ungmenni og börn, enn væri konum varnað fjelagskapar. Með því bindindisfjelög þau, er vjer leggjum nú allt kapp á að stofna, miða einkum til þess, að varðveita börn vor frá ofdrykkju, eigum vjer þá síður að færa oss í nyt dæmi

mæðra og systra enn feðra og bræðra, til að efla áform vort?

Sú er önnur ástæða vor til þess að ekki beri að varna konum fjelagskapar: að á síðasta mannsaldri hrepptu hjer um bil hundrað þúsundir beztu og dyggðugustu kvenna þá ógæfu, að bændur þeirra voru drykkjurútar, svo þær urðu að ala börn sín upp við ofdrykkjudæmi það, er bændur þeirra gáfu af sjer. Það er að vísu hægt að sjá við, að slíkt beri eigi optar að, en þó með því eina móti, að allir feður og bræður, mæður og systur á vorum dögum haldi sig frá áfengum drykkjum og gangi í bindindisfjelög, og leggist öll á eitt til að koma því á, að dætur ókominna kynkvísla fari því sama fram, og komist þannig æfinlega hjá óláni þessu.

Vjer tökum því aptur upp bæn vora, og biðjum yður og öll börn yðar og hjú af alhuga, að þjer ritið nöfn yðar á skuldbindingarskrá þá, er brjefinu fylgir, og komið þeim síðan á nafnaskrár bindindisfjelaganna.

Það er áform vort að koma umburðarbrjefi þessu eða öðru áþekku skjali á hvert býli í Bandaríkjunum, með aðstoð bindindisfjelaga þeirra, er nú eru stofnuð í ýmsum ríkjum, greifadæmum, borgum og sveitum, og með styrk annara bindindisvina. Í nokkrum hjeruðum hafa bindindisvinir þegar byrjað á þessu, og hefur alstaðar verið gjörður að því hinn bezti rómur. Þegar sú stund kemur, að vjer getum sýnt öðrum út í frá þá hina fögru og glæsilegu sýn, að 13,000,000 manna hafi verið svo þrekmiklir og haft svo mikið vald á sjálfum sjer, að þeir hafi rekið af sjer ánauð vondrar venju, og ásett sjer að láta ekki framar yfirstígast af neinni ástríðu, til að vera frjálsir, bæði andlega og líkamlega; þá munum vjer geta með sanni sagt: "Guð hefur blessað oss."

Slík sigurvinning á sjálfum oss mun fremur öllu öðru gjöra oss æfinlega frjálsa í anda og sannleika, og efla menntun, dyggðir og sælu um víða veröld.

## Skuldbinding:

Vjer erum sannfærðir um, að það er ekki að eins ónauðsynlegt, að hafa það til drykkjar, sem áfengt er, heldur þar á ofan skaðsamlegt fyrir öll mannleg efni, bæði í andlegan og líkamlegan máta; þar af kvikna illar tilhneigingar og rangar siðvenjur, og þeim illu hlutum, sem ofdrykkjan af sjer leiðir, verður ekki burtu rýmt, meðan neyzla hinna áfengu drykkja er ekki með öllu af tekin. Sakir þess höfum vjer fastlega ásett oss, að hafna sjálfir neyzlu drykkja þessara, hafa þá hvorki í kaupum nje sölum, bjóða þá aldrei gesti nje ganganda, gefa þá ekki vinnufólki voru, og reyna þar að auk með öllu hæfilegu móti að bola þá gjörsamlega út úr mannlegu fjelagi.

---

Á fundi, sem nokkrir Íslendingar áttu í Kaupmannahöfn, laugardaginn 9. dag septembers í fyrra, tóku þessir menn sig saman um að stofna bindindisfjelög: Brynjólfur Pjetursson, Brynjólfur Snorrason, , Gísli Thórarensen, Gunnlaugur Þórðarson, Halldór Kr. Friðriksson, Konráð Gíslason og Pjetur Pjetursson. Var þeim Konráði Gíslasyni og Pjetri Pjeturssyni falið á hendur, að semja lög fjelagsins. Litlu síðar báru þeir upp frumvarp sitt á fundi, og fjellust menn á það. Voru þá þessar greinir í lög leiddar:

### 1. grein.

Fjelag vort heitir **íslenzkt hófsemdarfjelag.**

### 2. gr.

Það deilir lögum vorum, hvort vjer erum á Íslandi staddir eða erlendis.

1. Á Íslandi má enginn fjelagsmaður bergja neinu, sem áfengt er, án læknis ráði, nema því víni, sem klerkar skulu deila mönnum í altarisgöngu.

2. En erlendis er þar að auk leyfilegt, að drekka það öl, sem gjört er í því landi, þar sem maður er þá, svo og meðal-glas af rínarvíni eða frakknesku rauðavíni í sólarhring.

3. gr.

Sjerhver fjelagsmaður skal æ gjöra slíkt, sem honum er lagið, til að leiða sem flesta vora landa til þessa fjelagskapar.

4. gr.

Enginn af oss má hafa á boðstólum nokkurn áfengan drykk, nema honum þyki sem manns líf muni við liggja.

Þeim Pjetri prófasti og Konráði var og falið á hendur, að taka saman brjef, og bjóða mönnum á Íslandi til að ganga í fjelagið. Frumvarp þeirra var þannig:

Það er alkunnugt og margreynt, að í hverjum þeim stað, sem áfengir drykkir tíðkast á annað borð, verða margir að ofdrykkjumönnum, og skerða með því ekki að eins eignir sínar og iðjusemi, heldur spilla þeir heilsu líkamans og jafnvel viti sínu og góðum siðum og þar með virðingu þeirri, sem þeir annars kostar mundu ávinna sjálfum sjer og þjóð sinni. Af þessum rökum eru nú stofnuð mörg hófsemdarfjelög um víða veröld, einkum hjá þeim þjóðum, sem bezt eru menntaðar, og hafa þau borið, og bera hversdagslega, blessunarríkan ávöxt fyrir lönd og lýði. Nú þó að slíks þurfi að sönnu alstaðar við, þá mun vera óhætt að fullyrða, að hvergi beri jafnbrýna nauðsyn til þessa og á Íslandi; því bæði er landið svo fátækt, að það má ekki ausa út til ónýtis milli 80,000 og 120,000 rdd.[1] á ári hverju, sem (með leigum) ekki er

[1]) Þessi tala var tekin eptir ágizkun kunnugra manna, og fer hún nærri sanni. Til þess að komast svo nærri því, sem auðið er, hversu mikil vínföng eru flutt til landsins, höfum vjer útvegað oss leyfi til að skoða verzlunarskrár sýslumanna, sem rentu-

lengi að draga sig saman í stórmikið fje, og þó er hitt þjóðinni enn meira niðurdrep, að deyða og ónýta með þessu eitri og ólyfjani svo mikinn andlegan og líkamlegan krapt margra góðra manna, þar sem aldrei hefur verið jafnmikil nauðsyn og nú, að verja öllu því góðu, sem í voru valdi stendur, til heilla og framfara fósturjörðu vorri og sjálfum oss. Þessvegna urðum vjer stórlega glaðir við, þegar sú fregn barst oss til eyrna, að hófsemdarfjelög væru þegar stofnuð á Íslandi, og þótti oss skylt,

---

kammerinu eru sendar á ári hverju. Höfum vjer tekið þær síðustu, er vjer gátum fengið, og samið eptir þeim yfirlit yfir vínföng þau, er flutt voru til landsins sumarið 1841, og andvirði þeirra:

| Kaupstaðir | Brennivín (danskt) | | | Koníak | | | Romm | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | potta-tal | andvirði | | potta-tal | and-virði | | potta-tal | andvirði | |
| | | rdd. | sk. | | rdd. | sk. | | rdd. | sk. |
| Reykjavík . . . . . | 76,836 | 12,005 | 60 | 60 | 30 | | 1,363 | 681 | 48 |
| Hafnarfjörður og Keflavík . . . . . | 88,440 | 12,897 | 48 | | | | 1,680 | 840 | |
| Eyrarbakki . . . . | 15,600 | 2,600 | | | | | 240 | 120 | |
| Vestmannaeyjar . . | 34,200 | 5,700 | | | | | 360 | 180 | |
| Djúpivogur og Eskifjörður . . . . | 21,217 | 3,978 | 18 | 600 | 300 | | 474½ | 237 | 24 |
| Vopnafjörður . . . | 6,968 | 1,306 | 48 | 220 | 110 | | 60 | 30 | |
| Raufarhöfn og Húsavík . . . . . | 10,140 | 1,957 | 48 | 180 | 90 | | 450 | 225 | |
| Akureyri og Siglufjörður . . . . . . | 22,644 | 4,245 | 72 | 140 | 70 | | 859 | 429 | 48 |
| Hofsós og Grafarós | 11,373 | 2,310 | 13½ | | | | 120 | 60 | |
| Höfði og Hólanes . | 16,127 | 2,687 | 80 | | | | 684 | 342 | |
| Kúvíkur . . . . . . | 2,888 | 601 | 64 | | | | 80 | 40 | |
| Ísafjörður, Önundarfjörður og Dýrafjörður . . . . . . | 11,960 | 2,242 | 48 | 100 | 50 | | 120 | 60 | |
| Bíldudalur, Patriksfjörður og Flatey | 7,571 | 1,735 | 2 | 80 | 40 | | 80 | 40 | |
| Stykkishólmur, Grundarfjörður, Ólafsvík og Búðir | 32,068 | 4,676 | 56 | 120 | 60 | | 640 | 320 | |
| | 358,332 | 58,944 | 77½ | 1,500 | 750 | | 7,210½ | 3,605 | 24 |

að láta ekki vorn hlut eptir liggja, og gjörðum fjelagskap með oss, og rituðum lagagreinir þær, sem vjer nú sendum til Íslands með þeirri bæn, að sem flestir verði til að íhuga þetta mál, og ganga í lög með oss. Biðjum vjer þá að rita nöfn sín á hið lausa blað, sem fylgir brjefi þessu, og senda það síðan einhverjum af oss, helzt með póstskipi í vetur, þar eð vjer höfum í hyggju, að auglýsa á prenti að vori komanda nöfn fjelagsmanna með öðru því, sem fjelagið snertir.

Á þetta frumvarp fjellust menn, og var brjefið dagsett 26. dag septembers, og rituðu undir það nöfn sín þeir fjelagsmenn, sem nefndir hafa verið, og Jóhann Halldórs-

| Púnsextrakt | | | Allar brennivíns tegundir | | | Vín | | | Andvirði áfengra drykkja | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| potta-tal | andvirði | | potta-tal | andvirði | | potta-tal | andvirði | | rdd. | sk. |
| | rdd. | sk. | | rdd. | sk. | | rdd. | sk. | | |
| 4,685½ | 2,342 | 72 | 82,944½ | 15,059 | 84 | 4,133¾ | 1,948 | 32 | 17,008 | 20 |
| 1,695 | 847 | 48 | 91,815 | 14,585 | | 3,224¾ | 1,659 | 64 | 16,244 | 64 |
| 360 | 180 | | 16,200 | 2,900 | | 400 | 166 | 64 | 3,066 | 64 |
| 1,588½ | 794 | 24 | 36,148½ | 6,674 | 24 | 832 | 391 | 64 | 7,065 | 88 |
| 1,122 | 561 | | 23,413½ | 5,076 | 42 | 2,061 | 891 | | 5,967 | 42 |
| 240 | 120 | | 7,488 | 1,566 | 48 | 440 | 183 | 32 | 1,749 | 80 |
| 327 | 163 | 48 | 11,397 | 2,436 | | 500 | 208 | 32 | 2,644 | 32 |
| 738 | 369 | | 24,381 | 5,114 | 24 | 1,117½ | 465 | 60 | 5,579 | 84 |
| 140 | 70 | | 11,633 | 2,440 | 13½ | 356 | 148 | 32 | 2,588 | 45½ |
| 641 | 320 | 48 | 17,452 | 3,350 | 32 | 493 | 205 | 40 | 3,555 | 72 |
| 120 | 60 | | 3,088 | 701 | 64 | 240 | 100 | | 801 | 64 |
| 408 | 204 | | 12,588 | 2,556 | 48 | 760 | 316 | 64 | 2,873 | 16 |
| 67½ | 33 | 72 | 7,798½ | 1,848 | 74 | 600 | 250 | | 2,098 | 74 |
| 1,260 | 630 | | 34,088 | 5,686 | 56 | 1,480 | 616 | 64 | 6,303 | 24 |
| 13,392½ | 6,696 | 24 | 380,485 | 69,996 | 29½ | 16,637¾ | 7,551 | 68 | 77,548 | 1½ |

son[1] og Stefán landfógeti Gunlögsen, sem bætzt höfðu við í fjelagskapinn. Með póstduggunni rituðu fjelagsmenn kunningjum sínum á Íslandi um þetta efni. Þar á ofan

---

Í yfirliti því, er stendur á opnunni hjer að framan, er andvirði vínfanganna reiknað á þessa leið: Andvirði brennivínsins er tekið eptir verzlunarskrám sýslumannanna, en þær eru aptur samdar, að andvirði varningsins til, eptir sögn kaupmanna. Af koníaki og rommi og púnsextrakt er potturinn gjörður á 48 sk. og vínpotturinn á 40 sk. af allskonar víni, en þar sem vínið hefur verið flutt í flöskum, er flaskan gjörð á 48 sk. Þetta andvirði mun í raun og veru vera miklu minna enn það, sem ausið hefur verið út til vínfanga; því í fyrsta lagi er ekki að vita, nema vínföngin, sem flutt eru í sumar sýslur, sjeu meiri, enn til er tekið í verzlunarskránum. Kunnugur maður fullyrðir t. a. m., að milli 70 og 80 tunnur af brennivíni hafi verið fluttar undanfarin ár í eina verzlun á Ísafirði; en í verzlunar-skránum eru ekki nefndar nema hjer um bil 100 tunnur í allri Ísafjarðar sýslu, og er þó meir enn ein verzlun á Ísafirði sjálfum, og þar að auk tveir aðrir verzlunarstaðir í sýslunni, að ótöldum lausakaupmönnum. Í öðru lagi mun andvirði vínfanganna heldur vera talið of lítið, enn of mikið; því það er t. a. m. auðvitað, að ekki hefur hver af þeim 120,508 pottum af brennivíni, sem fluttir voru til Hafnarfjarðar, Kjeflavíkur og Snæfellsness-sýslu, verið seldur á 14 sk., eins og hjer er reiknað, þó verðið á brennivíninu hafi verið 14 sk. um stuttan tíma. Mest af því víni, sem í flöskum er flutt, mun líka vera dýrra, enn 48 sk. hver flaska. Allt fyrir það sjá menn þó, að keyptar hafa verið brennivínstegundir, eptir þessum reikningi, fyrir hjer um bil 70 þúsundir rdd. eitt ár, og óþarfa vín fyrir 5 þúsundir, (því hálft þriðja þúsund rdd. er miklu meira enn nægir til að kaupa fyrir vín til altarisgöngu og annars þarfa), og þessar 75 þúsundir má vel gjöra að 90 þúsundum, þó ekki sje horft á annað, enn að andvirðið í yfirlitinu hjer að framan mun vera gjört of lítið. En þegar menn gæta þess, hvernig drukknir menn láta hafa af sjer í kaupum og sölum, og hvílíkan óþarfa menn glæpast á að kaupa, þegar þeir eru ekki með öllu viti, þá fer skaði landsins að verða nokkuð meiri enn 90 þúsundir rdd. á ári. Þá er þó enn eptir það, sem ekki er minnst í varið, og það eru allar þær verkatafir, sem brennivínsdrykkjan veldur, og öll sú hnignun líkamans og allt það manntjón, sem af henni leiðir. En ef fara ætti að meta allt þetta til peninga, verður skaði landsins á ári hverju ekki að eins 120,000 rdd., heldur miklu meiri. Og fyrir allan þenna skaða tekur landið ekkjert í aðra hönd, nema óhamingju eina; því áfengir drykkir eru í því ólíkir flestum öðrum óþarfa, sem kallaður er, og optast er þó til einhvers nýtur, að þeir eru til einskis annars enn eymdar og ófagnaðar. Við allt þetta bætist, að brennivínsdrykkjan er allt af að fara í vöxt, og hlýtur að gjöra það eptir eðli sínu, nema menn taki upp það eina ráðið, sem til er að kefja hana — fullkomna bindindi.

[1]) Hann dó um nýár í vetur.

rituðu þeir og brjef herra Steingrími biskupi Jónssyni, og beiddu hann að greiða götu fyrir þessu áformi með því að útbýta boðsbrjefum þeim, er honum voru send, meðal allra presta, og brást hann ljúfmannlega við þessu, og ritaði próföstum 6. dag nóvembers-mánaðar í fyrra, 2 dögum eptir að póstduggan var heim komin, og sendi hverjum þeirra svo mörg boðsbrjef, sem prestar eru í hverju prófastsdæmi. Þó að herra biskupinn yndi nú svo bráðan bug að þessu, þá hafa þó prestar í fjarlægum sveitum naumast verið búnir að fá vitneskju um þetta fyrir þann tíma, sem póstar eru vanir að fara með brjef í póstdugguna, og því síður hafa þeir fengið tíma til að sjá, hvernig því yrði ágengt í sóknum sínum. Þó vjer sökum þessara orsaka getum eigi gjört grein fyrir því í þetta sinn, hversu margir nú sjeu gengnir í fjelag vort, þá getum vjer samt sagt löndum vorum þá gleðifregn, að hófsemdarmálefninu hefur nálega alstaðar verið vel tekið. Úr Múlasýslunum höfum vjer frjett, að margir einstakir menn sjeu farnir að leggja niður öll afskipti af ölföngum, og að hófsemdarfjelag sje stofnað í Fljótsdal. Mælt er og, að Arnór Árnason, sýslumaður í Nyrðri Þingeyjarsýslu hafi fengið menn til þess á þingum í fyrra, að rita nöfn sín undir hófsemdarfjelags-skrá, og öll líkindi eru til þess, að hann muni halda hinu sama áfram. Í Eyjafirði hafa menn gjört góðan róm að þessu. Sjera Sigurður Arnórsson á Völlum í Svarfaðardal og sjera Björn Jónsson í Glæsibæ hafa báðir gengið í fjelag vort, en vegna naumleika tímans gátu þeir ekki sent fleiri áskrifendur; segir sjera Sigurður, að margir muni verða til í Svarfaðardal að ganga í fjelagið. Heyrt höfum vjer og, að sjera Jón í Dunhaga hafi gjört sjer far um að leiða sóknarmenn sína til hófsemdar. Í Skagafjarðarsýslu hafði sjera Benidikt prófastur Vigfússon á Hólum stofnað hófsemdarfjelag í fyrra í sóknum sínum, er hann segir sje líkt voru fjelagi,

og voru flestir bændur í Hóla-sókn gengnir í það áður enn honum barst brjef vort í hendur. Í Húnavatnssýslu hefur sjera Daníel Halldórsson gengið í lög og lið með oss, og með honum þessir menn: Bjarni Bjarnarson, bóndi á Vigdísarstöðum; Björn Pálsson á Syðri Völlum; Þorsteinn Þorsteinsson, bóndi á Ytri Kárastöðum; Gísli Gíslason, bóndi á Litla Ósi; Björn Guðmundsson, bóndi á Ytri Völlum; Guðmundur Bjarnarson á sama bæ; Gísli Þórðarson bóndi á Tjarnakoti; Eggert Halldórsson á Melstað. Í Dalasýslu var stofnað hófsemdarfjelag í fyrra sumar, og gekkst Jón, sonur sjera Þorleifs prófasts í Hvammi, fyrir því; fjelag þetta var í vetur orðið all-fjölmennt, og er ekki örvænt, að það greiði götu fyrir fullkominni bindindi. Í Árnessýslu stofnaði sjera Sigurður G. Thórarensen í Hraungerði með nýári fjelag í sóknum sínum, er hann kallaði "afneitunar fjelag áfengra drykkja Hraungerðis og Laugardæla safnaða", og ritaði sjálfur lög þess í 6 greinum, er hann sendi öðrum prestum í sýslunni, og skoraði um leið á þá, að hver þeirra um sig vildi reisa viðlíkar skorður við ofdrykkju í sóknum sínum. Sjera Þórður Árnason í Klausturhólum í sömu sýslu hefur gjört sjer allt far um að leiða sóknarmenn sína til hófsemdar, og hefur stofnað hófsemdarfjelag, og eru gengnir í það 28 menn í Klausturhóla-sókn, og 26 í Búrfells-sókn. Í skólanum hafa að eins 2 ritað nöfn sín á boðsbrjef vort: Eiríkur Jónsson frá Borg, og Oddur Sveinsson frá Hruna, og eru það að vísu færri enn vjer höfdum búizt við. Sjera Eyólfur Kolbeinsson, prestur á Eyri í Skutulsfirði, hefur gengið í lög með oss, og fylgt þessu máli svo rækilega, að þegar póstur fór að vestan, var hann þegar búinn að fá 21 mann í sóknum sínum til að rita nöfn sín á boðsbrjef vort, og eru það: Magnús Árnason, bóndi á Tungu í Bolungarvík; Árni Magnússon, vinnupiltur á sama bæ; Árni Árnason, bóndi á Meiri Hlíð; Magnús Árnason á sama bæ; Magnús Guðmundsson, bóndi á Tröð; Jón Guð-

mundsson, hreppstjóri á Hóli; Guðmundur Bárðarson, fyrirvinna á sama stað; Sigurður Bjarnarson, fyrirvinna á sama bæ; Hákon Bjarnason, ljettapiltur á Eyri; Halldór Pálsson, hreppstjóri í Hnífsdal; Páll Halldórsson, vinnumaður á sama bæ; Ólafur Halldórsson, vinnumaður á sama bæ; Hannes Kárason, bóndi í Búð; Bárður Guðmundsson, vinnumaður í Arnardal; Páll Guðmundsson vinnumaður á sama bæ; Jón Halldórsson vinnumaður á sama bæ; Sigurður Jónsson, vinnumaður í Hnífsdal; Jón Bjarnarson, vinnumaður á sama bæ; Ásgrímur Jónsson, bóndi á Hafrafelli; Gísli Ívarsson, stúdent, á Ísafirði. Þó vjer, sökum naumleika tímans og annara kringumstæðna vegna, höfum eigi fengið nákvæmar skýrslur úr fleiri sóknum eða sveitum um það, hve marga fjelagsbræður vjer höfum fengið heima, þá getum vjer þó af brjefum vorum heiman að ráðið, að þeir sjeu langtum fleiri enn hjer eru taldir, og að málefni þessu muni enn betur ágengt verða, þegar veðrátta og vegir batna og samgöngur verða meiri manna í millum.

Um framgang fjelags vors hjer í Kaupmannahöfn í vetur er það að segja, að síðan í desember-mánuði í fyrra hafa 11 landar vorir bætzt við í fjelagskapinn, og eru það þessir: Jónas Hallgrímsson, náttúrufræðingur, og 10 iðnaðarmenn: Björn Snorrason, Egill Halldórsson, Geir Jónsson, Jón Bjarnarson, Jón Sigfússon, Jónas Gottskálksson, Páll Sveinsson, Símon Guðmundsson, Þorgrímur Jónsson, Þórður Sigurðsson. Á fjelagsfundi 4. dag febrúars, var sú grein lögtekin, sem áður hafði verið rædd á fundi, að ef nokkur fjelagsmanna verður uppvís að því, að hafa brotið lög fjelagsins, skal hann í fyrsta sinni sæta áminningu af forseta einslega, brjóti hann annað sinn, skal hann sæta áminningu á fundi, en ef hann brýtur þriðja sinn, skal hann rækur úr fjelaginu, en eiga þó apturkvæmt að missiri liðnu. Þá var og Brynjólfur Pjetursson kosinn til forstjóra. Þegar fjelagið var stofnað, gekk mönnum

það til þess að deila lögunum eptir því hvort menn eru staddir á Íslandi eða erlendis, að víða erlendis, og einkum hjer í Kaupmannahöfn, er opt og tíðum vatnið að kalla öldungis ódrekkandi, og ekki fáanlegt annað til að svala sjer á enn öl, og er öl það, sem hjer er gjört, ekki áfengt. Líka hjeldu menn, að það mundi fæla suma frá að ganga í fjelag vort, ef þeir mættu ekki í samkvæmum bergja á víni, þegar minni eru drukkin. Samt sem áður undum vjer illa við, að vjer höfðum gjört mun fjelagsmanna, og sjáum vjer af brjefum að heiman, að fjelagsbræður vorir á Íslandi munu vera á sama máli. Skömmu eptir að póstduggan var komin heiman að áttu menn fund að þessu, og urðu allir á það sáttir, að hafa lögin hjer eptir á þessa leið:

1. grein.

Fjelag vort heitir íslenzkt bindindisfjelag.

2. gr.

Enginn fjelagsmaður má bergja neinu, sem áfengt er, án læknis ráði, nema 1. því víni, sem klerkar deila mönnum í altarisgöngu, og 2. því öli, sem gjört er í því landi, þar sem maður er staddur.

3. gr.

Enginn af oss má hafa á boðstólum nokkurn áfengan drykk, nema honum þyki sem manns líf muni við liggja.

4. gr.

Sjerhver fjelagsmaður skal æ gjöra slíkt, sem honum er lagið, til að leiða sem flesta vora landa til þessa fjelagskapar.

5. gr.

Ef nokkur fjelagsmanna verður uppvís að því, að hafa brotið lög fjelagsins, skal hann í fyrsta sinni sæta áminningu af forseta einslega; brjóti hann annað sinn

skal hann sæta áminningu á fundi, en ef hann brýtur þriðja sinn, skal hann rækur úr fjelaginu, en eiga þó apturkvæmt að missiri liðnu.

Svona langt er nú komið sögunni; en það er ósk og von allra vor, sem komnir erum í þenna fjelagskap, að menn láti hjer ekki staðar nema. Hófsemdarfjelög eiga ekki saman nema nafnið; þegar ekki er annað til tekið í lögum þeirra, enn að menn skuli vera hófsamir í drykk, drekka ekki svo á mönnum sjái, eða annað því um líkt, eru þau til lítilla eða engra nota, eins og reynslan hefur sýnt; því það, sem er óhóf í raun og veru, kalla margir hóf, ekki sízt þeir, sem farnir eru að finna á sjer. Þegar skýrt er á kveðið í lögunum, hversu mikið drekka megi, er allt undir því komið, að sem minnst sje til tekið, og til lítils eru slík fjelög, nema þau ákveði svo lítinn skamt, að enginn geti fundið á sjer, þó hann drekki það sem mest er leyft. En þó mun sama raun á verða á Íslandi og í öðrum löndum, að ekkert megnar að stemma stigu fyrir ofdrykkjunni, nema fullkomin bindindisfjelög, þar sem öldungis er fyrir tekið, að menn neyti áfengra drykkja, og vjer fáum aldrei fulltalið fyrir mönnum að stofna þessháttar fjelög. Hyggjum vjer að bezt og skipulegast mundi fara, og verða að mestu liði, ef þeim væri hagað á þann hátt, að hver sókn væri fjelag út af fyrir sig, og einn forstjóri í hverju fjelagi, og ein lög um land allt, svo stutt og einföld og óbrotin, sem orðið gæti. Kemur oss helzt í hug, að mæla fram með þeim lögum, sem vjer höfum sett voru fjelagi, og gengur oss hvorki til þess dramb eða dul, heldur hitt, að þau lög eru nú prentuð og mörgum kunn orðin, og hvorki of hörð nje of lin að vorri hyggju. Í fjelögin ættu að ganga konur sem karlar, eins og í Vesturheimi. Ómissandi væri, að skýrsla væri prentuð á hverju ári um ástand og vöxt bindindisfjelaganna, og ætti forstjóri hvers fjelags að senda í þá skýrslu að

minnsta kosti tölu fjelagsmanna sinna og tölu allra sóknarmanna. Að sönnu færi bezt á, að skýrsla þessi væri prentuð í landinu sjálfu, en meðan ekkert bindindisfjelag er stofnað í grennd við einu prentstofuna, sem til er í landinu, og óvíst er, hvort nokkur mundi þar vilja annast um prentunina, þá mun vera haganlegast fyrst um sinn, að hver fjelags-forstjóri sendi skýrslu sína til Kaupmannahafnar einhverjum í voru fjelagi, og riti utan á brjefið, auk kveðjunnar, þessi orð: "um bindindisfjelög". Ekki kemur oss það óvart, þó mörg tálmun kunni fyrst um sinn að koma fyrir bindindisfjelög á Íslandi, bæði af hálfu kaupmanna, er þykja munu þessháttar fjelög drepa niður brennivíns-sölu sinni, og af hendi sumra landsmanna, sem ekki vilja sjá eða sannfærast um nytsemi þeirra. Þó vjer göngum að þessu vísu, þá erum vjer samt þess fullöruggir, að hið góða verði að lokunum sigursælt á Íslandi eins og annarstaðar. Nokkrir kaupmenn, sem vjer höfum átt tal við um þetta efni, hafa og sjálfir játað, að bindindisfjelög á Íslandi mundu þegar fram í sækti verða verzlun sinni til góðs, því þá mundi reglusemi, iðjusemi, vandvirkni og fjárhagur landsmanna færast í betra horf. Það er farið svo mörgum og fögrum orðum um nytsemi bindindisfjelaga í brjefi Vesturheimsmanna hjer að framan, að oss virðist þar um vera fullrætt að sinni. Það er við því að búast, og hjá því verður varla komizt, að þar sem fjelög eru fágæt og hver er vanur að vinna sjer, þar líti menn í fyrstunni hornauga til alls fjelagskapar, af því menn sjá ekki, hvað miklu það skiptir, að menn sýni samtök og samheldi í að efla hið góða, og af því menn hafa þá röngu ímyndun, að þeir þröngvi frelsi sínu í samvinnu við aðra. En þar sem fjelagsandi er vaknaður, og menn hafa fengið nokkurn áhuga á því, að láta eitthvað gott af sjer leiða, þá komast menn fljótt í skilning um það, að margar hendur vinni

ljett verk, og að fjelagskapur leiðir ekki til ófrelsis, nema menn vilji kalla það ófrelsi, að láta á móti girndum sínum og tilhneigingum, og skuldbinda sig til þess, sem er gott og sómasamlegt, sjálfum sjer til heilla og öðrum til góðrar fyrirmyndar. Þannig er bindindisfjelögunum varið; þau leiða ekki að eins drykkjumenn á rjetta götu, heldur gjöra þau og það, sem engu minna er í varið; þau vernda hinn unga og óreynda frá því að verða drykkjumaður, og hlífa honum við öllum þeim óförum, sem af ofdrykkjunni leiða. Þegar vjer lítum á alla þá óblessun og óhamingju, sem drykkjuskapur hefur í andlegan og líkamlegan máta fyrir hvert einstakt heimili og heilar sveitir, þá rennur oss þetta svo mjög til rifja, að vjer þurfum alla stillingu við að hafa, að rekja ekki bölfun þessa út í yztu æsar. En bæði er eitur þetta svo næmt, og læsir sig svo út í allar taugar mannlegs lífs, að því verður ekki nógsamlega lýst, hversu djúpt sem tekið er í árinni, og líka viljum vjer forðast allt það, er snerta kynni þannig kaun annara, að þeir fyrir þá sök af mannlegum breiskleika fengju óbeit og ýmugust á bindindinni sjálfri.

Þó getum vjer ekki svo skilizt við þetta mál, að vjer skorum ekki af alhuga á landa vora, gamla og unga, karla og konur, að reisa allar þær skorður við drykkjuskap, sem þeim er auðið, og stofna í því skyni bindindisfjelög, og verja öllu afli til að leiða þangað sem flesta, og vonum vjer, að allir þeir, sem nokkra ást hafa á sjálfum sjer og ættingjum sínum og vinum, eða láta sig nokkru varða heill og hamingju ættjarðar vorrar, muni ekki leiða þetta hjá sjer með þóttafullu afskiptaleysi, heldur veita því slíkt lið, sem þeir geta, því það er gott verk, sem enginn mun iðrast, og vjer biðjum alla að gæta þess, að það er ekki einungis syndsamlegt, að sá illgresinu sjálfur, heldur er það líka mikill ábyrgðarhluti, ef menn vanrækja að sá hinu góða sæði, þegar færi gefst. Verum nú

samhuga og vel samtaka, og munum jafnan eptir hinu fornkveðna, að

Ill er ofdrykkja,
ferr' hon ei ein saman
fylgir henni mart til meins:
angr ok þrætur
ok óstillt lostasemi,
sótt ok synda fjöld.

En ef oss auðnast, að reka þenna óvin af höndum oss, þá mun þar með guðs aðstoð fleira gott eptir fara.

Hið íslenzka bindindisfjelag í Kaupmannahöfn.

---

# BÓKAFREGN.



Í síðasta Fjölni gátum vjer íslenzkra rita, sem birzt höfðu á prenti frá því Fjölnir hafði komið út næst á undan, og ljetum þar fylgja fáein orð um sum þeirra. Nú er hætt við, að þessi fáeinu orð hafi ekki fallið öllum í geð, og — ef til vill, alls engum. Vjer viljum ekki reyna til að breiða yfir það, hvorki fyrir sjálfum oss nje öðrum, og þykir oss bezt, að segja svo hverja sögu sem hún gengur. En úr því nú svo er á statt, má það virðast áhorfsmál, hvort rjettara sje, að hætta við svo búið, eða reyna til eptir megni, að halda hinu sama áfram, meðan kostur er. Það væri bæði fyrirhafnarminna og kæmi sjer betur, að hætta við svo búið, og vera kann, að margir þeir, sem vilja oss vel, eða riti voru, kysu heldur þann kost oss til handa.

Mönnum sýnist, ef vjer gizkum rjett á, að hjer sje um svo lítið að tefla: Fjölnir finni helzt að orðfæri bóka og þessháttar smámunum, og það sje "að jagast um geitar ull". Í þessu er nú fólgin mikil missýning, að vorri hyggju, og þó enn fremur að vorri tilfinningu; því tilfinningin er jafnan fljótari til, að verða vör við það, sem rjett er, og vera á, enn hyggjan eða vitið. Þessvegna skortir oss bæði vit og orðfæri, til að koma öðrum í skilning um, að nú standi svo á um þjóðhagi vora, að nú sje öll nauðsyn, fremur enn nokkurn tíma fyr, að vanda allar gjörðir sínar, stórar og smáar. Þjóð vor hefur svo lengi legið í þungu og mæðilegu dái, að ekki er auðvelt að skynja, hvort oss hefur heldur þokað áfram eða aptur á bak allan þann tíma. Snemma á þessari öld fór að bóla á ofurlitlu lífi; og þó sárlítið sje, enn sem komið er, þá fer það heldur í vöxt, og mun fara betur, með guðs hjálp, eptir því sem á horfist. Þó að alþingi voru sje ekki alls kostar eins

fyrir komið, og vjer mundum kjósa, þá er opt mjór mikils vísir; og von sú, er það hefur glætt í brjóstum allmargra, tekur þegar að leiða í ljós dálítinn ávöxt, sem vonandi er, að heldur fari vaxandi enn þverrandi, og sú von mun ekki "til skammar verða", ef það er annað enn eintómur hugarburður þeirra, sem vilja Íslandi vel, að nú sje úr garði genginn sá hinn langi og þungbæri vetur, sem legið hefur á þjóð vorri upp í margar aldir; því þegar vora tekur, og af ljettir veturlegum nauðum, á það allt lífið í vændum, sem áður hefur legið í dái, og um það sumar, sem hjer er um talað, stendur svo heppilega á, að það er að mestu leyti komið undir sjálfum oss, hvort það verður gott eða illt, langt eða skammt. Ef vjer leggjum árar í bát, og leitum ekki þeirra framfara, sem oss er boðið, eins og hverri annari þjóð, þá verður ekkert af sumrinu, og þá er langt síðan að vjer höfum lifað hið fegursta. Það er í raun og veru engin lygisaga, að fuglinn fenix fljúgi upp úr ösku sinni, og verði ungur í annað sinn — það er engin lygisaga, þegar hún er ekki skilin um fuglinn fenix, og ekki um einstakar skepnur, heldur um heilar þjóðir; því þá á dæmisagan vel við. Þegar þjóðirnar hafa elzt fyrir örlög fram, geta þær yngzt upp að nýju, optar enn einu sinni, með því að brenna það allt af sjer, bæði smátt og stórt, sem ónýtt er í fari þeirra. Hitt er ekki nóg, að lagfæra sumt, enn láta mart vera í ólagi, og beint á móti því sem vera ætti. Þegar talað er um framfarir heilla þjóða, þá er allt stórt, en ekkert smátt; því andi þjóðanna er í alla staði mikill í eðli sínu, en hvergi lítill, og í andanum eru allar framfarir í raun og veru. Andi þjóðanna er hugur þeirra, og kemur fram í öllu því, sem þær hafast að, og ekki síður í orðum enn verkum. Það stendur ekki á sama hvað gjört er, og hvernig það er gjört, en hitt stendur ekki heldur á sama: hvað menn tala, eða hvernig menn tala. Málið, sem menn hafa fram yfir skynlausar skepnur, er svo góð og full-

komin gjöf, að sá er enginn menntaður í raun og veru, sem ekki metur það mikils og vill fara vel með það; og þegar einhver þjóð gjörir lítið úr því, þá má eiga það víst, að allur hennar hagur er fjarlægur því, sem hann ætti að vera, eins og líka reynslan sýnir, hvar sem að er gáð; því ein framförin verður jafnan annari samfara. Málið er þar að auk höfuð-einkenni hverrar þjóðar, og það er ekki einskis vert, hvort því fer fram eða aptur, hvort það er ljótt eða fagurt, og fegurð málsins er ekki komin undir því einu saman, hvernig það er gjört af guði og mönnum fyrir öndverðu; því ekkert vatn er svo tært, að eigi spillist, þegar það rennur í saurugum farveg — en farvegur málsins er hugur þjóðarinnar, sem talar það og ritar. Á hverju er þá von af máli voru? Þjóðerni vort, sem einkanlega er fólgið í málinu, hefur verið troðið undir fótum, og hörmulega saurgað og svívirt, margar aldir í sífellu. Hversu lengi á slíku fram að fara? Hversu lengi eigum vjer að níðast á sjálfum oss og öllu því, sem oss ætti að vera dýrmætast hjer í heimi? Og hvort er fallegra og inndælla, karlmannlegra og betra til afspurnar, að láta alla hluti liggja í þessari deyfð og þessum andlega svefni, og geta aldrei verið ánægður við sjalfan sig, ellegar að rísa upp, hver með öðrum, og leggja á það allan hug og allan mátt, að bæta sífeldlega þjóðarhag vorn, og vita svo hvað vjer komumst? En engin endurbót er líkamleg í raun og veru, þó það kunni að sýnast svo, heldur andleg. Auður og fullsæla fjár, hreysti og heilsa, fjör og frjálsleikur líkamans, skyn og skýrleiki, dáð og dyggð, traust og trú hugarins, og í stuttu máli: hverskonar frægð og fremd, yndi og unað — allt er þetta komið undir andanum. Andi hvers einstaks, hversu vel sem hann er af guði gjör, verður að engum þrifnaði, nema hann njóti annara að, og taki birtu af hugum annara. En hver er þá þessi geisli, sem hugur sendir hug? Hvert er þetta ljós, degi bjartara og sólu varmara, sem skín yfir lönd og lýði, og sýnir

mönnunum, að þeir eru menn, en ekki skynlaus kvikindi? Hvað er það annað enn málið, óskabarn mannlegs anda? Og sje nokkur sá, að minnsta kosti í menntaðra manna tölu, að einu gildi, hvernig málið er og hvernig með það er farið — er honum þá ekki nærri því ofnefni, að heita maður?

Þessar og þessa kyns hugleiðingar hafa hvatt oss til, að halda því áfram, sem í fyrra var byrjað, og nefnum vjer nú þau fáu rit, sem oss er kunnugt, að prentuð hafi verið árið sem leið (1843) og beinlínis ætluð Íslendingum. Um sum af þeim segjum vjer nokkur orð; og kvíðum vjer ekki því, að höfundar þeirra og hlutaðeigendur meti það til fjandskapar við sig eða óvildar, sízt ef þeir sjá, að vjer leitum hins rjetta, hvort sem oss tekst að finna það alstaðar eða ekki. Við hinu er jafn-óhætt, að þeim, sem vilja vanda orðfæri sitt á annað borð, þyki of smásmuglega í farið, því heldur sem vjer tínum ekki allt til, er öðruvísi kynni betur að fara.

I.

Það, sem prentað er í Kaupmannahöfn:

I. Fjórir þættir um alþíng og önnur málefni Íslendínga, gefnir út af Magnúsi Eiríkssyni og (hjer er eins og vanti nokkrum) öðrum Íslendíngum. Í 8. VIII og 86 (eða reyndar 87) blss. (Verð: 28 skk.)

Rask hefur sett þá reglu í Stafrofskveri handa heldri manna börnum, að rita dt í hinu beina falli eint. af hvorugkyni hluttekningarorða liðins tíma (*nom. et acc. sing. num. neutr. gen. participiorum praeteriti)*, t. a. m. rædt af ræða, leidt af leiða, og s. frv. Þessari reglu er nú fylgt í Fjórum Þáttum, og í flestu því, sem prentað er á íslenzku um þessar mundir hjer í Kaupmannahöfn. En regla þessi er ekki einungis gagnstæð íslenzkum framburði á vorum dögum, heldur og framburði og ritshætti fornmanna, og hefur ekki heldur upprunann við að

styðjast. Eptir upprunanum ætti að rita ræðt, leiðt, en eptir framburðinum rætt, leitt. Að rita annarstaðar dt fyrir ðt eða tt eða tómt t, t. a. m. í gagnstædt (13[9]), einmidt (14[10]), erfldt (23[25]), hardt (1[19]), verdt (5[12]), er á eins völtum fæti, og hefur þar á ofan öngva reglu að bera fyrir sig. Það er hjer að auk sjálfu sjer ósamkvæmt, að rita hardt (eða harðt) og verdt (eða verðt), nærfeldt (11[12]), o. s. frv., en rita þó hvorki (t. a. m. 11[15]), þar eð orð þetta er sett saman af hvort og gi (sem verður að ki).

Líka er það sjálfu sjer ósamkvæmt, að tvöfalda samhljóðendur fyrir framan samhljóðanda á mörgum stöðum, en þó ekki alstaðar, þar sem uppruni krefur. Á 1[24] er ritað þekktu og á 4[12] byggt; en bygður 2[10] og 6[21], fimtardómur (af fimm) á 81[31]. Þess má hjer geta, að sögninni *(verbo)* byggja mun vera öðruvísi varið í þessu efni, enn sögninni leggja: byggja hefur gg alstaðar í stofni sínum, en leggja ekki nema í núlegum tíma, eptir því sem ráða er af hlutteknìngarmyndunum lagiðr (í eldra málinu) og laginn, af sögninni liggja (sem ekki hefur gg nema í núlegum tíma), af lega, lag, o. s. frv.

Þriðja ósamkvæmni er, að rita eng (t. a. m. engi, lengja), en þó hins vegar áng, íng, úng, ýng, aung, (fyrir ang, ing, ung, yng, öng); því annaðhvort heimtar ng granna raddarstafi fyrir alla hina fláu — nema æ[1], eða fyrir alls öngvan. Á 47[13] er skrifað mínka, eins og talað er; eptir upprunanum ætti að rita það með i, af minn (í minnur = miður), eins og vinga af vin.

Það er í fjórða lagi rangt, að rita hverr, annarr, nokkurr, vera *færr* um eitthvað og vera vel að sèr *gjörr*, nema ef líka væri ritað hamarr, dyrr *(fores)*, berr af sögninni bera (sb. 8[14]), ferr af fara, og jafnvel íss (f. ís-r), lauss (f. laus-r), mýss og lýss

[1]) Þó munu fornmenn á fyrstu öldum tungu sinnar hafa sagt æing, en ekki æng.

(f. mýs-r og lýs-r)[1], ríss (f. rís-r) af risa, skínn (f. skín-r) af skína, brýnn (f. brýn-r) í fleirt. af brún (sb. bera sumum á brýn 49[20]), og þar á ofan tómt r — en ekki ur — í niðurlagi orða á öllum sömu stöðum og fornmenn eru vanir að rita svo. En miklu viðkunnanlegra finnst oss, að láta eðli málsins ráða sjer sjálft í þessu efni, og rita alstaðar einfalt r. Fornmenn tvöfölduðu r aptast í orði víðar enn vera þurfti, og rituðu jafnvel hárr, af meginsamstöfunni há, eins og hárr,

---

[1]) Líka mundi eiga að rita gæss (f. gæs-r, nú á dögum gæsir), ef farið er á annað borð að færa allt til hinnar eldri myndar. dyrr, brún, mús, gás breytast á þessa leið í eldra málinu:

| | | eint. | | |
|---|---|---|---|---|
| gjör., þol., þiggj. | [dur] | brún | mús | gás |
| eig. | [dur-ar] | brún-ar | mús-ar | gás-ar |
| | | fleirt. | | |
| gjör., þol. | dyr-r | brýn-n | mýs-s | gæs-s* |
| þiggj. | dur-um | brún-um | mús-um | gás-um |
| eig. | dur-a | brún-a | mús-a | gás-a. |

Meginsamstöfur þesskonar orða taka hljóðvarp (*Umlaut*), þegar endingin er tómt r, hvórt sem það er óbreytt eða snýst í n eða s. dyrr er optast nær kvennkennt í eldra málinu, eins og á vorum dögum, og ekki haft í eint.; en fyrir það sama hefur líka deyfzt yfir hina rjettu hneigingu þess, svo að dyrum og dyra finnst ekki sjaldnar í sjálfum fornbókunum, enn durum og dura**; á líkan hátt mun kynleysi þess vera undir komið. Ur brýnn er nú orðið brýn í þessum talshætti: að bera manni eitthvað á brýn, en brýr í eiginlegri merkingu, og kemur það líklega til af því, að orð þetta er optast nefnt með greininn aptan við sig, en brýnnar og brýrnar verða ekki greind í framburðinum.

---

*) gullu við mærir foglar,
gæss í túni, es mær átti.

**) Þó má vera það valdi miklu um, að frumhljóð og hljóðvarp skiptast víða á í eldra málinu; það er og þessa kyns, að menn segja lykill, lykil, lykils, lykli, lyklar, lykla, lyklum, en ekki lykill, lykil, lykils, lukli, luklar, lukla, luklum, sem líka finnst og væri rjettara, eins og ketill, ketil, ketils, katli, katlar, katla, kötlum (= katlum).

(þ. e. gráhærður) af hár, færr af fá, o. s. frv.; en á vorum dögum munum vjer ekki betur, enn það sje haft einfalt í niðurlagi allra orða, nema í nafninu á bókstafnum r (af því menn segja líka eff, ell, emm, enn, ess). Svo stöðugri reglu ætti ekki að hagga, nema ef brýn nauðsyn bæri til, vegna einhvers annars, er breyta þyrfti. Öllu heldur mundi vera samkvæmt eðli málsins, að rita fyr — en ekki fyrr *(prius)*, ver, — en ekki verr (af illa), gjör — en ekki gjörr (t. a. m. vita eitthvað gjör enn annar). — Vera kann að einhverjum skiljist ekki þegar, hvers vegna rita ætti einfalt r fyrir ur (t. a. m. maðr, vaskr, gengr, austr), þó r væri tvöfaldað (t. a. m. í annarr, færr); en þetta virðist þó vera í föstu sambandi hvort við annað; því þær tvennar breytingar, að setja ur f. r, og einfalt r f. tvöfalt (sömuleiðis s f. ss, þar sem það var = s-r, og n f. nn, þar sem það var = n-r), hafa orðið samfara í máli voru.

Raddarstafirnir i og y, í og ý eru að mestu leyti nákvæmlega greindir í sundur; þó er ekki gjörð grein á skíra og skýra, með þeim orðum, sem þar af eru leidd; líka er ritað hlýt og hlýta f. hlít og hlíta (eins og í til hlítar, hlíta einhverju), og gyldur f. gildur. Að vísu segja og rita Danir *gyldig*, samkvæmt þjóðverska orðinu *gültig*, sem þó er líka ritað *giltig;* en bæði er, að þessi orð eru mynduð öðruvísi, enn gildur, enda gefur að skilja, að danskan megi sjer ekki mikið í slíku efni á móti norrænu, þegar svo lítur út, sem þeim beri ekki saman [1]. — brigði f. brygði (35[u]) er líklega ekki annað enn skrifvilla.

---

[1]) Annars kostar ætti að rita: bí og bífluga. En í fornöld hafa menn ritað og nefnt ý í þessum orðum, t. a. m.

Jöfurr sveigði ý, .
flugu unda bý.

Fornmenn hafa sagt og ritað drykkr, en Danir skrifa *Drik*, o. s. frv.

Að rita bl f. fl, eins og gjört er í þessari bók (í abl, öblugur, trubla), getur oss með engu móti fundizt rjettara, enn að rita bn f. fn, t. a. m. nabn, höbn, stebna, sobna.

Miðstig einkunna *(comparativi adjectivorum)* eru ýmist hneigð eptir því sem nú er títt, eða eptir fornri venju. Á 10[15] stendur: og mætti fleiru hèr við bæta (forðum fleira), og á öðrum stað: þótt ekki hefði þeir neinn annann tilgang æðri eður háleitari (forðum æðra, háleitara); en á þriðja staðnum: af hinum stærrum kjörþíngum. Hlutteknirgarorð núlegs tíma eru færð til hinnar eldri myndar, þó stendur: yrði álit "enna úngu" framar málsmetandi á 38[20], o. s. frv.

Orðinu hjerað er breytt í herað — líkast til af því menn hyggja það dregið af orðinu her (forðum herr). En fyrst er ekki full-víst að svo sje, því meginhlutinn í herr er ekki her, heldur heri (sem verður herj), og þar af ætti að koma herjað (eins og herja), og ritshátturinn hjerað, sem finnst jafnvel í elztu og beztu bókum, virðist einnig benda til annars uppruna. Og þó hjerað væri aldrei nema dregið af her, mundi það allt að einu vera áhorfsmál, að ummynda það fyrir þá sök; þesskonar breyting getur haft í togi mikinn fjölda annara breytinga, sem ekki verður sjeð fyrir endann á í skjótu bragði.

Þriðja pers. fleirt. í afleiðingarh. þálegs tíma (3. *pers. plur. conjunct. imperf.*) er látin hafa i að niðurlagi víðast hvar, en þó ekki alstaðar. Þess ber og að gæta, að ef þessi persóna endar á i, þá verður fyrsta pers. fleirt. beggja tíðanna *(praes. et imperf.)* í afleiðingarh. að enda á im, t. a. m. leitim, leitaðim, beiðim, beiddim; semjim, semdim; unnim, ynnim; lútim, lytim; lítim, litim; finnim, fyndim; farim, færim; látim, ljetim; berim, bærim; sjem (f. sjeim), værim; en ekki hefðum, mættum, sèum, o. s. frv.

Greinirinn er skrifaður enn, en, eð, o. s. frv. Þetta orð er ekki tíðkað í tali á vorum dögum, og er tekið í hinar nýrri bækur úr eldra málinu. Þar hefir greinirinn þrjár myndir: hinn, inn og enn, og getur verið efi á, hvor upphaflegri sje af tveimur hinum fyrri myndum, en á hinu alls enginn, að enn er yngst; þessvegna ætti ekki að taka þá mynd fram yfir hinar; en ef það er gjört, væri nærri því eins rjett, að rita: meg, þeg, seg, þar eð mek, þek, sek, finnst ekki allsjaldan í fornum skinnbókum (í neðstu línu á 45. bls. er ritað hinir, og sá ritsháttur finnst oss að minnsta kosti viðkunnanlegastur). — Á hinn bóginn er ritað -ligur og -liga (t. a. m. líkligur, líkliga), og það er sjálfsagt, að sá ritsháttur er upphaflegri í eðli sínu, enn -legur og -lega; en þó er e hjer svo fornt, að það er algengt í elztu skinnbókum, sem til eru, og nú á dögum er oss ekki annað kunnugt, enn það sje framburður á öllu Íslandi, að segja -legur og -lega. Oss virðist hvorttveggja jafn-óþarft: að taka upp e fyrir i, þar sem i liggur ekki óbeinna við, og að setja i fyrir e, þar sem e er orðið fast í málinu.

Eins mikill óþarfi mun það og vera, að breyta einkunna-endingunni *(terminatio adjectivorum derivativa)* -ugur í -igur (t. a. m. kunnugur í kunnigur), beint á móti því, sem tíðkast um land allt. Það er þar á ofan auðsjeð, hversu mikið vald þetta u hefur haft þegar í fornöld, er það hefur getað gjört ö úr a, í örðugr, öflugr, kröptugr, og þesskáttar orðum.

Tvö önnur stafsetningar-atriði líkjast æði mikið því, sem nú var á minnzt. Kvennkynsord þau, sem dregin eru af sögnum, með því að bæta an[1] við meginsamstöfu sagnanna, hneigjast nú á þessa leið, að minnsta kosti víðast á Íslandi:

---

[1]) Hjer er talað um meginhlut orðanna, sem hneigingarendingunum er við bætt.

| | í eintölunni | |
|---|---|---|
| gjör., þol., þiggj. | vitrun | kvörtun |
| eig. | vitrunar | kvörtunar |
| | í fleirtölunni | |
| gjör., þol. | vitranir | kvartanir |
| eig. | vitrana | kvartana |
| þiggj. | vitrunum | kvörtunum. |

Þó þessi hneigingarháttur kæmi ekki saman við elztu og beztu skinnbækur (eins og hann gjörir), mundi samt vera mikið ahorfsmál, að hagga stöðugri reglu og lýtalausri. — Hið annað snertir þau karlkynsorð, sem dregin eru af sögnum, með því að setja að [1] -- sem breytt er í uð á sumum stöðum — aptan við meginsamstöfuna (t. a. m. í fögnuður, söfnuður). Nú þó vera kunni, að þau fylgi ekki eins brýnni reglu og kvennkynsorðin með an (þar eð menn segja t. a. m. hagnaður, en ekki högnuður), getum vjer samt ekki fallizt á, að nokkur höpt sjeu á þau lögð, til að koma þeim undir eina hneiging; því það getur orðið hlægilegt á sumum stöðum, þar sem engin kátína á við, að segja t. a. m. safnaður f. söfnuður. Fornmenn eru ekki heldur samþykkari við sjálfa sig í þessu efni, og rita stundum getnuðr, þrifnuðr, og jafnvel fènuðr (í María sögu guðsmóður), í elztu og beztu bókum.

Á 40[10] stendur hvorutveggja í gjör. fleirtölunnar í karlk. *(nom. plur. masc. gen.)*, sem heldur mundi eiga að vera hvorirtveggja, einkum í þeirri bók, þar sem reynt er að færa svo mart til hinnar eldri myndar. Breyting þessa orðs virðist hafa verið þannig fyrir öndverðu:

---

[1]) Hjer er talað um meginhlut orðanna, sem hneigingarendingunum er við bætt.

| | í eint. | | |
|---|---|---|---|
| | karlk. | kvennk. | hvorugk. |
| gjör. | hvárr-tveggja[1] | hvár-tveggja | hvárt-tveggja |
| þol. | hvárn-tveg. | hvára-tveg. | hvárt-tveg. |
| þiggj. | hvárum-tveg. | hvárri-tveg. | hváru-tveg. |
| eig. | hvárs-tveg. | hvárrar-tveg. | hvárs-tveg. |
| | í fleirt. | | |
| gjör. | hvárir-tveggja | hvárar-tveggja | hvár-tveggja |
| þol. | hvára-tveggja | hvárar-tveggja | hvár-tveggja |
| þiggj. | hvárum-tveggja | | |
| eig. | hvárra-tveggja. | | |

Því næst hefur sú breyting komizt á, sem Rask getur um (í *Kortfattet Vejledning)*; en oss er ekki kunnugt, hvort nokkurn tíma hefur orðið algengt að segja hvoru-tveggja í öllum kynjum og fallmyndum *(Casusformer)*.

Víðast hvar í bókinni er ritað ymsu, en ýmsu 46[18], og sýnir ýmist að það er rjettara.

hlut*ar* f. hlut*ir* er fáheyrt og óviðkunnanlegt, þó hluti (=partur) sje haft í eintölunni. Líka er það óþörf endurbót, að setja i aptan við hrepp í þiggj. eint. Það yrði óviðkunnanlegt og viðhafnarlegt fram úr hófi, ef svo væri farið með öll önnur karlkynsorð, sem ekki hafa i í þiggj.

Það er sjálfu sjer ósamkvæmt, að rita alþíng*is*mál, úr því ritað er alþíng, þar eð eigandinn alþíng*is* á ekki við gjör. alþíng, heldur við alþíng*i*. Þessi hin síðari mynd kemur betur saman við almæli, alvæpni, og þessháttar orð, og oss er ekki grunlaust um, að danskan valdi því, er menn segja nú alþíng (eins og *Alting)*; en ef svo er, á það alls engan rjett á sjer. fylsni (f. fylgsni af fólginn) er ekki rjett, þegar ekki er ritað eptir framburðinum. alstaðar virðist vera rjettara enn allstaðar, bæði eptir merkingu og framburði. En kan-

[1]) Líka finnst tveggja hvárr, o. s. frv.

sellí — og eins millíón — ætti heldur að rita með einu elli, af því menn segja ekki: kanseddlí, middlíón.

Fyrst z er við höfð á annað borð, ætti hún líka að standa í ansa (83[29]) og brígsl (f. brigzl) af bregða (sb. orðatiltækin: að bregða manni um eitthvað, að brígzla manni um eitthvað og að bregða manni brígzlum). Brígzl hefur á vorum dögum, og líka í fornöld (Nú skaltu fyrst þiggja þat af guði, at hann tæki[1] þetta brigzli af þèr ok gæfi þèr gott eldi í skinnbókinni 656 A I á 4[12], og í 14. línu.: En fyrir þótti[2] brigzli ok svívirðing barnleysi í Mófses lögum, at þat var vitað, at eigi mundi guðs son frá þeim manni koma, er barnlauss væri), i aptan við sig, eins og mörg önnur kynlaus orð; og er það viðkunnanlegra, einkum í eig. eint., því brígzlis er stórum liðugra enn brígzls.

Mörg þessi afbrigði, frá því sem venjulegast er og viðkunnanlegast og, að vorri hyggju, rjettast í raun og veru, koma til af of mikilli viðleitni, að færa málið aptur í það lag, sem það hefur verið í fyrir mörgum öldum. Þessi viðleitni kemur einkum í ljós á fyrsta þættinum, svo að þar er jafnvel sagt: þykjumst eg f. þykist eg. En ef svo er byrjað, hvar á þá að nema staðar? Mun verða langt að bíða, áður þetta þykjumst eg breytist í þykkjumk ek? og þar fram eptir götunum.

Víða í bókinni finnst oss orðfærið þungt og myrkt, og sumstaðar hálf-bjagað, t. a. m. mótmælindi (3[30]) f. mótmæli, fárænilìgur (20[8]), áhrifur (alstaðar) f. áhrif[3], grunngánga (55[8]), landsetabóndi (58[14]);

---

[1]) Bókin er varla rituð fyr enn á 14. öld, enda greinir hún ekki œ frá æ,

[2]) Mun eiga að vera fyrir því þótti (þ veldur því, að miskrifazt hefur).

[3]) ádráttarlaust (31[33]) f. afdráttarlaust er sjálfsagt prentvilla.,

þó getur verið, að sum af þessum orðum sjeu tíðkuð í sumum hjeruðum. Fyrir nákunnugur (58[28]) höfum vjer vanizt að segja gagnkunnugur, og hjartkær f. hjartakær (49[31]). torfæra (60[28]) lítur út eins og eig. fleirt. af torfæri, sem oss er með öllu ókunnugt; en ef það á að vera eig. fleirt. af torfæra, er það rangmyndað, og á að vera torfærna. rakaleiðsla (50[18]) er ljótt orð og óviðkunnanlegt; röksemdaleiðsla, sem haft er á öðrum stöðum í bókinni, lætur skár í eyrum. Að leggja eitthvað undir höfuð (55[12]) er tekið úr eldra málinu, en þar er miklu optar sagt: leggjast eitthvað undir höfuð, þ. e. leggja eitthvað undir höfuð sjer. Vjer könnumst ekki við að handa hófi (t. a. m. 32[17]), þó það kunni að finnast einhverstaðar, fyrir af handa hófi, sem virðist vera fullt eins rjett. með virðíngu þeirri, sem það á skilda (49[34]) er sjálfsagt ekki annað enn óþörf lagfæring; en ef menn kunna ekki við að eiga virðingu skilið, þá er hægt að koma sjer hjá því með öðru móti. Konúngskansellí fyrir hið konunglega kanselí og lúta í lægra hald (13[14]) f. lúta í lægra haldi mun vera eins undir komið. engin af jörðum hans, þeirra er áður er getið (11[17]) ætti að vera e. a. j. h. *þeim* er áður er getið, eða *þeim* er áður er um getið, og á hitt hefur kammerráðið alls ekki minnzt færi öllu betur enn hitt hefur kammerráðið alls ekki minnzt á (46[14]). Að hlíta (5[19]) = vera einhlítur, að ótta (59[13]) = ógna eða hræða, lausúng (20[9]) = sundrung, háttalag = ásigkomulag, eru óviðkunnanlegar merkingar, ef ekki með öllu rangar. asnast út í gönur (74[20—21]) er ókurteislega að orði komizt.

Það er sjálfsagt, menn hafa gjört sjer far um, að forðast allar dönskuslettur, en ekki hefur það alstaðar tekizt; heldur finnst dugligur f. framtakssamur e. framkvæmdarsamur; ótilbæriligur, sem varla er

eins gott og ótilhlýðilegur; verkanir f. afleiðingar; sinnugur og sinnugleikur; voga (f. þora e. dirfast e. áræða) og vogunarleikur (f. áhætta); ýtarlega (sem er allt annað enn ítarlega) og ýtrasti (2[24]); æfa (26[9]; á þjóðversku *üben*, á dönsku *öve*); á ný f. að nýju (forðum: af nýju, á nýja leik); gefa til kynna f. láta í ljósi; óviðkomandi; máske[1]; föðurland f. ættjörð, fósturjörð; stiptan; meining; líða (75[21]) f. þola eða verða fyrir; augnamið; betla (78[21]); eðallyndur. málafærslumaður[2] getur ekki heldur verið íslenzkt, nema ef að færa mál væri íslenzka, eins og að flytja mál. Víða eru orðatiltækin dönsk, eða merking orðanna, þó orðin sjeu sjálf íslenzk: að hafa von um eitthvað; að menn, er með öllu (1[20]) og er samið var af mönnum, er vel þekktu til (1[22]), f. þeir menn og þeim mönnum; allt það, er eg þannig átta eigi von á (2[14], sb. 14[15]); þá er þeir voru *með* í nefnd þeirri (4[6]); að einir og aðrir hlutir (5[28—29]); í allt (6[18]) fyrir alls e. samtals; að þeir óskaði eigi að hafa þann mann fyrir fulltrúa (18[18]); fyrst og fremst; að ekki nokkur einn leiguliði *þar* (þar með áherzlu, f. þar í eyjunum) gjaldi svo mikið (33[13]); á prent útgengin (35[11]); *fylgja* í fótspor annarra (36 neðst) f. *feta* í fótspor annara; "Íslendinger" þessi byrjar *með* því (52[10]), f. *á* því; skoðað *frá öllum hliðum* (53[22—23]), f. *á allar hliðar;* að svarið gángi honum á móti (55[28]), þ. e. verði honum mótdrægt;

---

¹) ske — eins og æfa — er komið úr þjóðversku í dönsku og úr dönsku í íslenzku (*üben* — *øve* — *æfa*, *ge-schehen* — *skje* — *ske);* ske ber það líka með sjer, þegar gáð er að breytingu þess.

²) Þetta ber optar við, að Íslendingar draga orð af dönskum talsháttum — eins og tilgjörð e. tilgerð af *at gjöre sig til af noget* — og eru þau ekki íslenzk, nema að nafninu til.

það er svo lángt frá (72 aths. 1), f. því fer svo fjærri; dugnaður[1] (5[11], á dönsku *Dueligked*) f. framkvæmd eða framtakssemi; að hve miklu leiti kosníngarmenn ..... mundu ..... *missa* eða *vinna* við *frumvarpið* (12[3—5]), þ. e. hafa hag eða óhag af frumvarpinu; *þá* er eg nú (14[15]); þeir hafa *eigi einusinni* (á dönsku: *ikke engang*) reynt (17[26]) f. það er ekki svo mikið um, að.....; bygging (31[29]) f. hús; já (32[3]) f. meira að segja; ríta niður (42[6]); *á* háskólanum (50[4]) og *á* Möðrufellsspítala (75[18])[2]; að tryggja völin (57[2]) o. s. frv. Á sumum stöðum er orðaskipunin dönskuleg: allt það, er vèr *ekki áttum* von á (31[24]) f. áttum ekki von á; það horf, er á var fyrir alda öldum, *og er* vera má, að þá hafi átt við (7[23]) og þeir ....., er þekkja á kaupverzlun, *og er* ætti fyrir þá sök að kjósa í alþíng (28[5—6]) fyrir tómt og (eða tómt er, eptir því sem fyrrum hefur tíðkazt). Líka lætur það dönskulega í eyrum, að á 13[28] er hafði í framsöguhætti sett fyrir hefði í afleiðingarhætti (þareð leiguliði hafði f. ef leiguliði hefði).

2. Skírnir, ný tíðindi hins íslenzka bókmentafèlags. Seytjándi árgángur, er nær til sumarmála 1843. Í 8. 66 og XXXVIII og 14 blss. (og tvö blöð ótalin, annað fremst, en annað aptast).

Frjettirnar (32 blöð) eru, sem nærri má geta, merkasti parturinn. Það var prýðilega stofnað af Rask heitnum, eins og von var á af honum, þegar hann gjörði þá ráðstöfun, að rita skyldi yfirlit helztu viðburða á hverju ári, og setja í Skírni, og ættu þeir, sem Skírnir er

---

[1]) dugnaður merkir á íslenzku: hjálp, aðstoð, liðsinni.

[2]) Þeim Íslendingum, sem eru eða hafa verið í Kaupmannahöfn, hættir víða til, að nefna fyrirsetn. *á* fyrir *í*.

ætlaður, ekki að láta sitt eptir liggja, og lesa frjettirnar og setja á sig það, sem þær segja, sem ekki getur verið langrar stundar verk, sízt ef menn gera sjer að reglu, að láta ekkert ár hjá líða; því sá, sem hefur lesið viðburði eins árs með eptirtekt, og fest þá í minni sjer, hlýtur að vera eitthvað geggjaður, eða frábrugðinn því, sem manni er eðlilegt að vera, ef hann fýsir ekki að vita, hvað af þeim muni leiða, og þá veitir honum ljett að hafa athygli við, þegar hann fer að lesa frjettir næsta árs. Það er satt máltæki, eins og mörg önnur, að blindur sje bóklaus maður, og þó er það hvergi jafn-satt, og á Íslandi, þar sem svo lítið samblendi er á milli manna, bæði í landinu sjálfu og við aðrar þjóðir. Í öðrum löndum, þar sem allt öðruvísi er ástatt í þessu efni, þykir ekki frjettablöðum ofaukið, heldur þykja þau með öllu nauðsynleg; og hvað má þá segja um Ísland? Mundi sá maður ekki vera kallaður hjervilla, sem hefði öll skilningarvit, en vissi þó alls ekki af því, er fram færi í kringum hann? Og líkt er að segja um einstaka þjóð í samanburði við aðrar þjóðir. Að minnsta kosti eru höfuðviðburðirnir í sögu þjóðanna og mannkynsins svo mikilvægir, að hverjum manni, er á þess kosti, er skylt að kynna sjer þá; en þar að auki eru þeir svo nytsamlegir, að varla mun neinn af þeim vera svo lagaður, að ekki megi eitthvað, eða jafnvel mart, af honum nema til menntunar og framfara landi og lýðum. Því er miður, að svo er enn ástatt fyrir landi voru — hvað sem seinna verður — að vjer fáum ekki frjettir úr öðrum löndum, nema svo sjaldan, og verðum að blíta því, er Skírnir hefur að bjóða einu sinni á ári; en því meiri þörf er á, að hann sje vel af hendi leystur.

Ef vjer snúum málinu til þessa Skírnis, þá er það um hann að segja, að vjer höfum ekki betur vit á, enn ágætlega sje frá honum gengið, bæði að efni og orðfæri. Vera kann að sönnu, að sumum þyki hann heldur stuttur

og sumt hvað undan fellt, sem þó væri fróðlegt að vita. En á hitt ber að líta, að mest ríður á, að höfuðviðburðirnir sjeu sagðir greinilega, og engu því við aukið, sem dragi á þá nokkra þoku, eða villi sjónir fyrir lesandanum. Allt því um líkt, sem ekki er í föstu sambandi við sjálfa stjórnarsögu þjóðanna, væri sjálfsagt nógu vænt að hafa í þætti sjer, fyrir aptan höfuðfrjettirnar.

Um ritshátt og orðfæri má geta þess fyrst, sem á minnstu ríður, en þó ekki á engu, að bókin er æði auðug af prentvillum[1]; og má hjer sýna þess fáein dæmi, öðrum til viðvörunar; því það verður aldrei varið, að prentvillur óprýða hverja bók, og villa þar að auki fáfróða menn, með því að sýna þeim rangar myndir orðanna. Það, sem birtist á íslenzku árlega, er svo lítið, að ekki mætti minna vera, enn það væri nokkurn veginn rjett prentað, að því leyti sem höfundarnir hafa vit á. Höfundur frjettanna í Skírni getur flestum síður borið vankunnáttu fyrir sig; enda munu lýti þau, sem á frjettunum eru, að mestu leyti koma til af annríki höfundarins, meðan á samningunni stóð. aður ($5^{12}$) f. áður, vóru ($5^{13}$) f. voru (sem haft er annarstaðar í Skírni þessum), kúr meðal þíðu ($6^{25}$) f. kur með alþíðu, lítlu ($9^{16}$) f. litlu, ífirráð ($12^{15}$) f. ifirráð, Índland f. Indland ($13^{28}$), skula ($15^{9}$) f. skuli, sin ($16^{12}$) f. sín, líðsins ($17^{14}$) f. liðsins, fjè ($20^{3}$) f. fje, slítið ($23^{31}$) f. slitið, niá ($24^{2}$) f. nía, og komu því leíðar ($26^{25}$) f. og komu því til leíðar, ósígur ($35^{5}$) f. ósigur, líð ($40^{8}$ og $40^{23}$) f. lið, só ($42^{3}$) f. so, Persiá ($44^{7}$) f. Persía, er Zurbano, heítir og ($46^{3}$) f. er Zurbano heítir, og, Belgium ($52^{21}$) f. Belgjum, Porugalsmenn ($54^{8}$) f. Portúgalsmenn, nordvestan ($55^{12}$) f. norðvestan, þeírra ($58^{19}$) f. þeírri,

---

[1]) Önnur bók, íslenzk, sem prentuð er í fyrra hjer í Kmh., tekur þó Skírni fram í þessu efni; en það stendur einhvern veginn svo á því, að vjer leiðum hjá oss að nefna þá bók.

landir menn ($59^{13}$) f. lendir menn, vika ($64^{16}$) f. vika, borggjir ($64^{24}$) f. borgjir, fiutningsmaðurinn ($64^{30}$) f. flutningsmaðurinn, o. s. frv., eru tómar prentvillur. Það er auðsjeð, að höfundurinn hefur ætlað að hafa granna stafi fyrir framan ng; en þó eru þeir víða prentaðir með brodd fyrir ofan. j er sumstaðar vansett fyrir aptan g eða k, en framan e (eí), i, í eða æ (t. a. m. í girti, bágindi, kjörgengir, kirkjur, patríarki, Skírnir, skírslur); en sumstaðar ofsett, t. a. m. í ólagji, megjinland, hertogjinn ókunnugjir, þar eð menn segja ekki laji, mejinland, hertojinn, ókunnujir, heldur laíi, meíinland, hertoíinn, ókunnuíir. áðr ($5^{28}$), aptr ($13^{8}$), norðrströndum (24 neðst) munu vera ritvillur, og koma til af því, að höfundurinn hefur haft hugann á eldra málinu; en í versla ($15^{12}$), íslensku ($62^{12}$), próva ($58^{16}$) er meir ritað eptir framburði, enn í öðrum orðum, þar sem eins er ástatt. æsta ($39^{24}$) er misskrifað, ekki fyrir æzta, heldur fyrir æðsta; því þar sem ð heyrist fyrir framan s, er hvorki rjett að sleppa því með öllu nje að rita z fyrir ðs. notaðu ($26^{8}$), í 3. pers. fleirt. í afleiðingarh. þál. tíma, mun líka vera skrifvilla f. notaði eða notuðu; því þær myndir eru hjer hafðar til skiptis, eins og í Fjórum Þáttum og Hróarskeldufrjettunum. Á sama hátt er ýmist farið eptir eldra eða yngra málinu i þál. tíð og hluttekningarorðum liðins tíma af þeim sögnum, sem hafa að niðurlagi d eða ð fyrir aptan samhljóðanda, og ritað endist ($56^{4}$), mirðir ($43^{17}$), en þó girti ($32^{19}$). rjeðst er rjettara enn rjeðist (34 neðst), og full-viðkunnanlegt. seígja (t. a. m. $12^{28}$), meígandi ($3^{3}$) er ritað eptir framburði, en meginland ($4^{14}$) eptir uppruna; en annaðhvort er að rita eíg, eins og talað er, eða greina eg og eíg nákvæmlega í sundur. Um mánaður, mánað, mánaði, mánaðir er sama að segja, og um fagnaður; sb. greinina um Fjóra Þætti. Á $11^{21}$ stendur engi maður, en á öðrum stöðum enginn, og er það viðkunn-

anlegra nú á dögum. Í orrusta (t. a. m. 14[20]) — þó það kunni að vera dregið af orri — er nú einfalt r, eins og í annari, annara og í niðurlagi orða. Á 4[2] er skrifað vesæld, en vesaldómur 4[23], og mun það vera rjettara, ekki síður eptir uppruna enn framburði. Ef einkunnin, sem þessi orð eru dregin af, væri sett saman af ve[1] og sæll, þá mundu fornmenn ekki hafa sagt veslu, veslum, veslan, vesla, veslir, veslar, (hinn) vesli. Orð þetta mun í upphafi vera búið til á sama hátt, og t. a. m. stopall, sóttall (nú á dögum stopull o. s. frv.), og vera dregið af meginsamstöfunni ves, sem hefur breytzt í ver í miðstiginu verri (eins og vesa í vera, vas í var, es í er o. s. frv.), en kemur óbreytt í ljós í sögninni vesna, sem er mynduð eins og þag-na, kvik-na, lif-na o. s. frv. (og er því rangt að rita versna). Fyrir misklíð, sem vjer höfum vanizt, er haft miskliður (48[12], sb. 26[18], 40[14], 50[2]), og er reyndar dáfallegt orð; en vjer vitum ekki, nema misklíð sje vel notandi, og þar á ofan kynni að koma sjer vel, að geta haft miskliður í annari merkingu *(Disharmonie)*. Þó mannsal (25[21]) megi vel til sanns vegar færa, er það samt líklega misskrifað fyrir mansal, sem er haft þrysvar á sama blaði. Hið forna orð elfr (í samsettum fljótanöfnum) er látið hafa elfa í gjör. (Yan-tse-Kiang heitir á vora túngu Blá-elfa, á 14. bls. í skýringargrein), en þó elfi í þiggj. (14[4]), elfar í eig. (14[2]). En á þessu orði er um þrjár hneigingar að velja:

í eintölu

| | | | |
|---|---|---|---|
| gjör. | elfur | elfi | elfa |
| þol., þiggj. | elfi | elfi | elfu |
| eig. | elfar | elfar | elfu. |

[1]) ve í þessari merkingu er naumast íslenzkt.

| | | í fleirtölu | |
|---|---|---|---|
| gjör., þol. | elfar | elfar | elfur |
| þiggj. | elfum | elfum | elfum |
| eig. | elfa | elfa | elfna. |

Hin fyrsta hneiging kemur saman við reyður, kvennmannanöfnin Ragnheiður, Ragnhildur, Jófríður, Þuríður, o. s. frv.; önnur við heiði, veiði, mýri, o. s. frv.; þriðja við tunga, og allan þann fjölda af kvennkynsorðum, sem hneigist á sömu leið. Hin fyrsta breyting virðist ekki höfð nú á dögum, nema um það sem lifandi er. Í sumarið var ($32^{15}$) er ekki öldungis eptir framburði; því menn segja í sumari var, fyrir í sumar, er var. Miðstig atviksorða af annari hálfu og einkunna í hvorugk. af annari munu ekki vera greind nógu nákvæmlega hvor frá öðrum á stöku stað: að tollurinn skjildi hækka *jafnar* ($5^{28-30}$) ætti heldur að vera að tollurinn skjildi hækka *jafnara*, af því menn segja, að tollurinn hækki *jafnt;* hlítur að bera *meír* á því ($4^{8}$) ætti heldur að vera hlítur að bera *meíra* á því, af því venjulegra er að segja, að *mikið* beri á einhverju, enn *mjög* beri á því; en sem *meíra* síníst gjert vera til að greíða götu firir Rússum fer ekki eins vel og sem *meír* síníst o. s. frv. Á bls. $37^{18}$ er ritað griskur; en menn segja grískur, og það finnst oss líka vera nær uppruna þessa orðs. Eptir honum ætti það reyndar að vera grikkskur, eins og ritað er sumstaðar í fornum bókum; en af því mönnum hefur fundizt örðugt, að kveða að því, þá hafa menn sleppt káunum fyrir framan sk, og viljað bæta þau upp, með því að setja í fyrir i. persneskur ($40^{21}$) fellur oss eigi eins vel í eyrum og perskur, sem virðist rjett myndað af Persar, eins og frískr (í 6. bandi af Fms.) af Frísar; eptir sömu líkingu mundi líka prusskur vera fullt eins gott og prussneskur ($29^{11}$). Nafnið á þjóð þessari er ritað með u (Prussar); en þar um er þó athugandi, að

menn segja Rússar, en ekki Russar. Borgarnafnið Derbýr virðist rjettara, og þó nær enskunni, enn Derbær ($6^{24}$), þó hvorttveggja megi vel til sanns vegar færa. *Belgrað* ($43^{8}$) er misskrifað, og á að vera *Belgrad*, fyrst það er prentað með skáletri *(Cursiv)* eins og útlenzk orð. Spáns ($48^{24}$) er ekki eins upphaflegt og tíðkanlegt, og Spánar. Ýms landanöfn eru látin hafa a að niðurlagi í allri eintölunni (Kjína, Persía, Servía, Brasilía), eptir siðvenju fornmanna; en oss finnst viðkunnanlegra nú á dögum — þó hvorugt sje íslenzkt eða íslenzkulegt — — að hneigja þau eins og gjört er $22^{15}$ (til landamæra Belgíu), þegar þau eiga ekki betra nafn, eins og Persaland, (Sínland). Fyrir aptan mannsnafnið Skjemill hefði átt að setja hið venjulega útlenzka nafn á milli sviga. Alexander ($31^{25}$) er ekki eins gott og Alexandur. vigmenn (á ensku *Whigs*) finnst oss heldur eiga að vera viggmenn, eptir framburðinum, ef ekki tekst að gefa þeim íslenzkt nafn.

Þó vjer höfum hælt orðfærinu hjer á undan, eins og líka má, þá má ekki taka það svo, sem öll orð og orðatiltæki falli oss jafn-vel í geð. Á stöku stað, þar sem talað er um einhvern dauðan hlut, finnst oss betur fara, að taka upp aptur nafnið á hlutnum, enn að setja fornafn, eins og í þessari grein á 6. bls.: Fjelagið mikla, sem stofnað er til að koma af korntolli Breta, hjelt samkomu í Lundúnum sama dag og uppástungan birtist, og lögðu fulltrúar *þess* þenna úrskurð á frumvarpið, f. og lögðu fulltrúar *fjelagsins* o. s. frv. Að bæta *fyrir einhverjum* (í þessari grein á 6. bls.: Það er álit fundarmanna, að breiting sú á kornlögunum, er ráðherrar drottningar vorrar hafa stungjið uppá, muni ekki bæta neitt *firir þjóðinni*) er ekki haft í venjulegri merkingu, og ætti heldur að vera muni ekki bæta neitt *hag þjóðarinnar*. — Þúsund millióna ríkjisdalir ($10^{20}$); vera so mjög

í því efni *eptir* Bretum ($22^{12}$); væri ekkji undir því eíganda, *hvurt* þeír mundi meta meír gagn þjóðarinnar *enn* vinfengji ráðgjafanna ($22^{23-24}$); vinsæll *með* alþíðu ($24^{21}$); fara ekki eins vel og þúsund milliónir (betra væri milíónir) ríkjisdala (þó hitt láti betur í eyrum); vera s. m. í. þ. efni *á eptir* Bretum, og væri e. u. þ. eígandi, *hvurt* þ. m. m. m. g. þ. *eða* v. r. ellegar: *að* þeír mundu m. m. g. þ. *enn* v. r.; vinsæll *af* alþíðu. Stöku orðatiltæki finnast oss tvíræð: færi slík harðstjórn fram *hjá þeím* (38 neðst) ætti heldur að vera færi slík harðstjórn fram *við þá*, eða ef slíkri harðstjórn væri beítt við þá, af því manni dettur fyrst í hug, að fara fram hjá einhverjum sje sama og ganga fram hjá einhverjum; í þessum orðum leífðu fulltrúar Spánverja honum *(Espartero)* að hafa 50 þúsundir hermanna búnar til orrustu, og jafnmikið þjóðlið sem varalið ($45^{18-20}$) á efnið að vera, að fulltrúarnir hafi lagt *Espartero* til leyfis, að hafa 50 þúsundir hermanna, búnar til orustu, og þar á ofan 50 þúsundir þjóðliðs til vonar og vara (en "jafnmikið.... sem" veldur misskilningi, og, ef ekki er vel að gáð, lítur út eins og þetta sje efnið: fulltrúar Spánverja lögðu *Espartero* til leyfis, að hafa 50 þúsundir hermanna, búnar til orustu, sem varalið, og þar að auki 50 þúsundir þjóðliðs). — Merkingar sumra orða eru ekki með öllu viðkunnanlegar. ríkjismenn t. a. m. getur að sönnu opt verið sama og *Aristokrater*, en ekki þar sem eins stendur á, og hjer: að þeír af jarðeígendum, sem ríkjismenn eru ($6^{17-78}$). Á $8^{6}$ ætti heldur að standa hugsjón, enn hugmind; hvorttveggja eru nýgjörvingar; en hugsjón er = *Idee*, hugmind = *Forestilling*. hjáræna ($11^{17}$) er haft fyrir hjárænuskapur, og sundurgreíningur ($27^{21}$) f. ágreíningur. Embættismenn

Austurríkiskeisara eru kallaðir síslumenn hans (36[14]), og kemur það reyndar að nokkru leyti saman við merkingu þá, sem orð þetta hefur haft í fornöld; en það getur þó villt alþýðu, svo menn haldi, að í Austurríki sjeu sýslumenn ekki síður enn á voru landi Íslandi. blökkumenn (25[20]) merkir að rjettu lagi þá, sem byggja Blökkumannaland (*Wallachiet*), þó hinir svörtu menn sjeu opt kallaðir svo í bókum á þessari síðustu öld. Að birtast (42[22]) á ekki eins vel við um *Wucsitsch*, og um engla:

birtust snjóhvítum búning' í
blessaðir englar líka!

Orðið rjett-tækur (55[26]) er ekki viðkunnanlegt, og hefur á sjer einhvern lagasvip, sem ekki á við á þeim stað. hafa þeir og reínt til að þjaka prentfrelsinu, *að so miklu leíti slikt má gjöra* á Frakklandi (21 neðst) er dauflega að orði komizt, og á eitthvað skylt við þessi dönsku orð: *for saavidt sligt lader sig gjöre.* Þó bændurnir í Garðaríki sjeu ánauðugir, þá er þó heldur djúpt tekið í árinni, að kalla þá þræla (31[21]), væru völ á hentugra orði; en hins vegar er það heldur göfuglega að orði komizt um *Lorentzen* okkar í *Haderslev* eða *Hadersleben*, að segja hann sje *vitur* maður og vel að sjer (59[20]). Á 11[21] vonar höfundurinn of góðs til mannlegrar náttúru, þar sem hann tekur svo til orða: Stjórnarlögum á Englandi er og þannig varið, að sá, sem ræður þar ríkji, gjetur ekkji gjört þjóðinni mikjið íllt, þó hann vildi, er það því auðsætt, að engi maður muni þar hatast so mjög við höfðingja sinn, að hann vilji fremja það óhæfuverk, að ræna hann lífi.

Dönsk orðatiltæki eru ekki mörg, en þó má geta þessara: daglaun (4[19]); meðan þeir voru að *ráðgast* (6[27], á dönsku *raadslaae;* betra væri meðan þeir voru að *ráðgast um þetta* eða meðan þeir sátu á ráðstefnu þessari, eða meðan þeir sátu og rjeðu

ráðum sínum); kjöt, salt og ósalt (7[27]) f. saltað og ósaltað (því saltur mun naumast vera haft, nema um þá hluti, sem eru saltrar náttúru, eins og sjórinn); er ekkji að óttast firir því (9[31], á dönsku *frygte for noget*) f. er ekki hætt við; rannsóknarrjetturinn var þar einskorðaður til færri hafa (26[3], á dönsku *indskrænket til* .....) f. einskorðaður við færri höf; við tekjið (26[28], á dönsku *vedtage*) f. samþykkt og statt eða að ráði gjört (víðast hvar er *vedtage* = lögtaka[1] eða lögleiða); *biggja* hjólskip (26[28], á d. *bygge*) f. gjöra eða smíða[2]; læra (23[28]) er ekki eins gott og nema (í eldra málinu er læra = kenna, eins og *lehren* á þýzku); mest lesið (30[2—3]) kann að vera rjett í raun og veru, en lætur dönskulega í eyrum; Nikulás kjeisari brosti líklega að því (33[26]) f. hefur líklega brosað að því eða hefur líklega glott að því (til að komast hjá að segja brosað *að*); *viðkoma* einhverju (36[15], 60[20], á dönsku *vedkomme*) f. *snerta* eitthvað; leggja ráð upp við einhvern (42[19], sb. á d. *lægge Raad op*) f. taka saman ráð sín við einhvern eða taka sig saman við einhvern; til borgar þeirrar á *takmörkunum* er *Belgrad* heitir (42[28]) er ekki eins íslenzkulegt og á *landamærum* (þó takmark sje ágætlega gott orð); fóru stjórnendurnir fram *með* sömu grimmd og áður (43[28]), þó það sje líkt og fara fram mót einhverjum með heilagrar kirkju lögum; lítið fleiri (59[6]) f. litlu fleiri; þingmenn (30 *móti* 26) rjeðu til (mæltu fram með því) að frumvarpið væri eigi í lög leitt (61[12]); móðurmál (62[9]).

---

[1]) Líka tómt taka, t. a. m. Svá er fastliga tekit um land allt og þessar rèttarbœtr ok einkamál váru tekin um allan Noreg.

[2]) *biggja* járnbrautir (36[17]) er líka óviðkunnanlegt.

3. **Frèttir frá (af væri hjer liðugra) fulltrúaþíngi í Hróarskeldu 1842, viðvíkjandi málefnum Íslendínga, gefnar út af nokkrum Íslendíngum.** Í 8. 2 blöð og 256 blss. (Verð: 80 skk.).

Hjer má telja hið helzta, er oss finnst ábótavant, fram yfir það, sem áður er á vikið. *Ritsháttur og lögun á orðum:* yndæll (135[27]) á alls ekkert skylt við yndi, og á að vera inndæll. þirfti (251[11]), f. þyrfti, er líklega prentvilla; sömuleiðis brína (128[25]), f. brýna af brún; eingu (17[33]) ætti að vera engu, að dæmi formmanna, úr því hjer er vant að rita eng á annað borð. s eða ts og ds er víða haft fyrir z, og ritað t. a. m. aðhafst (32[27]), mælst (33[13]), það er ekki minnst á (33[21]), það hefur lengi verið ráðgast um (35 neðst), geti öðlast (42[32]), — leitst (9[11]), lítst (44[28]), ef venja sú *heldst* við (25[3]); en á hinn bóginn: sem nefndin muni *helzt* hafa haft í huga (25[26]), tekizt (í sömu línu og geti öðlast), komizt (34[7]) o. s. frv. virzt (43[21]) ætti að vera virðzt (f. virðtst), ef farið væri eptir uppruna, eins og gjört er í virðtist (38[14]; virdtist, 24[20], er líklega prentvilla), töluverðt o.s.frv. Í þál. tíð og hlutteknìngarorði liðins tíma af þykja er á sumum stöðum ritað kt; en tt er rjettara bæði eptir framburði og eptir nafninu *(substantivo)* þótti — því enginn skrifar þóktafullur, þóktalegur og því um líkt. Það er að sönnu eitt af mestu vandamálum í stafsetningu vorri, að skera alstaðar úr því, hvort rita eigi eitt orð eða fleiri; en þó er eflaust, að ámóti (t. a. m. 23[5], 24[24]) og ígegnum (51[16]) er rangt — því áherzlan sýnir, að það er tvö orð, þar eð menn segja ekki *á*móti, heldur á m*ó*ti og ekki *í*gegnum, heldur í g*e*gnum, en vjer herðum á fyrstu samstöfu allra þeirra orða, sem ekki eru án áherzlu. vankvæði (43[7]) er ekki eins rjett og vandkvæði, sem haft er á öðrum stöðum í bókinni. -sær í orðinu auðsær er

dregið af þál. tíma af sögninni sjá, og er því rjett að rita auðsætt (í hvorugkyni), en rangt, að rita auðsært (117[7], 121[18]). Á flestum stöðum er haft hvorr þegar talað er um tvennt; en þó stendur sumstaðar hverr. septembri, októbri, nóvembri, desembri, í þiggj. eint. (sb. 23[26]), er óviðkunnanlegra og engu samkvæmara eðli málsins, enn september, október, nóvember, desember, eins og vant er að segja. Eigendur fleirtölunnar ástæða (38[14]), skírsla (47[15]), sýslanna (132[7]) eiga að vera ástæðna, skýrslna, sýslnanna; en skýrslna og sýslna er heldur stirt, og væri betra, vegna tannanna, að sneiða hjá þesskáttar orðmyndum.

*Orðatiltæki*, *orðamerkingar*, o. s. frv. Að hafa kostnað í frammi (3[8]) er undarlega orðað. olla einhvers (28[2]) á að vera valda einhverju. ólíkt (32[1] og víðar) er óþarflega forneskjulegt; nú á dögum segja menn ólíklegt, og er það einnig haft í fornum bókum. 3½ álnir (35[21]) ætti heldur að vera 3½ alin, þ. e. hálfa fjórðu alin (eða: þrjár álnir og hálfa alin, eins og fornmenn hafa sagt). hvað festar, hjónavígslu, skírn, staðfestingu barna og kirkjuleiðslu viðvíkur (38[24—25], f. snertir) er ekki annað enn vangá, sem auðsjeð er hvernig á stendur; hitt er lakara, að þetta orðatiltæki hvað því viðvíkur eða hvað það snertir er sjálfsagt tekið eptir dönsku. Oss virðist og, að fallast eigi á ákvörðun þá (44[31]) er ekki rjett, þó menn segi að einhverjum *sýnist* eða *lítist* að gjöra eitthvað. Orðið aðgreiningur (45[24]) höfum vjer hvorki heyrt nje sjeð fyr, svo vjer munum, og væri aðgreining viðkunnanlegra; en aðgreina er þó efasamt orð, vegna merkingarinnar í að (sb. *adskille* á dönsku). Þó hlýtur nú að sleppa þessu (47[7]) ætti að vera þó verður nú að sleppa þessu. Borgundarhólmverjar (58[35]) er ekki fallegt orð, og dettur í sundur um miðjuna, þegar hver vill. nokkuð það verk (66[2]) fer ekki eins vel nú

á dögum og nokkurt það verk. þeirra ma
því máli skiptir um (74[8]) er ógreinilegt; sam
segja um alljafnt (80[10]). flutníngamaður (8
flutníngarmaður (83[26]) er haft fyrir fram
maður. af þeim hinum 6 alþíngismönnu
fer ekki eins vel og af þeim 6 alþingismönnu
jafnt er á komið með kostum þeim (10
ekki eins vel og jafnt er á komið um kosti
sagt sje um menn, að jafnt sje á komið me
kann af sjer leiða (106[22]) er ekki eins viðku
og kann af sjer að leiða. á sinn hátt og t
er (108[7]) mun eiga að vera á sama hátt og
eiga fèlag með einhverjum (110[33]) f. eiga
við einhvern. tala *kunnuglega* um eitthvað
vant að vera í þeirri merkingu, sem það er lá
hjer 115[11] og 210[35]. Í orðunum að því mèr e
ugt (137[22]) færi betur að bæta sem inn í fyrir
mèr. Á 163[14] er haft aðalhaf f. reginhaf. va
þó álit hennar, að jarðeigendur einir haf
ingarrètt (172[14]) mundi eiga að vera ætti a
Menn segja ekki, að manni veitist eitthvað erfitt
heldur að honum veiti það erfitt[1], og ekki fyri
ast (219[16]), heldur fyrirverða sig. dulur s
kynsorð (ræða konúngs var bein og með
dul 219[27]) er að minnsta kosti ekki algengt. Höf
f. Kaupmannahöfn, á ekki við, nema í hver
tali. Á 225[11] er haft við, en vèr endrarnær. s
ekki mjög að gjöra ráð fyrir (227[38]) fer e
vel og fyrir slíku er ekki mjög ráð að gjör

*Dönskublendingur.* viðkomendur (2[12]) f.
eigendur; er eigi sagt fyrir það (10[30] og ví
eg eigi neitt ámóti því (23[5]); vera ekki
(23[32]); yfirtroðsla (29[26], á d. *Overtrædelse*) f.

---

[1]) Þó kvað Austfirðingar segja veitist.

o. s. frv., (sb. yfirstöplun í fornum bókum); **vera vaxinn einhverju** (30[1]) f. **vera fær um eitthvað** (þó hitt sje rjettmæli, að **eitthvað sje manni ofvaxið**); **færsla á málum** (t. a. m. 30[31]) og **málsfærsla** (71[13]); **greiða legkaup** *með* **6 álnum** (35[27]); **eptir því eittsinn ákveðna verðlagi** (37[8]) f. **eptir því verðlagi, sem......; handiðnamaður** (42[10], á d. *Haandværksmand*), ekki eins gott og **iðnaðarmaður** (t. a. m. **hverr maðr skal tíunda þann ávöxt, er hann fær á hverjum tólf mánaðum; hvárt sem er kaupmaðr eða iðnaðarmaðr, þá skal hann svá gera sem búandinn** í skinnb. 619 í 4 bll. br. í handritasafni Árna Magnússonar); **sjá ígegnum fíngur við einhvern** (51[16]); **nú um stundir** (t. a. m. 59[23], á d. *nuomstunder*); **veita móttöku** (76 neðst), ekki eins gott og **veita viðtöku** eða **taka við; upphugsa** (96[25]), á d. *optænke;* **að kalla fornöldina aptur** (104[25]); *meinum* **vèr það til kosníngarlaganna** (109[14]); **þá er kosníngarrèttur sá, ...., eigandans en ekki festubóndans** (122[33—34]) og **kjörgengi ætti eptir því að vera leiguliðans en ekki eigandans** (122 neðst) — því menn segja ekki, eins og á dönsku, **þessar bækur** (e. **bækurnar**) **eru hans**, þó menn segi **hans bækur** og **bækur hans** eða **bækurnar hans; náðarpantur** (148[17]); **eg hafi komizt bærilega frá því** (162[13]) f. **mjer hafi tekizt það bærilega; Eg er því reyndar,** *stutt yfir farið,* **á því** (180[4—5]) mun ekki vera eins íslenzkt, og **stutt** (e. **skjótt**) **yfir að fara; viðurstygð** (188[17]) f. **andstyggð, viðbjóður; gjöri sitt til** (190[15]); **búa** er sumstaðar haft fyrir **eiga heima; hrista eitthvað fram úr ermi sinni** (211[9]); **efasemdum þeim, sem þar voru risnar** (211[25]), á d. *som der havde reist sig;* **var ekki annað fyrir** (211[25]), á d. *der var ikke andet for;* **að svo særanda** (á d. *saarende*) **sè fyrir**

hverja þjóð, ef enginn gaumur er gefinn að túngu hennar (216[7]); þessi (250[5]) vísar til þess, er síðast hefur verið nefnt, eins og á þýzku og dönsku; enar venjuliga svo nefndu tíundaskrár (251[6]) er dönskuleg og þunglamaleg orðaskipun; meðbróðir (251[28]) f. bróðir (þar að auk segjum vjer samlandi, samþræll, samriddari, samborgarmaður, o. s. frv., en ekki meðlandi, meðþræll, o. s. frv.); *skal* eg ekki undan fella (255[13]) er nokkuð sýslumannslegt.

4. Ný Félagsrit, gefin út af nokkrum Íslendíngum. Þriðja ár. (8 og) 144 blss. — Í 8. — Kostar 56 skk.
5. Íslenzk ljóðabók *Jóns Þorlákssonar*. Síðari deild. Prentað á kostnað *Þorsteins* stúdents *Jónssonar*. XL og 656 blss. — Í 8.
6. Íslands Árbækur í sögu-formi. Af *Jóni Espólín*. X. Deild. Prentud á kostnad ens *íslenzka Bókmentafèlags*. (Titilblaðið og) 134 blss. — Í 4.
7. Almanak fyrir ár eptir Krists fæðíng 1844... útlagt og lagad eptir íslendsku tímatali af Finni Magnússyni, Etatsrádi og Prófessóri. Í 16.

---

Þessi lagaboð hafa birzt árið 1843 á prenti um íslenzk efni (þau eru bæði á dönsku og íslenzku; en hjer er ekki nefnt annað enn íslenzka fyrirsögnin).

Opið bréf áhrærandi meðferð þeirra mála er viðvíkja yfirtroðslum þeirra í allrahæstum úrskurði af 17da júlí 1816 fyrirskrifuðu ákvarðana til friðunar Hlutadeigenda réttinda í tilliti til Æðarfugla og annars Fuglavarps svo og Selaveiða á Íslandi. (Kmh., 1. dag marz mán. 1843. Íslenzkan er 1 bls. í 4.)

Tilskipun um stiftun sérlegrar ráðgefandi Samkomu fyrir Ísland, er á að nefnast Alþíng. (Kmh. 8. dag marzmán. 1843. Íslenzkan er 35 blss. í 4.)

Tilskipun áhrærandi nákvæmari ákvardanir nokkurra atrida í Reglugjørdinni af 17da júlí 1782, vidvíkjandi Presta og Kirkna tekjum á Íslandi. (Kmh. 8. dag marz-mán. 1843. Íslenzkan er 3 blss. í 4.)

Bodunarbréf vidvíkjandi Kosníngum Fulltrúa til hins íslendska Alþíngs. (Kmh. 24. dag marz-mán. 1843. Íslenzkan er 2 blss. í 4.)

Opid Cancellíbréf vidvíkjandi því tímatali á hvørju Manntalsþíngin á Íslandi eiga ad haldast. (Kmh. 30. dag marz-mán. 1843. Íslenzkan er 1 bls. í 4.)

Opid Bodunarbréf med hvørju Íslands Alþíngismenn samankallast. (Kmh. 27. dag sept. 1843. Íslenzkan er ½ bls. á óbrotinni örk.)

## II. Á Íslandi.

1. Bodsrit til ad hlýda á þá opinberu yfirheyrslu í Bessastada Skóla þann Maí 1843. Videyar Klaustri.
   1) Íslendskir málshættir safnadir, útvaldir og í stafrófsrød færdir af Skólakennara Dr. H. Scheving (60 blss.)
   2) Skýrsla um Bessastada Skóla fyrir Skólaárid 1842 — 1843 af Lector Theol. J. Jónssyni R. af Dbr. (14 blss. og 3 töflur að auki).

Flest frumsmíð stendur til umbótar, segir fornt máltæki; og sannast það á orðskviðasafni sjera Guðm. heit. Jónss. á Staðastað, prent. í Kmh. 1830; því frumsmíð þykir oss bók sú mega heita, þar eð hún er fyrst prentuð á íslenzku þess kyns. Og kennir það ekki vanþakklætis við höfundinn, þó vjer tökum svo til orða; því það er alsagt, að maðurinn hafi verið merkur og vel að sjer, og væri oss orsakalaust að efa þann almannaróm. Enda er líklegt að hann hefði lagað bókina mikið, úr því, sem er, ef hann hefði haft tóm til; og er þó þessháttar verk ekki svo auðvelt, sem margur mætti halda, og nærri því einna sízt fyrir þann, sem orðinn er þreyttur á að safna þvílíkum fjölda.

Þessir 6 hlutir þykja oss helzt að Orðskviðasafni sjera Guðmundar.

1) Myndir orðanna eru víða rangar og sjálfum sjer ósamkvæmar.
2) Bókin er full af allskonar orðtækjum, sem ekki eru málshættir. Reyndar má samt ekki lýta höfundinn fyrir það, því bæði kallar hann bókina “Safn af íslenzkum orðskviðum, fornmælum, heilræðum, snilliyrðum, sannmælum og málsgreinum”, enda er nú hægra, að greina slíkt sundur, enn þá hefur verið.
3) Margir af orðskviðunum eru dönskublandnir, en sumir aldanskir, og eiga ekki heima í voru máli. Samt er þetta afsakanlegt, meðan verið er að safna; en ef íslenzkt málsháttasafn væri komið í það lag, sem vera bæri, þá ættu danskir orðskviðir, sem einhvern tíma hafa slæðzt inn í íslenzkuna, að standa þar aptan við eins og viðbætir.
4) Þess er ekki getið um hvern málshátt, eins og vera ætti, hvar hann komi fyrst í ljós, ef hann hefur verið hafður í bókum. — Ekkert af þessu fernu verður vel lagfært, fyr enn bókin er prentuð í annað sinn.
5) Fjöldi orðskviða hefur meir enn eina mynd, og ættu þær að vera til færðar á höfuð-stað hvers um sig, en vísað til þangað á öðrum stöðum — hvort sem þær eru merkar eða ómerkar, sjeu þær íslenzkar á annað borð.
6) Líka vantar marga málshætti með öllu. Úr þessu tvennu hefur Dr. Scheving bætt í sínu málsháttasafni, og þarf ekki að taka það fram, að vel sje frá því gengið, þar sem eins lærður og vandvirkur maður á hlut að. Enda eru ekki líkur til, að miklu verði hjeðan af við bætt. Þó viljum vjer nefna fátt eitt ómerkilegt. Skinnbókin ÁM. 128 í 4 mun vera skrifuð mestöll á 16. öld (nema seinustu blöðin á 17.). Á blað, sem fest er framan við bókina, hefur Árni

Magnússon ritað þetta: "Jonsbok, Rettarbætur, Formulæ Juridicæ, Ur Hirdsidum nokkud, Bualaug, Kristinrettr (Arna bps.), in 4to, eigi riett gömul. Bokina hefi eg feingid 1705, fra sr Jone Jonssyne i Garpsdal", og á annað blað þar fyrir framan: "Fra Sr Jone Jonssyne i Garpsdal 1705. Og sagde hn eg mætti eiga bokina, ef villde". Í einum kafla í bókinni er sitt hvað ritað fyrir neðan málið, á hverri bls. að kalla, og þar á meðal þessir orðskviðir:

á 165. bls. ungur maður og öldruð frú, ekki á saman í heimi, þess heldur sem meira er á henni keimið (í boðsritinu: ungur maður og aldrað fljóð ekki á saman á beði; vantar í Orðskviðasafnið);

167 — það er mikið mein, að hafa langan heim (vantar bæði í Orðskv. og boðsr.);

179 — betra er eplið gefið enn etið (eins og í Orðskv.);

181 — betra[1] er einn peningur í hendinni, enn tveir fyrir utan höndina (allt öðruvísi í Orðskv.);

183 — betra er að vera góður, enn þykjast góður (sjera Guðm. sleppir góður á seinna staðnum);

185 — betra er að hjer sje, enn hjer hafi verið (vantar bæði í Orðskv. og boðsr.);

186 — betra[1] er ein[2] góð ást, enn gásavængur[3] (í Orðskviðasafni sjera Guðmundar: betri er góður ostur, enn gæsavængur[3]);

187 — betra[1] er ein[2] góð samvizka, enn krókótt orð (vantar bæði í Orðskv. og boðsr.);

---

[1]) Þannig (ekki betri).

[2]) er dönskulegt á þessum stöðum.

[3]) Betur færi gásarvængur eða gæsarvængur; hitt er eins og það væri tekið úr dönsku.

á 188. bls. stendur þessi vísu-mynd: Mannvits vant er þeim mart skrafar (í safni sjera Guðm.: Mannvits vant er þeim, sem mart hjalar), hljóður er jafnan hygginn maður (í safni sjera Guðm.: hljóður er hygginn maður); dýrlegur er ávallt dauði rjettlátra (naumast málsháttur; vantar líka bæði í Orðskv. og boðsr.); gott er góðum[1] að vera (vantar bæði í Orðskv. og boðsr.), gerði (?) er bezt að gjöra (vantar bæði í Orðskv. og boðsr.).

(Á einum stað er ritað ártalið MDXLIIII með sömu eða ámóta gamalli hendi og málshættirnir).

Skinnbókin ÁM. 394 í 4, með æði mikinn part úr sögu Guðmundar Hólabiskups, er skrifuð á 17. öld; þar standa þessir tveir orðskviðir neðanmáls:

Opt er refur í rauðum hárum (vantar bæði í Orðskv. og boðsr.) og opt er vargs veður[2] á vormorni (í safni sjera Guðm.: Opt er vargs höfuð á vormorni).

Í Bærings-sögu (á skinnbókinni ÁM. 580 í 4) stendur: fornrar skemmdar skal fyr hefna (í boðsritinu: fornrar skammar skal fyrst hefna; vantar í Orðskv.), og á öðrum stað: forn synd gjörir nýja skömm (vantar bæði í Orðskv. og boðsr.).

2. Búnadar-Rit Sudur-Amtsins Húss- og Bústjórnar Félags útgéfin ad þess tilhlutun og á þess kostnad. Fyrsta bindis sídari deild. Videyar Klaustri. 1843. Í 8. 156 blss. (auk titilblaðsins).

---

[1]) Þannig hjer; nú eru menn vanir að segja gott er góður að vera.

[2]) Þ. e. þoka.

3. Stutt Landaskipunarfræði handa ólærðum, samin af L. St. Platou, íslenzkuð af Ólafi Pálssyni, cand. theol. Viðeyar Klaustri. 1843. Í 8. 192 blss.
4. Flokkabók innihaldandi Fæðíngar- Passíu- Upprisu- og Hugvekju-Sálma. Viðeyar Klaustri. 1843. Í 8. 384 blss. (auk titilblaðsins). Selst óinnbundin á Prentpappír 1 rbd. r. S.
5. Registr yfir Íslands stiftisbókasafn. Viðeyar Klaustri. 1842. XI og 175 blss. Í 8. Fæst hja bokaverðinum fyrir 32 sk.
6. Rímur af Líkafróni Kóngssyni og Köppum hans. Orktar af Sigurði Breiðfjörð og eptir hans handriti prentaðar. Viðeyar Klaustri. 1843. 179 blss. Seljast óinnbundnar á prentpappír 38 sk. Silfurmyntar.

---

## ÓLUND.

Háum helzt und öldum,
hafs á botni köldum
vil jeg lúin leggja bein;
á hálu hvílast þangi
í hörðum sjóargangi —
undir höfði unnarstein.

Er á sumrum sunna
í svalar voðir unna
vefur bjartra geisla glit,
þá í dimmum draumi
djúpt í marar straumi
fölur meðal fiska' eg sit.

Og á dauðra drauga,
döpru' og brostnu auga,
horfi kaldan hrikaleik;
eða jeg stúrinn stari
á stirðnuð sem í mari
liðinna volkast líkin bleik.

Og þó enginn gráti
yfir mínu láti,
hvorki sveinn nje svanni neinn,
mun yfir mjer þó dynja
mar, og þungan stynja
dökkur bylgju-barinn steinn.

*Gr. Þ.*

---

## JEG BIÐ AÐ HEILSA!

Nú andar suðrið sæla vindum þíðum,
á sjónum allar bárur smáar rísa
og flykkjast heim að fögru landi Ísa,
að fósturjarðar minnar strönd og hlíðum.

Ó! heilsið öllum heima rómi blíðum
um hæð og sund í drottins ást og friði;
kyssi þið, bárur! bát á fiskimiði,
blási þið, vindar! hlýtt á kinnum fríðum.

Vorboðinn ljúfi! fuglinn trúr, sem fer
með fjaðra bliki háa vegaleysu
í sumardal að kveða kvæðin þín!

Heilsaðu einkum, ef að fyrir ber
engil, með húfu og rauðan skúf, í peisu;
þröstur minn góður! það er stúlkan mín.

---

## TIL MÓÐUR MINNAR Á BANASÆNGINNI.

Það er í fyrsta skipti móðir mín!
já móðirin mín elskulega og góða!
að þjer í kvæði þori jeg að bjóða
það, sem að býr í brjósti syni þín;
og vera má, jeg megi ei lengur bíða,
því mannsins æfi er stutt og fljót að líða.

Jeg man það vel, þá jeg var lítill drengur,
jeg þótti vera að fárra manna skapi;
þá úti um jörð var ólga af snjó og krapi,
jeg undi mjer ekki í baðstofunni lengur;
menn sögðu "hann er mesti höfuðgapi
og eins og dýr í uppeldinu gengur".
Þú áminntir mig opt með móðurblíðu,
en eg gekkst meir fyrir stríðu heldur enn þýðu.

Og þó var jeg ekki, eins og margan varði,
allur úr stáli gjör, með hjarta úr grjóti;
jeg fann að eitthvað brjostið á mjer barði,
er byst þú sagðir: strákurinn þinn ljóti!
jeg sat þá úti undir húsagarði,
en eptir skamma stund þú komst á móti
mjer, sem að áður var með sorg í sinni,
og sagðir: "rjettu koss að móður þinni".

Og þá man jeg, að það var sætur koss,
þú varst svo góð og augun kærleiksblíð,
fyrst þá jeg hafði faðmað þig um hríð,
mjer fannst eins og að af mjer tæki kross;
mjer fannst jeg hafa fengið dýrmætt hnoss,
jeg fengi aldrei betra mína tíð;
þá sagðirðu mjer frá syninum, er sjer glataði,
og seinna heim til föðurhúsa rataði.

En síðan hef jeg sjeð það opt og tíðum,
að sæll er sá, sem föðurhúsa nýtur;
því andstreymið oss enn þá sárra bítur,
er einmana vjer stöndum uppi og stríðum;
að endingu, ef ósigùr vjer bíðum,
er ekkert neitt, því vina hyllin þrýtur:
þeir aka sjer og augunum loka báðum,
svo aumingjanum geti blætt í náðum.

Já, vinátta er orð, sem allir þekkja,
þó ei hana margir þekki svo sem skyldi,
því fyrir löngu hún gengin er úr gildi,
þá Gunnar dó og Njáll, þá varð hún ekkja;
einungis þegar ákaft vín menn drekka,
þá ota margir hennar fagra skildi,
með heitu enni og hendi tryggðum lofa,
um hjartað veit jeg ei — þeir fara að sofa.

En þó að aðrir bregðist, aðrir sofni,
í einum stað er lengi hæli að finna,
og það er í faðmi foreldranna sinna,
því fágætt er að þeirra tryggðir dofni.
Þar blása tveir að eldi í sama ofni,
að ástinni, en hún þrífst opt við minna;
en þó er einn, sem öllum tryggðum eyðir,
óvinur mannsins, sem að lífið deyðir.

Ef að þú lifir enn á drottins jörðu,
jeg umfaðma þig nú með þessu kvæði.
En ef að þú, að entri líkams mæði,
ert sáluð guði af sáru meini og hörðu,
bæn fyrir okkur börnum þínum gjörðu,
að blessist í oss það hið góða sæði,
er þú í hjörtu okkar tíðum sáðir,
en ávöxtuna að líta þó ei náðir.

*G. Thórarensen.*

---

## KVEÐJA.

Stundin er komin, klukku höggin gjalla,
nú kallar Ísland syni sína á;
það heimtar oss úr helju til sín alla,
en helja sleppir einum yfir sjá,
hryggir á brá og brún vjer eptir stöndum,
svo býður nornin, er oss dæmir hörð,
að eyða fjöri og æsku' á dönskum ströndum
ættmennalausa, svipta fósturjörð.

Vjer sátum einatt saman eins og bræður,
þá sólin hnje og myrkrið færðist á;
vjer hjöluðum og höfðum með oss ræður
um hagi landsins, sem vjer erum frá.
En þá kom roði í kinnarnar og höndin
kreppti sig sjálf, og hjartað tók að slá,
vjer unnum heit að brjóta af oss böndin,
og bera þau á eld í Kötlugjá.

Hugsum þó ei að hitta á Ísalandi
hugstóra þjóð, sem veit sjer ekkert mein;
víða er landið þakið svörtum sandi,
sumstaðar standa gömul manna bein
í holtarofum, hundnöguð í endann,
það hryllir við því menn, er að því gá.
Er sem þau vilji börnum sínum benda,
en — bendingarnar fáir látast sjá.

Þó mun þar vera vaskur margur drengur,
sem vaknar, þegar menn á skjöldinn slá,
og öruggur í orustuna gengur,
er oddvitana í broddi liðs má sjá;
og meyjar, sem með gullnu hári og hendi
hvítri sem snjá, að fyrri kvenna sið,
binda þau sár, er benja fyrir vendi,
í bardaganum, vinir! hljótum við.[1]

Þú ferð nú heim og heitin efnir fögur,
hyggðu að því, að einhvern tíma sjest,
þegar menn fara að rita sannar sögur,
hvað sjerhver vann, og hver sjer fylgdi bezt;
þá skulu menn að leiði þínu leita
í landinu, sem hefur frelsi háð,
og sonum sínum segja eins að breyta
og sá "er hvílir þar í drottins náð",

*S. Th.*

---

[1]) Þó þannig sje til orða tekið, má hver maður skilja, að hjer er ekki talað um líkamlega orustu, heldur andlega.

# UM ALÞINGI.

"Nú hafa Íslendingar fengið alþingi aptur", segja menn. Rjett er það. Þeir eiga að þinga um það í Reykjavík, svo enginn heyri, 19 jarðeigendur úr landinu og 1 húseigandi úr Reykjavík og 6 konungkjörnir menn og Bardenfleth kammerherra, sem ekki kann íslenzku, og Melsteð kammerráð, sem kann dönsku, hver ráð leggja eigi stjórnarráðunum í Kaupmannahöfn um landstjórn út á Íslandi; og vjer Íslendingar eigum að kalla þingið alþingi. Það er ekki heldur illa til fallið. Þingið verður að sönnu ekki mjög líkt því þingi, sem Íslendingar kölluðu svo fyrir öndverðu, allsherjarþinginu við Öxará, þar sem þeir rjettu lög sín í augsýn allrar þjóðarinnar og gjörðu nýmæli og dæmdu dóma, og urðu við það betur menntir um flesta hluti og stjórnsamari, enn menn voru á þeim öldum, þangað til vjelar Noregskonunga og ofríki katólskra klerka spilltu lögunum og rengdu dómana. En þetta þing, sem nú skal halda, verður ekki heldur líkt því þingi, sem alþing var kallað á átjándu öld, og ekki gjörði annað enn dæma nokkra óbótamenn til hýðingar upp í dönsku, landinu til enn minni nota, enn þó Danir sjálfir hefðu gjört það, eins og nú er komið. En samt sem áður er þó rjett að kalla fulltrúaþing það, sem nú er stofnað, alþingi. Þó ekki bæri annað til, ættu menn að gjöra það af þakklátsemi við konunginn, sem einkum og sjer í lagi fal það á hendur þeim hinum íslenzku embættismönnum, sem hann hafði kjörið til ráðuneytis um þetta efni, að þeir skyldu vandlega íhuga, hvort ekki mundi rjettast að nefna þingið alþingi, og halda það á Þingvelli, og laga sem mest mætti eptir hinu forna þjóðarþingi Íslendinga. Hefði konungurinn ekki svo beinlínis bent mönnum á, hvað þingið skyldi heita, er varla efi á, að nefndin í Reykjavík,

sem samdi frumvarpið um þingsköpin, mundi hafa kallað smíði sitt "standaþing", eða eitthvað því um líkt. Nú kynni margur að segja, að hefði konunginum dottið í hug, að Íslendingar[1] mundu hafna boði hans, að skapa sjer þjóðlegt fulltrúaþing, og kjósa heldur að laga þing sitt í öllu eptir dönskum fulltrúaþingum, enda þar sem lögunin verður ekki að eins óþjóðleg, heldur og ógjörleg (sbr. Tíðindi frá nefndarfundum í Rv. síðari deild, bls. 9—41 og bls. 20), mundi hann aldrei hafa ætlazt til að þingið yrði kallað alþingi. En þá er önnur ástæða fyrir, að það sje rjettmæli, að segja Íslendingar hafi fengið alþingi aptur, og sú er ástæðan, að hversu ólögulega sem því þingi er fyrir komið, er nú á að nefna því tignarnafni, þá er það þó að miklu leyti undir yður sjálfum komið, Íslendingar! hvort alþingisnafnið verður rjettnefni. En til þess þarf fyrst af öllu, að þingsköpunum verði breytt á margan hátt til betri vegar frá því sem nú er, og það tekst, með guðs aðstoð, ef þeir menn, sem það vandhæfi er á hendur falið, að kjósa landinu fulltrúa, leggja alla alúð á, að finna þá menn, sem fúsastir sjeu á breytingarnar og hæfastir að mæla fram með þeim, það er, sem hafa til vit og vilja, að sjá gagn þjóðarinnar, og þor og ósjerplægni til að halda því fram. En síðan mega fulltrúarnir ekki bregðast þjóðinni, og þjóðin ekki bregðast þeim, heldur styðja þá og styrkja með almennum bænarskrám.

Það munu fáir efa á Íslandi, að allur þorri þeirra manna, sem þar hafa íhugað málefni þjóðarinnar, og lögun þá, er hið nýja þjóðarþing hefur nú öðlazt, muni vera samdóma um, að sú lögun sje að mestu óhæfileg, og að embættismannanefndin í Reykjavík hafi í því efni bæði brugðizt konunginum, með því að semja þau þingsköp, sem þjóðinni urðu að vera ógeðfelld, og eins þjóð-

---

[1]) Fjölnir biður auðmjúklega höfundinum fyrirgefningar.

inni, með því að hagnýta svo vesalmannlega[1] gjöf konungsins. Austfirðingar hafa þegar berlega sýnt þetta í brjefi sínu til Balthazars Christensens, og það eru engin líkindi til, að aðrir Íslendingar sjeu sljóskygnari í svo mikilvægu þjóðmáli. Það kann því mörgum að virðast við fyrsta álit, sem lítil þörf sje nú á, að fara nokkrum orðum um ókosti þá, sem eru á alþingisskipun vorri Íslendinga. En það er þó fremur harðla nauðsynlegt. Þeir sem áður eru sannfærðir um, að alþingi sje stofnað á ólíkan hátt því, er vera átti, verja ekki illa þeim stundum, er þeir verja til að skýra það og brýna fyrir sjálfum sjer; því þess skýrri sem hugmynd manna er um hið rjetta og hið ranga, því betur vex þeim móður til að stökkva hinu ranga, og "hugur ræður hálfum sigri". Og þótt margar ritgjörðir sjeu þegar komnar á prent, sem geta leiðbeint hugsunum manna í þessu efni, vonum vjer þó, að þessari verði ekki ofaukið, ef ekki tekst því ófimlegar; því sannleikurinn verður mönnum miklu auðkennilegri, þegar menn sjá hann í ýmislegum búningi, enn ef þeir sjá hann ætíð í sama fatinu. En þótt hinir sjeu færri, sem láta sjer þá alþingisskipun lynda, sem Reykjavíkur-nefndin hefur saman sett, þá er þó mikils áríðandi, að reyna til að sannfæra þá; því í slíkum efnum er ætíð mikið undir því komið, að sem flestir sjeu á einu máli. En það sem öllu fremur hefur hvatt oss til að rita nokkur orð um alþingismálið, er sú sannfæring vor, að það sje öldungis nauðsynlegt, að hinir fyrstu alþingismenn skerist í leikinn, og þjóðin aðstoði þá af öllu afli. Það er sannfæring vor, að bót á kjörum vorum Íslendinga og allar framfarir, líkamlegar og andlegar, sjeu að miklu leyti undir því komnar, að alþingi verði annað enn einbert nafnið, og komist í það horf, sem það ætti í að vera, og því sje fyrst af öllu kippt í lag,

---

[1]) Vjer viljum ekki segja ambáttarlega *(slavisk)*, þó það væri sagt á þinginu í Hróarskeldu.

sem Reykjavíkur-nefndin hefur fært úr lagi, svo vjer fáum það þjóðarþing, sem konungurinn hafði fyrirhugað oss — ráðgjafaþing, sem ekki sje lagað eptir öðru, enn þörfum Íslendinga. En það er þó ekki sú hugleiðing ein saman, að það sje sama að fresta framförum landsins og fresta lögun þingsins, sem hnígur að því, að hinir fyrstu alþingismenn beiðist breytinga, heldur og þar á ofan sú vitneskja, að það er harðla stopult á að ætla, að hinum seinni mönnum muni gefast jafn-gott færi til, að koma fram breytingunum. Menn eiga því þegar á hinu fyrsta alþingi að biðja konunginn að breyta þingsköpunum.

En áður enn vjer leitumst við, að brýna fyrir mönnum ókostina á þingsköpunum, verðum vjer að minnast lítið eitt á nefndina, sem þingsköpin hefur samið. Íslendingar eru, enn sem komið er, svo óvanir við að gjöra greinarmun á aðfinningum við einstakar gjörðir manna og aðfinningum við mennina sjálfa, að því þykir ekki ofaukið. Nú eru þeir, sem við má búast, mýmargir, sem þekkja einn af nefndarmönnum eða fleiri, sem þeim er vel til og virða mikils, bæði sakir mannkosta og framkvæmdar í embættisstörfum, og þótt ekki sje gjört ráð fyrir því, að nokkrir þessara manna muni fyrir þá skuld láta leiðast til að marka meira atgjörðir nefndarinnar í alþingismálinu, enn íhugun málsins sjálfs bendir til, óttumst vjer þó, að sumir þeirra kynni fyrir hina sömu sök að kippa sjer upp við, ef fundið er á prenti að störfum nefndarmannanna, eða, sem verra er, sjálfir hlífast við að gjöra nokkuð það, er lýsi óánægju þeirra með þau störf. En það væri þó mikil bernska. Menn geta, á hverju landi sem er, haft marga mannkosti til að bera, og gegnt vel embætti því, sem landstjórnin hefur þeim á hendur falið, enda þótt þeir beri lítið skynbragð á alþjóðleg málefni, hvað þá heldur þótt þeir sjeu ekki færir um að semja bætur á lögum og landstjórn, eða þeim yfirsjáist

í einu slíku máli, ef til þeirra kasta kemur. En þetta á því fremur við á Íslandi, sem menn eru þar orðnir afvanari við að hugsa nokkuð um alþjóðleg málefni, eða hafa vanist við, að líta á þau öllum öðrum augum enn vera skyldi. Þótt menn sjái þá og viðurkenni, að nefndarmennirnir hafi ekki kunnað að hagnýta sjer gjöf konungs vors í alþingismálinu, sem vera hefði átt, getur hver haldið fyrir því óskertri þeirri virðing á þeim, sem honum finnst mannkostir þeirra ella eigi skilið. Vjer bregðum þeim ekki um viljaleysi, og það ætti enginn að gjöra. Enda þar sem menn sjá berlega, að þeir hafa látið gagn landsins sitja á hakanum til að þóknast kanselíinu, má enginn óvirða þá fyrir það, þegar allir þekkja svo mennina, að þeir muni ekki hafa gjört það sjálfum sjer til hagnaðar. Slíkt þarf síður enn ekki að vera sprottið af því, að nefndarmennirnir hafi haft meiri ást á kanselíinu, enn ættjörðu sinni, og kann miklu fremur að vera komið af djörfungarleysi, og af því þeir hafa ekki treyst sjer til, að færa kanselíinu heim sanninn um hvað Íslandi væri haganlegast, en verið hræddir um, að færi þeir því samt fram, mundi það ekki verða til annars, enn kanselíið áliti þá óhlýðin börn. Þetta snertir þá ekki vilja nefndarmannanna, heldur er það misskilningur þeirra; því það er auðráðið af orðum konungsfulltrúans á þinginu í Hróarskeldu, að kanselíið mundi hafa fallizt á uppástungur nefndarinnar, þótt þær hefðu verið samkvæmari eðli landsins, og ólíkari því, sem skipað er í Danmörku, og ekki álitið nefndarmennina fyrir slíkar uppastungur skorinorða menn, hvað þá heldur óhlýðin börn.

Nú er þá að líta á alþingisskipunina, og er það undir eins mikill ljettir, að menn þurfa ekki lengi að grafa, til þess menn finni undirstöðu þá, sem nefndarmennirnir hafa byggt á þingsköpin. Á 12. blaðsíðu í síðari deild Tíðinda frá nefndarfundum íslenzkra embættismanna í Reykjavík árin 1839 og 1841 er skýrt og greini-

lega frá henni sagt á þenna hátt. "Um lögun fulltrúaþíngsins eptir alþíngi hinu forna gátu nefndarmenn þess, að konúngsúrskurðurinn mælti svo fyrir, að fulltrúar Íslendínga ættu á þíngi þessu að hafa alla hina sömu sýslu, sem fulltrúarnir á hinum öðrum fulltrúaþíngum; þótti þeim af þessu leiða, að lögun þess hins nýa alþíngis ætti sem mest að líkjast þeim hinum dönsku fulltrúaþíngum, og að einúngis mætti af bregða þar sem ástand Íslands bersýnilega krefðist þess." Þetta er einhver hin merkilegasta undirstaða, sem skynsemigæddar skepnur nokkurn tíma hafa byggt á úrlausn nokkurs vandamáls. Af því fulltrúar Íslendinga eiga ekki að ráða lögum og lofum, heldur að eins vera ráðgjafar eins og fulltrúar Dana, af því leiðir, segja nefndarmenn, að lögun alþingis á að líkjast sem mest fulltrúaþingum Dana. Vjer segjum: af því Íslendingar eru þegnar Dana-konungs eins og Danir, af því leiðir ekki að Íslendingar ættu að tala dönsku eins og Danir, og af því Íslendingar eru dýr eins og hestarnir, af því leiðir ekki að Íslendingar ættu að bíta gras eins og hestarnir, og af því fulltrúar Íslendinga eiga að vera ráðgjafar eins og fulltrúar Dana, af því leiðir ekki, að fulltrúar Íslendinga eigi að vera jarðeigendur eins og fulltrúar Dana, og af því leiðir ekki, að þeir, sem kjósa fulltrúa Íslendinga, þurfi að vera jarðeigendur eins og þeir, sem kjósa fulltrúa Dana, og af því leiðir ekkert sem þingsköpin snertir. En hvað óskynsamleg sem þessi ályktun nefndarmannanna er, væri það þó sök sjer, ef nokkuð annað í úrskurði konungsins benti til, að nefndarmennirnir hefðu átt að laga skipun alþingis eptir hinum dönsku fulltrúaþingum. En því fer fjærri. Konungurinn segir svo: "Nefndarmenn skulu ráðgast um, hvort ekki muni vel til fallið, að setja ráðgjafaþing á Íslandi, er í skuli koma svo margir menn er hæfa þykir, þeirra er landsmenn hafa sjálfir til kjörið, auk nokkurra þeirra manna, sem hafa þar mestar sýslur

fyrir vora hönd, og vjer munum sjálfir til nefna. Það mál skulu þeir og íhuga, hve opt menn skuli til þings koma; en menn eiga þar að hafa alla hina sömu sýslu og á hinum öðrum fulltrúaþingum vorum. Enn fremur skulu þeir íhuga, hvernig jafna ætti kostnaði á landsmenn, og hvað annað er þurfa þætti þessu máli til framkvæmdar. Þar með eiga þeir sjer í lagi að því að hyggja[1], hvort ekki sje rjettast að nefna fulltrúaþingið alþingi, og eiga það á Þingvelli, eins og alþingi hið forna, og laga eptir þessu hinu forna þingi svo mikið sem verða má." Hvar er í úrskurði þessum minnzt á í einu orði að nefndarmenn skuli laga fulltrúaþing Íslendinga eptir fulltrúaþingum Dana? Kristján konungur býður þar nefndarmönnum að íhuga, hvort það mundi ekki vera heillavænlegt fyrir Íslendinga að þeir fengi þjóðarþing sjer, en segir þeim um leið, að þeir megi ekki búast við að það þjóðarþing fái að ráða lögum og lofum, heldur eigi einungis að leggja honum heilræði, eins og fulltrúaþing Dana. Hann býst við þeir muni kjósa þjóðarþingið, og því skipar hann þeim um leið, að leggja ráð á, hvernig laga skuli þingið, og því fer svo fjærri, að hann skipi þeim að laga það eptir fulltrúaþingum Dana, að hann segir þeim beinlínis, þeir skuli sjer í lagi gæta þess, hvort ekki sje rjett að laga það sem fremst má eptir alþingi hinu forna, sem hann vissi vel, að ekki mundi hafa verið mjög svipað fulltrúaþingum Dana. Af þessu er auðsjeð, að þótt nefndarmennirnir beri konungsúrskurðinn fyrir sig, hafa þeir samt sem áður eingöngu tekið það upp hjá sjálfum sjer, að

---

[1]) Vjer leggjum þannig út orðin: *hvorhos det og isærdeleshed vil blive at overveie*, af því höfundinum í Nýjum félagsritum (annað ár, bls. 40) þykir sú útlegging (hann hefur reyndar: þarhjá fyrir þar með) nákvæmari enn sú sem stendur í Skírni (1840; bls. 82—83) og í Frjettum af fulltrúaþinginu í Hróarskeldu (1840; bls. 72): "En einkum eiga þeir vel að því að hyggja", en oss sýnist hvorttveggja jafnrjett.

laga alþingi eptir hinum dönsku fulltrúaþingum. Menn þurfa nú í rauninni ekki annað enn lesa konungsúrskurðinn til að sannfærast um þetta; en vilji menn hafa enn frekari fullvissu, vísum vjer þeim til ritgjörðar þeirrar er Páll kammerráð Melsteð hefur látið setja í hin berlingsku blöð hjer í borginni, og lögð er út á íslenzku í Fjórum Þáttum um alþíng o. s. fr. Þar segir Melsteð frá, hvernig það er undir komið, að alþingisskipunin var löguð eptir fulltrúaþingum Dana. Hann segir sjer hafi verið á hendur fólgið á nefndarfundinum, að taka saman alþingisfrumvarpið. En af því hann var lasinn þegar fundur byrjaði, og hafði þá líka annað yfirgripsmikið frumvarp til íhugunar, en nefndar-störfin margháttuð, og hann vildi feginn eiga þátt í þeim, þá fjekk hann ekki tóm til að semja alþingisfrumvarp, sem lagað væri eptir þörfum og eðli landsins, heldur varð hann að taka þau þingsköp, sem samin voru um fulltrúaþing Dana, og kippa burt úr þeim því, sem ekki varð með neinu móti við komið á Íslandi, af því það var miklu fljótlegra. Nefndinni hefði nú að sönnu verið nær, að bera þetta fyrir sig, enn að bera fyrir sig konungsúrskurðinn. En hvað um það er, sjá allir menn, að það væri bæði hlægileg og grátleg ástæða fyrir oss Íslendinga, til að láta oss lynda alþingiskipun þá, sem nú er, að Melsteð kammerráð fjekk ekki tóm til, að semja aðra betri, bæði sakir lasleika, og af því hann hafði annað frumvarp til undirbúnings og vildi eiga þátt í fleirum, og menn þurfa síður enn ekki að gæta þess, að Melsteð hefur sjálfur sagt[1], að hann hafi glöggt sjeð á eptir, að kosningarlög þau, sem hann hafði samið (og nú eru í lög leidd), mundu aldrei verða hent á Íslandi, hvernig sem reynt væri að laga þau í hendi. Þeir menn, sem svo eru gjörðir, að þeir mundu hlífast við að bera sig upp um annmarka þá, er þeir þykjast sjá á lögum

---

[1]) Fjórir þættir um alþíng o. s. fr., bls. 24.

ættjarðar sinnar, ef þeir hjeldu að eitthvert stjórnarráðanna hefði annað álit á þeim, mega af því sem hjer er sagt ganga úr skugga um, að stjórnin ætlaðist ekki til, að alþingisskipun á Íslandi skyldi laga eptir hinum dönsku fulltrúaþingum, heldur er það allt öðruvísi undir komið, og þeir þurfa því ekki fyrir þá skuld að hlífast við að beiðast breytinga; því þó frumvarp nefndarinnar sje nú að mestu í lög leitt, þá er þar allt öðru máli að gegna. Stjórnin vildi gefa Íslendingum alþingi, en hafði ekki önnur þingsköp að bjóða þeim, enn þau, sem nefndin hafði samið, og kanselíið (sem mestu ræður í þessu efni) þorði hvorki að breyta þeim til hlítar eptir uppastungum fulltrúanna í Hróarskeldu, af því atkvæðamunurinn var þar svo lítill, og kanselíið hjelt þeir mundu lítið þekkja til hvernig ástatt væri á Íslandi, nje heldur eptir bón þeirra Íslendinga, sem hjer voru í Kaupmannahöfn, af því þeir voru svo fáir, og höfðu hvorki umboð annara, nje heldur embætti (nema fáeinir) við að styðjast. En ef fulltrúar Íslendinga beiðast breytinga, og leiða rök til, svo kanselíið sjer, að það er einlægur vilji þjóðarinnar sem skynseminni er samkvæmt í þessu efni, má engi geta svo ills til kanselíisins, að það muni ekki mæla fram með breytingunum.

En úr því það er sýnt, að nefndarmennirnir hafa ekki sniðið stakk þann, er þeir áttu að sníða oss Íslendingum, eptir vexti sjálfra vor, heldur eptir öðrum stakki[1], þá er nú lítið eitt á að líta, hvernig sá stakkur, er þeir hafa sniðið, fari oss Íslendingum, og hvernig hann mætti betur laga eptir vaxtarlagi voru, svo að alþingi yrði nokkru þjóðlegra þing, enn það er nú sem stendur.

Það er svo mart í hinni nýju alþingisskipun sem tekið er eptir þingsköpum Dana, og ekki á við á Íslandi,

---

[1]) hvort sá stakkur er sniðinn eptir vexti Dana snertir ekki þetta mál.

að það yrði hjer of langt mál, að drepa á það allt, og því viljum vjer að eins geta þess, sem allra ólögulegast er. Vjer búumst líka við, að þegar búið er að taka það úr alþingisskipuninni, og setja annað betra í staðinn, muni verða hægra að semja gjörsamlega ný þingsköp, enn laga þau sem nú eru, og þá muni smágallarnir falla úr af sjálfu sjer.

Fyrsti höfuðgalli á þingsköpunum er sá, að kosningarlögin, sem vel má kalla máttartrje í þessu smíði, eru öldungis óhæfileg. En þessi lög verður að íhuga í þrennu lagi, af því þau kveða bæði á, hverjir kjósa megi landinu fulltrúa (og er það kallað kosningarrjettur), og líka hverja kjósa megi til fulltrúa, eða hverjir vera megi fulltrúar (og er það kallað kjörgengi), en í þriðja lagi skipa þau fyrir, hvernig kosningum skuli vera háttað.

En þegar menn grennslast eptir, hverjum sanngjarnlegast sje að veita kosningarrjett, þá verða menn að gæta þess, að þó fulltrúar þeir, sem kosnir verða, eigi ekki sjálfir að ráða lögum og lofum, eiga þeir samt að leggja ráð á um lög og lof. En af því það er hverjum manni harðla mikilvægt, sem lifir í mannlegum fjelagskap, hvernig lögin eru, eða hvernig takmarkað er veraldlegt frelsi hans, þá leiðir af því, að það er hverjum manni mjög áríðandi, að mega eiga þátt í kosningu þeirra manna, sem að lögunum eiga að starfa. Þess ber og að gæta, að það eru öll líkindi til, að lögunum verði því fúslegar hlýtt, sem fleiri eiga þátt í kosningunum. Sama verður enn ofan á, þegar menn íhuga, að Friðrik konungur sagðist stofna fulltrúaþing til að lífga þjóðandann, því það má nærri geta, að sá andi muni lítið lifna við það, þó fáeinir menn verði hluttakandi í þjóðrjettindum þessum, en lifna því meir, sem fleiri verða það. Af öllu þessu leiðir, að það er tilhlýðilegast og rjettast, að sem flestir taki þátt í kosningunum, og af ástæðu þeirri, sem fyrst er til færð, sýnist það leiða beinlínis, að menn ættu ekki að svipta neinn mann svo

mikilvægum rjettindum, nema lögin álíti hann óhæfan að ráða algjörlega fyrir gjörðum sjálfs síns, annaðhvort fyrir aldurs sakir eða veilindis, eða hann hafi unnið nokkurn þann glæp, að honum sje ekki lengur trúandi. En þó það sje rjettast í sjálfu sjer, að binda ekki kosningarrjettinn við annað enn fullan lögaldur og fjárforráð og svívirðingarlaust líferni, hafa menn þó í flestum þeim löndum, sem fulltrúa eiga (og það eru nú flest lönd í Norðurálfu og öll lönd í Vesturheimi) þar á ofan einskorðað kosningarrjettinn við ákveðna auðlegð. Hafa menn einkum borið það þrennt fyrir sig: að auðnum fylgi menntun, og því sjeu líkindi til, að þeir sem auðugir eru, sjeu að því leyti hæfari til að kjósa fulltrúa, enn hinir, sem fjeminni eru; að fátækir menn sjeu svo mjög öðrum háðir, að þó þeir hafi vit á að kjósa vel, sje þó hætt við, að þeir muni láta leiðast til fyrir mútur og hótanir annara, að kjósa aðra enn þá, er þeim sýnast hæfastir. En í þriðja lagi hafa menn sagt, að svo mörg og mikilvæg veraldleg lög snerti fjármunina, að það sje tilhlýðilegt, þeir ráði miklu um, hverjir kjósa eigi þá, sem lögin skulu semja. Það er og í öllum löndum komið undir fulltrúum þjóðarinnar, þar sem veruleg fulltrúastjórn er, hversu mikla skatta þjóðin skal greiða, og því hafa menn sagt það væri sanngjarnlegt, að rjettur til fulltrúakjörs færi nokkuð eptir skattgjaldinu. En allar þessar ástæður eru þó í rauninni of veikar, til að byggja á þeim þá áliktun, að þá menn megi svipta kosningarjetti, sem eiga ekki tiltekna fjármuni, eða gjalda ekki ákveðið skattgjald; því þó örbyrgðin leiði víða hvar af sjer vankunnáttu og opt og tíðum siðferðislega spillingu, væru það þó ranginndi að segja við fátækan mann: þú hlýtur að vera bæði vankunnandi og siðlaus af því þú ert fátækur. Menn verða líka að gæta þess, að hæfilegleikinn til að kjósa fulltrúa er þó í rauninni kominn undir náttúruviti mannsins, og að því leyti einu undir menntuninni, sem hún hvessir vitið, og

að ríkir menn hafa opt meiri freistni til að kjósa skaðsamlega fulltrúa, enn hinir fátæku. En þar sem menn segja, það sje sanngjarnlegt, að fjármunirnir ráði kosningarrjettinum, af því lagasetningin hnígur svo mjög að því efni, þá má geta þess, að ef menn vilja byggja á þessu, ættu menn og að láta hin önnur efni, sem löggjöfin hnígur að, ráða kosningum, og hafa líka leitast við að gjöra það. En þó mart hafi verið til þess máls fært, að menn ættu að reyna til að útvega þeim efnum fulltrúa, sem lögin skilja um, og ekki mönnunum sjálfum, viljum vjer ekki leitast við að hrinda því hjer, því það yrði of langt mál. Um þessa ástæðu varðar oss ekki heldur, þar sem kosningarlög vor binda kosningarrjettinn við auðlegðina eina. Þegar menn fara og nákvæmlega að gá að sögu þjóðanna, og líta á hvernig þær stjórnarbætur eru undir komnar, sem veita þeim fulltrúaþing, þá munu menn komast að raun um, að það hafa sjaldan verið þessar ástæður einar, sem hafa komið veitendunum til að skilja svo marga menn undan kosningarrjettinum, heldur miklu fremur aðrar ástæður, sem ekki eru á jafngóðum rökum byggðar. En hvernig sem menn meta þá ástæðu, þegar um önnur lönd er máli að skipta, að líkindi sjeu til að fátækir menn hafi hvorki vit nje vilja til að kjósa haganlega, þá verða þó allir þeir, sem haft hafa nokkurt færi á, að bera Ísland saman við önnur lönd, að kannast við, að ástæðan verður þar tæpari enn annarstaðar, af því menntunin fer þar miklu síður eptir auðlegðinni enn í nokkru landi öðru, vegna þess að öllum kennslumáta er allt öðruvísi háttað á Íslandi enn í flestum öðrum löndum. En ef menn kinoka sjer við, að beiðast kosningarrjettar fyrir alla þá menn, sem eru fjár síns ráðandi að lögum, og ekki hafa brotið af sjer traust annara með glæpum, og vilja menn fyrir hvern mun binda kosningarrjettinn við einhverja fjáreign, þá tiltaki menn um fram allt ekki nokkra einstaka fjártegund, hvorki sauðaeign eða nauta, eða hesta, jarð-

eign eða skipaeign eina sjer, heldur bindi kosningarrjettinn við allar eigur kjósandans. Hvergi hafa menn, svo vjer til vitum, bundið kosningarrjett við fasteign eina nema á Prússalandi og í Danmörku. Vjer dirfumst ekki að reyna til að gizka á allar þær ástæður, sem hafa leitt stjórnendur þessara landa til slíkrar skipunar; en nokkrar þeirra þykjumst vjer sjá glögglega, og þær eiga síður enn ekki við á Íslandi. Á Íslandi eru, sem betur fer, engir lendir menn, sem hafa stór ljen og miklar jarðeignir, svo menn þurfa þar ekki að binda kosningarrjettinn við jarðeign til að koma slíkum mönnum í fulltrúaþingið. Á Íslandi er ekki heldur svo ástatt, að mestu skattarnir liggi á jörðunum. Á Íslandi er miklu fremur svo ástatt, að jarðeignin gjörir menn þar ekki á nokkurn hátt hæfari til kosningar, enn hver önnur fjáreign, nema síður til, þar sem skattarnir liggja mestir á lausafjáreigninni. Þetta efni mun líklega vera flestum mönnum á Íslandi svo ljóst, öðrum enn þeim, sem tekið hafa saman þingsköp vor, að vjer þurfum varla að brýna fyrir mönnum allan þann ójöfnuð, sem þar á ofan leiðir af því á Íslandi, að einskorða kosningarrjett við fasteign. Vjer viljum að eins drepa á, að engin jarðabók er til, sem heitið geti nokkurnvegin nákvæm, svo jarðadýrleikinn, sem eptir ætti að fara, á ekki saman nema nafnið; og svo rammt kveður að því, að dýrleikinn á einstaka jörðum er ekki að eins ónákvæmur og skakkur, þegar þeim á saman að jafna, heldur eru jarðirnar í heilum sveitum og sýslum sumstaðar að tiltölu miklu öðruvísi metnar til dýrleika, enn á öðrum stöðum. Þetta er öllum kunnugt; en til frekari fullvissu viljum vjer þó færa sönnur á mál vort. Vjer höfum haft færi á að kynna oss leigumála á 487 jörðum á Íslandi, sem liggja hingað og þangað um landið allt. Eptir þessum leigumálum verður afgjaldið af hverjum 10 hundruðum þannig:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| í Húnavatns-sýslu | . (56 jarðir, | 1148 hdr.) | 10 hdr. afgjald | 12 rdd. | 87 sk. |
| í Skagafjarðar — | .. (42 — | 954 —) | ......... | 10 - | 16 - |
| í Vaðla — | .. (84 — | 1796 —) | ......... | 12 - | 89 - |
| í Þingeyjar-sýslum | (45 — | 775 —) | ......... | 16 - | 18 - |
| í Múla — | . (22 — | 238 —) | ......... | 23 - | 56 - |
| í Skaptafells — | . (81 — | 1058 —) | ......... | 14 - | 52 - |
| í Gullbringu-sýslu | . (22 — | 385 —) | ......... | 10 - | 77 - |
| í Snæfellsness — | .. (91 — | 1186 —) | ......... | 12 - | 90 - |
| í Barðastr. s. og Ísaf. | (23 — | 301 —) | ......... | 7 - | 77 - |
| í Stranda — | .. (21 — | 236 —) | ......... | 7 - | 3 - |

Þó jarðirnar kunni nú að vera lítið eitt dýrra byggðar eptir gæðum á einum stað, enn öðrum, gefur þó hverjum manni að skilja, að það muni valda mesta mismuninum að jarðirnar eru svo ólíkt metnar til dýrleika. En allir sjá þá líka, hvílík ranglndi leiðir af því, að binda kosningarrjettinn alstaðar við sama dýrleika, því með því móti heimta menn í rauninni tvöfalt og þrefalt meiri jarðeign af mönnum í einni sveit enn annari, og það er þó ósanngjarnlegt, þegar þeir menn eru ekki að öðru leyti svo miklum mun óhæfari til kosninga enn hinir, og hver þorir þó t. a. m. að segja, Austfirðingar sjeu þrefalt óhæfari til kosningar enn Strandamenn. Það leiðir enn fremur af að binda kosningarrjettinn við fasteign, að í Vestmannaeyja-sýslu verður ekki nema einn kjósandinn, af því konungur á allar eyjarnar, svo enginn fær þar kosningarrjett fyrir jarðeign, og af því jarðir eru þar allar ómetnar til dýrleika, svo enginn fær heldur kosningarrjett fyrir æfifestu á jörð.[1] Kjósendur verða þar því þeir einir, sem eiga svo dýrt hús á verzlunarstöðnum, sem tiltekið er, og verður það, eptir því, sem vjer höfum heyrt, ekki nema einn maður danskur, sem varla mun vera fjár síns fullráðandi sem stendur. Þar að auki mætti geta þess, að

[1]) Vjer sleppum hjer að minnast á, hvort það hafi verið sanngjarnlegt eða ekki, að veita ábúendum á konungsjörðum, sem hafa æfifestu fyrir jörðinni, kosningarrjett, en ekki þeim sem hafa æfifestu fyrir bændaeign.

margopt stendur svo á, að jarðeigandi er utan sýslu þeirrar, sem hann á jörðina í, og getur því ekki vel hagnýtt sjer kosningarrjett þann, sem honum heyrir til, og mart mætti annað telja, auk alls þess erfiðis og kostnaðar, sem af þessu leiðir, ef það þætti ekki fullsannað, að þó nefndin hafi gjört skynsamlegar í, að binda heldur kosningarrjettinn við það, hvað mikið menn eiga í jörð, enn hvað þeir eiga margar grænar völur eða krotaða beinhnappa, þá hefur henni samt sem áður mikillega yfirsjest í því, að binda kosningarrjettinn á Íslandi við fasteignina eina. Miklu tilhlýðilegra í alla staði sýnist oss það, að binda kosningarrjettinn við lausafjáreignina eina, ef menn þykjast nauðsynlega verða að binda hann við einhverja fjáreign, og um tvennt er að velja, enn að binda hann við jarðaeignina; en þó viljum vjer ekki ráða til þess. Oss sýnist það verða rjetta höfuðreglan, að allskonar eign veiti kosningarrjett, ef hún gefur ávöxt, og hefur ekki að öðrum kosti neina sjerlega annmarka. Það eitt, er slíkri reglu mætti telja til hnekkis, að það er torvelt og óvinsælt, að grennslast eptir eigum manna, á ekki við á Íslandi, því þar geta menn að mestu leyti farið eptir tíundinni sem kölluð er. Tíundin á Íslandi á ekkert saman við það, sem tíund er kallað annarsstaðar í veröldinni, nema nafnið eitt, því tíundin á Íslandi er eptir eðli sínu ekki annað enn fast ákveðinn stofnskattur, sem greiða ætti af öllu því fje, sem ávöxt ber. Hver maður, sem kosningarlög ætti að semja handa Íslendingum, og ella væri með fullu viti, mundi þessvegna hagnýta sjer tíundarstofninn, ef hann ætlaði ekki að semja lög sín eptir öðru enn ásigkomulagi landsins[1], og þættist á annað borð verða að binda kosningarlögin við fjáreign. Samt sem áður er mart að athuga, þegar tíundarstofninn á að vera undir-

---

[1]) Þetta hefur og Melsteð kammerráð síðar sjeð, sbr. Fjóra þætti, bls. 21.

staða kosningarlaganna. Um alla þá fjáreign, sem lausafje er kallað, er lausafjártíundin að sönnu bezti mælir; en henni kann þó sjálfri í ýmsum greinum að vera ábóta vant, þar sem vera má, að hlutir þeir, sem tíunda á, sjeu ekki eptir fullum jöfnuði metnir til álnatals, og líka eru sumir hlutir, sem avöxt bera, ekki tíundaðir (t. a. m. hafskip). En því fer þó fjærri, að þessir gallar sjeu svo mikilvægir, að þeir gjöri tíundarstofninn að óhæfilegum kjörstofni, þó betur færi, að á þeim væru ráðnar bætur. En þá er eptir sá hlutur eignanna, sem fasteign er kölluð, bæði lönd og hús. Löndin (eða jarðirnar) eru að mestu leyti talin til tíundar, og þessvegna getur tíundarstofninn þar líka verið kjörstofn, en fyrir því kynni og mörgum að virðast efasamt, hvorir kosningarrjettinn ættu að hafa, ábúendur jarðanna eða eigendur þeirra. Vjer getum ekki borið móti því að það væri nokkru einfaldara, ef ábúðin veitti kosningarrjettinn, því þá þyrfti eptir engu öðru að fara enn tíundarskránum einum saman. En þó vjer álítum það mikla kosti á kosningarlögum, að þau sjeu sem einföldust og óbrotnust, ætlum vjer þó að þá kosti megi eigi meta svo mikils, að menn halli fyrir þá skuld því, sem rjett er í raun og veru, og oss finnst það í raun og veru miklu rjettara, að eign jarðanna veiti kosningarrjett enn ábúðin. Menn verða að gæta þess að jarðirnar á Íslandi veita ábúandanum lítinn annan ávöxt, enn kvikfjárrækt og fiskiafla; en nú tíundar ábúandinn bæði kvikfjeð eg aflafærin, svo að jarðartíundin væri í rauninni öldungis órjettur skattur, ef hún væri skattur, sem ábúandi ætti að greiða af afla sínum, þar sem hann hefur goldið þann skatt í lausafjártíundinni. En ef jarðartíundin er rangur skattur, væri líka rangt að gjöra hana að kjörstofni. Ef jarðartíundin er rjettur skattur, verða menn að líta svo á, sem sá skattur liggi á eiganda, og ábúandi greiði hann í stað eiganda, sem nokkurn hluta jarðarafgjaldsins, og eptir því ætti kosningarrjetturinn að lenda hjá eigand-

anum. Það hefur verið sagt, að ef menn ljetu ekki ábúendur jardanna eiga kost á að telja jarðartíundina með lausafjártíundinni, þá mundu menn bægja mörgum góðum manni frá kosningum við sjáfarsíðu þar sem lítil lausafjártíund er; en í rauninni sanna menn ekki annað með því, enn það sem þeir vildu ekki hafa sannað, að það er ekki rjett að binda kosningarrjettinn við nokkra fjáreign. Aptur á móti mundi það valda miklum órjettindum, ef jarðartíundin ætti að veita ábúandanum kosningarrjett, að svo margar jarðir hafa tíundarfrelsi, svo að þeir menn, sem á slíkum jörðum búa, fengju ekki kosningarrjett jafnt hinum, sem búa á þeim jörðum, sem tíundaðar eru. Oss sýnist því rjettast, að eigendur jarðanna hafi kosningarrjettinn, og ætlum vjer það þurfi ekki að valda miklum vandkvæðum, ef rjett er að farið. Á Íslandi munu menn óvíða eiga hús, svo nokkru verði nemi, utan þeir eigi landið undir, nema í kaupstöðum, og því hafa húsin hingaðtil ekki verið talin til tíundar, en þó sýnist oss að þau ættu að veita kosningarrjett. En þó menn komi sjer saman um, hverjar eignir sjeu rjettur kjörstofn, er eptir að kveða á, hversu mikil eign sú skuli vera, af hverju sjer, sem veiti kosningarrjett. Þegar menn líta þá fyrst á lausafjártíundina, hafa menn lengi haft þar nokkurskonar takmark, sem miklu hefur ráðið um stöðu eigandans — skiptitíundina, sem kölluð er, eða 5 hundraða eign. Hjer á það við, þegar á skal kveða eignarupphæðina, að gæta þess, að menn bægi ekki of mörgum frá kosningunum, og oss sýnist þá, að menn geti ekki tekið til meiri lausafjáreign enn 5 hundraða, nema menn hirði lítið um, þótt þeir svipti þingið mörgum góðum kjósanda, en margan einstakan mann rjetti hans, og veiki elsku þjóðarinnar á alþingi sínu. En á hinn bóginn þorum vjer ekki að stinga upp á minna skamti, ef farið er að binda kosningarrjettinn á annað borð við nokkra fjáreign. Oss virðist það og sanngjarnlegt, að af jarðeigninni verði til

tekið jafnmikið hundraðatal og af lausafjáreigninni. En um húsaeignina — sem lítil er í samanburði við hinar — ætlum vjer það væri rjettast, að þau væru metin til verðs, og til tekið nokkru meira verð enn 5 hundraða virði í jörð; t. a. m. 2 eða 3 hundruð dalir.

Nú víkjum vjer að hinu öðru atriði kosningarlaganna, hverjir kjörgengir skuli vera, og getum vjer þar verið enn stuttorðari, því vjer höfum lítið heyrt til þess fært, sem skynsemdarblær hafi verið á, að nauðsyn beri til á Íslandi að binda kjörgengi við fjáreign eða líkar skorður. Þegar menn ræða svo málið að ekki er höfð hliðsjon af nokkru einstöku landi, finnst oss það jafnvel verða öldungis efalaust, að menn eigi ekki að binda kjörgengi við nokkra fjáreign, heldur eigi menn að eiga það að öllu leyti undir kjósendunum, hvern þeir álíti beztan fulltrúa. Oss finnst það óþolandi fyrir kjósendurna, að mega ekki velja sjer til fulltrúa þann mann, sem þeir álíta í alla staði bezt til þess fallinn, einungis fyrir þá skuld, að hann á nokkrum skildingum minna enn til er tekið. Menn segja, að þegar svo standi á, sje kjósendunum innan handar að skjóta fje saman handa fulltrúanum. En til hvers er að gjöra sjer slík lög, sem menn kannast við á undan, að ekki hafi af lögum nema nafnið eitt, af því menn hljóta stundum að fara kringum þau til að koma fram hinu góða, en geta ætíð farið kringum þau til að koma fram hinu illa? Til hvers eru þau annars enn að takmarka frelsi manna að einberum óþarfa? En þó menn kunni nú að þykjast geta mælt slíkum lögum nokkra bót í öðrum löndum þar sem auðnum er svo fjarskalega misskipt eða lendir menn hafa mikil einkarjettindi, og auðmennirnir eru hræddir um, að lögin kynni að jafna auðinn, en lendir menn, að þau kynni að takmarka einkarjettindin, þá er þar öðru máli að gegna enn á Íslandi, þar sem hvorki eru lendir menn, eða auðnum nærri eins fjarskalega misjafnt skipt. Við þetta bætist, að í öðrum löndum, þar

sem kjörgengi er bundin við auðlegð, eru samgöngur milli manna svo miklu hægri og auðveldari enn á Íslandi, að slík bönd valda þar miklu minni óhægindum. En ef það skyldi þar á ofan leiða af slíkri takmörkun á Íslandi, að menn yrðu fyrir hennar skuld að hafna öðru frelsi, sem ella hefði verið álitið ómissandi, þá þyrfti eflaust aflmiklar ástæður til, að leggja slík bönd á. Hverjar eru þá þessar hinar mikilvægu ástæður? Vjer höfum heyrt tvær, sem vjer höldum í rauninni sjeu þó ekki nema ein. Önnur er eptir Reykjavíkur-nefndina. Hana má lesa í Nefndartíðindunum, síðari deild, blss. 19—20. Þetta er inntak hennar: Ef menn fara á Íslandi að einskorða kjörgengi við fjáreign mundi af því leiða eitt af tvennu — annaðhvort óþolandi tímatöf, kostnað og erfiðismuni, eða menn yrðu fyrir þá skuld að binda kjörgengi við sýslur og landsfjórðunga og hafa þó ærinn erfiðisauka; er hvorttveggja harðla illt, en nefndin þorir þó ekki að mæla fram með öðru, af því kjörgengi er í Danmörku bundin við fjáreign. Með leyfi lesandans ætlum vjer að sleppa þessari ástæðu í meinleysi. Önnur ástæðan er eptir Melsteð kammerráð. Hann ritaði fyrst kanselíinu frumvarp til kosningarlaga handa Íslendingum, og byggði það á óbundinni kjörgengi. Síðan snjerist hann, og segist (Fjórir þættir, bls. 23) fyrir sitt leyti mundi vera harðla fús á að breyta frumvarpi sínu þannig, að til kjörgengi þyrfti 10 hundruð í tíundbærum fjármunum, eða jafnvel 20 hundruð, ef kanselíið vildi það heldur. Ástæðan mun eiga að vera fólgin í þessum orðum (á 22. bls. í sömu bók): "að á Íslandi hæfi eigi, að því er snertir skipun kosningarlaganna, að láta þá hluti ganga úr höndum sjer, er tryggja megi kosningar, og að einu leytinu nokkuð er í varið, en á hinn bóginn hnekkja eigi hagaulegum kosningum með takmörkunum, er þeim eru samfara". Ef menn greiða þessa ástæðu úr þeirri flækju, sem kammerráðið hefur vafið hana í, verður hún þannig útlits: Á Íslandi er bezt

að binda kjörgengi við fjáreign (tíundbæra fjármuni), af því þau bönd "tryggja vel kosningarnar", og ekki leiðir af því aðra anmarka, sem hnekkja haganlegum kosningum. Verði þá annaðhvort sannað, að þessi bönd "tryggi ekki kosningarnar" til hlítar, eða þeim fylgi slíkir anmarkar, sem um er rætt, er ástæðan farin. "Tryggja þá slík bönd kosningar?" Er mikil von til þess, eða er jafnvel nokkur von til þess, að þjóðin fái betri fulltrúa, ef kjósendunum er skipað að kjósa þá, sem þeir hafa ekki gott traust á, en eiga ákveðna fjáreign, heldur enn ef þeim er leyft að kjósa þá, sem þeir hafa bezt traust á, þó þeir eigi ekki slíka fjáreign? Oss sýnist fjærri fara. Hjer er bezt að taka tvö dæmi, sitt af hvorum enda, til skilningsauka. Kjörgengi er bundin við fjáreign. Kjósendum þykir Gissur bezt til fallinn af þeim, sem eiga 10 hundruð fjár, og mundu þó allir í einu hljóði kjósa Þórð, ef þess væri kostur; en hann á ekki nema 9 hundruð. Hvor er þá betur til fulltrúa fallinn, Gissur eða Þórður? Hvort er meira metandi, hundraðseignin eða traust allra kjósenda? Kjörgengi er óbundin. Gissur á 10 hundruð, en Þórður ekki neitt. 19 kjósendur velja Gissur, en 20 Þórð. Hvort er nú meira metandi, traust eins kjósanda eða 10 hundraða eignin? Oss sýnist þeir villast meir, sem álíta hundraðseignina "tryggja betur kosningarnar" enn traust allra kjósenda, heldur enn þeir, sem álíta traust eins kjósanda "tryggja betur kosningarnar" enn 10 hundraða eign, og þykjumst hafa sannað með þessum dæmum, að það "tryggi ekki kosningarnar" til hlítar að binda kosningarrjettinn við fjáreign. En ef svo er, þá er ástæða Melsteðs orðin ógild og höfuðlaus. En þó aldrei væri af henni tekið höfuðið, er hún litlu betri fyrir það; því Melsteð segir að því að eins sje gjörlegt, að binda kjörgengi við fjáreign, að af því leiði ekki aðra anmarka, sem hnekki haganlegum kosningum. Nú er um tvennt að velja þegar binda á kosningarrjett við fjáreign: annaðhvort

verða menn að láta kjósendur hafa fyrir því sjálfa, að útvega sjer vissu um, að þeir, sem þeim kemur til hugar að kjósa, eigi jafn-mikla fjáreign og til er tekin, og það hefur mönnum þótt ógjörandi, þótt fjáreignin ætti að vera fasteign, en yrði ennþá síður í mál takandi, ef binda ætti kjörgengi við lausafje; eða menn verða að láta búa til kjörskrár yfir kjörgenga menn. En Reykjavíkur-nefndin (sem Melsteð var í) hefur sýnt og sannað, að slíkt verður ekki gjört á Íslandi nema annaðhvort með miklum kostnaði, tímatöf og erfiðisauka (eins og áður er sagt), eða með því að binda kjörgengi við sýslur og landsfjórðunga. Vjer þorum óhætt að fullyrða, að það er ógjörningur að semja kjörskrár og senda um land allt svo vel fari, þó menn vildu verja til tíma, erfiði og kostnaði, og menn hljóta þá að binda kjörgengi að mestu leyti við kjörþingin, eða að nafninu við landsþriðjungana, eins og nú er á kveðið, ef menn fara að binda kjörgengi við fjáreign. En eru það ekki annmarkar, sem hnekkja haganlegum kosningum að neyða menn til að kjósa samþingismenn sína, eða að minnsta kosti samþriðjungsmenn, þó þeir hafi langtum betra traust á einhverjum utanþingismanni eða utanþriðjungsmanni? Er ekkert varið í allt það amstur og erfiði, sem leiðir af að semja kjörskrár og senda um allt kjörþingið eða allan þriðjunginn, og alla þá fyrirhöfn, sem bökuð er kjósendunum, ef hver þeirra fær ekki eina skrá? Er það að engu teljandi allt það þras, sem orðið getur um á eptir, hvort fulltrúinn sje rjettkjörinn, þegar kjörgengin er bundin við fjáreign? Og eru allar þær riptingar á kosningunum einskisverðar, einkum á fámennu þingi, sem af því geta risið?

Þá er enn eptir að minnast á, hvernig kosningunum sjálfum skuli haga. Í þessari grein er eitt atriði sem miklu máli skiptir: hvort kosningarnar skuli vera einfaldar eða tvöfaldar, það er: hvort kjósendurnir skuli beinlínis velja fulltrúana, eða þeir skuli að eins kjósa kjörmenn,

og kjörmennirnir aptur fulltrúana (brotnari dettur sjálfsagt engum í hug að hafa þær). Melsteð kammerráð hefur komið upp með það, að bezt mundi vera á Íslandi að hafa kosningar tvöfaldar, í frumvarpi því til kanselíisins, sem áður er á minnzt. Höfuðatriði frumvarps þessa eru: að kosningarrjettur skuli vera bundinn við 5 hundraða eign, kjörgengi óbundin við fjáreign, en kosningar tvöfaldar, og sannar frumvarpið engan veginn, að tvöfaldar kosningar sjeu á Íslandi hentugri enn einfaldar, þó það sanni það, er það átti að sanna, að slík kosníngarlög ættu miklu betur við á Íslandi, enn kosningarlög nefndarinnar. Það sem mæla ætti fram með tvöföldum kosningum á Íslandi er tvennt. Annað er, að menn segja kjörmennirnir mundu verða betur hæfir til að sjá landinu haganleg fulltrúaefni, enn hinir fyrstu kjósendur. Melsteð segir, að í hverjum hrepp sjeu optast nær tveir menn eða þrír, prestur og hreppstjóri, ef ekki aðrir, sem skari fram úr öðrum að kunnáttu; þessir menn muni verða valdir til kjörmanna, og þeir muni verða færari um að velja kjörþinginu fulltrúa, enn hinir fyrstu kjósendur, sem sjaldan þekki flestir hverjir utanhreppsmenn til hlítar. Þetta lítur dáindis álitlega út; en vjer erum þó sannfærðir um, að á því sjeu svo miklir anmarkar aðrir, að ekki megi hlíta því. Fyrst er við því að búast, að ef 2 eða 3 kjörmenn eru kosnir fyrir hvern hrepp, muni presturinn ætíð verða einn af kjörmönnunum. Nú þó vjer viljum fegnir hafa prestana í öllum alþingis kosningum, og oss þyki fyrir því mikið órjettvíst, að láta þá verða eins út undan og Reykjavíkur-nefndin hefur gjört, óttumst vjer þó, að ef allir prestar eru á kjörþinginu í hverri sýslu, eða mestur þorri þeirra, og ekki fleiri kjósendur aðrir, enn svo sem tvöfalt fleiri, muni þeir ráða meiru um kosningu alþingismanna enn þeim ber að rjettu lagi. Annar er sá hlutur, sem meira er í varið: að þá mundi verða miklu hægra fyrir metnaðargjarna menn, að ráða við kosningarnar, ef svo fáir menn ættu að kjósa

fulltrúann; og þó ekki þurfi ráð fyrir því að gjöra, að stjórn Dana muni nokkurntíma reyna til að skapa kosningarnar eptir sinni hyggju, væri henni með því móti greidd gata til þess. Fyrir þessa skuld sýnast oss ekki vera meiri líkindi til, að þjóðin fái betri fulltrúa, þó kosningar sjeu tvöfaldar, enn ef þær eru einfaldar. En þar á ofan eru þeir okostir á tvöföldum kosningum, sem að vorri hyggju gjöra þær óhæfar. Þegar menn fara að gjöra sjer það skýrt og skiljanlegt, með hverjum hætti alþingi muni geta borið þá hina blessunarríku ávexti, sem þeir æskja sjer, þá finna menn, að afar mikið er undir því komið, að alþingismennirnir sjeu sem bezt fallnir til starfa síns, en að í það er þó engu minna varið, að þjóðarandinn lifni við, og að sem flestir láti sjer málefni landsins og meðferð þeirra á alþingi sem mestu varða. En ef menn gjöra kosningarnar tvöfaldar, kaupa menn sjer, fyrir harðla stopul líkindi til að fulltrúarnir verði betur kjörnir, öll líkindi til að alþingi verði þjóðinni miklu síður hugfólgið; því það lýsir litilli þekkingu á mannlegu eðli, og er þar á ofan í sjálfu sjer harðla óviðurkvæmilegt, að ætlast til, að menn láti sig það þing nærri eins miklu varða, þar sem þeir eiga svo lítinn þátt í fulltrúakosningunni, og það þing sem þeir kjósa beinlínis til. Þar á ofan er við því að búast, að þegar kosningar eru tvöfaldar, muni opt og tíðum rísa af því óvild millum kjörmanna og kjósenda þeirra, þegar kjörmennirnir kjósa annan fulltrúa, enn þorri kjósendanna mundi hafa viljað. En af því öllu mundi leiða afskiptaleysi af þingstörfunum og ef til vill víða hvar óþeit á þinginu sjálfu. Annað það, sem mæla ætti fram með tvöföldum kosningum á Íslandi er: að kosningarnar skyldu þá verða auðveldari. En á það getum vjer með engu móti fallizt. Því ef kosningar eru einfaldar, og ekki annar kjörstofn á kveðinn, en hjer hefur verið til ætlazt, mættu kosningarnar vel fara fram á manntalsþingum eða hreppaskilaþingum, og er hægt svo um að búa, að kjörin

yrðu með því móti öldungis áreiðanleg. En þetta er sá auðveldasti kosningarháttur, sem orðið getur, á Íslandi. Menn hafa sagt, að þá mundi kosningarnar dreifast um of, og hin meiri kjörþingin fyrir þá skuld ráða meiru um kosningarnar, enn þeim ber eptir tiltölu. Í þessu kann að vera nokkurt tilhæfi, ef þjóðin skiptir sjer lítið um þingið; en fyrir því mega menn ekki gjöra fremur ráð í þessu efni, enn annarstaðar, og ef þjóðinni er nokkuð annt um alþingið, er ástæða þessi með öllu ógild.

Menn eiga því að beiðast þess: **1) að kosningarrjettur verði ekki bundinn við annað enn fjárforráð og óskerta mannvirðing — eða að minnsta kosti ekki við meiri fjáreign enn 5 hundraða; 2) að kjörgengi verði með öllu óbundin við fjáreign, og 3) að kosningar verði látnar vera einfaldar.**

Þó kosningarlögin sjeu máttartrje alþingisskipunarinnar, eru samt nokkur önnur atriði í henni, sem harðla mikið er í varið, og breyta þyrfti; en þau eru eptir eðli sínu óbrotnari og auðveldari viðureignar.

Fyrst má nefna tölu alþingismanna. Að þeir sjeu mikils til of fáir eptir frumvarpi nefndarinnar, hafa allir viðurkennt, og oss er ekki annað kunnugt, enn að allir fallist líka á þingmannatölu þá, sem Balthazar Christensen stakk upp á í Hróarskeldu, og löguð er, að vorri hyggju, í alla staði eptir eðli landsins og ásigkomulagi. Eptir frumvarpi Christensens ætti að kjósa

| | | | |
|---|---|---|---|
| fyrir | Húnavatns-sýslu | 3 | fulltrúa |
| — | Skagafjarðar | 3 | — |
| — | Eyjafjarðar | 3 | — |
| — | Þingeyjar-sýslu syðri | 2 | — |
| — | Þingeyjar-sýslu nyrðri | 1 | — |
| | | 12 | fulltrúa |

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | 12 fulltrúa | |
| fyrir | Norðurmúla-sýslu . . . . . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Suðurmúla-sýslu . . . . . . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Skaptafells-sýslu (með Vestmannaeyjum) | 3 | — |
| — | Rangarvalla-sýslu . . . . . . . . . . . . . | 3 | — |
| — | Árness-sýslu . . . . . . . . . . . . . . . . | 3 | — |
| — | Gullbringu-sýslu og Kjósar (með Reykjavík) | 3 | — |
| — | Borgarfjarðar-sýslu . . . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Mýra-sýslu . . . . . . . . . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Snæfellsness-sýslu . . . . . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Dala-sýslu . . . . . . . . . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Barðastrandar-sýslu . . . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Ísafjarðar-sýslu . . . . . . . . . . . . . . . | 3 | — |
| — | Stranda-sýslu . . . . . . . . . . . . . . . | 1 | — |
| | Yrðu það alls . . . | 42 fulltr. | |

en alþingismenn yrðu 48, ef konungurinn nefnir 6 þeirra. Tvær ástæður hafa verið bornar fram móti slíkum fulltrúafjölda. Önnur er sú, að þá yrðu fleiri alþingismenn á Íslandi eptir tiltölu, enn fulltrúar eru í Danmörku. Þessi ástæða er harðla ljeleg. Að hún er ekki nema hálfsönn varðar hjer litlu, því hitt er nóg, að hún kemur hvergi við. Fulltrúar Dana og fulltrúar Íslendinga eiga ekki að ganga saman til atkvæða, og varðar því hvoruga um tölu annara, og ástæðan er því til einskis annars nýt, enn að sýna hvornig menn eru að leitast við að þrælbinda sig við tilskipanir Dana. Önnur ástæðan er, að þingið yrði þá of kostnaðarsamt. Það er undarlegt, að menn hafa ekki látið sjer fyrir brjósti brenna, að baka mönnum allan þann kostnað, sem af fasteigna kjörskránum leiðir, þó þær sjeu ekki nema til ills eins, en ærast út af kostnaðinum, þegar talað er um að auka fulltrúafjöldann, þótt þeir viðurkenni, að það væri nauðsynlegt. Oss sýnist þess að sönnu aldrei of vandlega gætt, að menn baki ekki landinu kostnað að óþarfa; en það er hvorttveggja, að vjer höldum þingið verði ekki miklum mun kostnaðar-

samara, ef kosið er einsog hjer er stungið upp á, þó alþingismenn sjeu 48, enn það verður með kosningum nefndarinnar, þó þingmenn sjeu ekki nema 26, (einkum ef dregið væri nokkuð af kaupi þingmanna og ferðakostnaði, sem oss þykir nefndin hafa á kveðið heldur ríflega); enda þykis oss það illur sparnaður, að sjá í lítinn kostnað, þegar mikið verður tekið í aðra hönd.

Eitt atriði er það, sem náskilt er þeim tveimur aðalatriðum, sem á er drepið hjer að framan, að menn ættu heldur enga varafulltrúa að kjósa, enn að kjósa þá á þann hátt, að sá verði varafulltrúi, sem flest hefur atkvæði næst fulltrúa sjálfum; því þá kann opt svo að fara, að sá verði fulltrúi sem mestur þorri kjósenda hefði sízt kosið. Til dæmis að taka eru í hverju kjörþingi 50 kjósendur; hefðu 40 þeirra kosið Höskuld, ef ekki hefði verið völ á Njáli, en nú kjósa þeir allir Njál 40 saman. 10 kjósendur hafa kosið Mörð og þó eigi sakir mannkosta. Nú deyr Njáll, og þá verður Mörður fulltrúi, en ekki Höskuldur. Það er þessvegna miklu rjettara, að menn kjósi varafulltrúann beinlínis, þegar þeir hafa kosið fulltrúann. En betra er engan varafulltrúa að kjósa, þegar kosið er til 6 ára, og til þess ber ekki heldur nauðsyn, ef kosningum er svo háttað, sem hjer er ráð fyrir gjört.

Menn eiga því að biðja um, **að þjóðin megi kjósa sjer 42 fulltrúa, en kjósa annaðhvort enga varafulltrúa, eður kjósa þá sjer í lagi.**

Þá eru enn eptir 3 aðalatriði, sem eru harðla mikilvæg. Eitt er hvar þingið eigi að vera, annað á hverja tungu þar skuli mæla, en hið þriðja hvort mæla skal á laun eða í heyranda hljóði; en litla þörf ber til, að fara um þau atriði mörgum orðum. Um hið fyrsta er að sönnu dómum manna nokkuð misjafnt skipt, og hafa jafnvel sumir þeir, sem gott vit hafa á að sjá hag landsins, mælt fram með Reykjavík. En það er hvorttveggja, að

vjer höfum nú ekki tóm til að leitast við að skýra það efni, vegna þess að til þess mundi þurfa, að allt ástand landsins væri grannskoðað, og stefna sú rakin, er þjóðmenning vor ætti að taka, enda erum vjer og sannfærðir um, að óspillt tilfinning landa vorra muni ekki kjósa

"hrafnaþing kolsvart í holti
fyrir haukþing á bergi,"

og að hún muni þar bera sigurinn úr býtum. Vjer viljum ekki heldur meiða þá tilfinningu Íslendinga með að brýna fyrir þeim, hvað það sje óviðurkvæmilegt í alla staði, að ræða þjóðmál Íslendinga á þjóðþingi þeirra í landinu sjálfu á útlenda tungu, og viljum einungis geta þess, að engu stjórnarráði í Danmörku mundi hafa komið til hugar að leyfa, að annarleg tunga væri töluð á þinginu, ef Íslendingar hefðu ekki sjálfir beiðst þess.

Vjer skorum því á landa vora að beiðast þess, **að alþingi verði átt á þingvelli, og allt verði mælt á þinginu á íslensku og í heyranda hljóði.**

Að endingu tökum vjer það fram, sem áður er á drepið, að **menn verða, að** senda almennar bænarskrár til hins fyrsta alþingisfundar um öll þessi atriði. Seinna meir verður allt óhægra við að eiga.

---

## KONUNGSBRJEF og ÞAKKLÆTISSKRÁ.

Áttunda dag apríls í vor sendi konungur bæði rentukammerinu og kanselíinu brjef sitt, þess efnis, að sjerhver, sem vill fá embætti á Íslandi, skuli hafa numið svo mikið í íslenzku, að hann skilji málið að minnsta kosti, og geti komið fyrir sig orði við landsmenn, og

þess vegna skuli þeir, sem beiðast embætta á Íslandi, vera skyldir til, að bera fram áreiðanlega vitnisburði um kunnáttu sína á málinu (sjá *Ny Collegial-Tidende 1844 Nr.,15*).

Íslenzkir bókmenntamenn, sem þá voru staddir hjer í bænum, áttu fund um, að þakka konungi þessa sanngirni og góðvild, er hann hafði auðsýnt fósturjörðu vorri enn að nýju, og var á það fallizt í einu hljóði. Voru þessir menn, hra. etazráð og leyndarskjalavörður, *Dr. philos.* Finnur Magnússon, *Dr. theol.* sjera Pjetur Pjetursson og *Dr. medic. & chirurg.* Jón Hjaltalín, kosnir til að færa konungi þakklætisbrjef þetta:

Allramildasti Herra!

Með reglu þeirri, sem Yðar Hátign hefur kveðið upp í brjefi Yðar áttunda dag þessa mánaðar: að enginn skuli geta orðið embættismaður á Íslandi, nema hann kunni tungu þjóðarinnar, hefur hin mikla speki og göfuglyndi Yðar Hátignar enn sem fyr snortið þann streng í brjóstum þegna Yðar á Íslandi, sem er hljómmestur allra. Hvernig sem móti hefur blásið, og hvernig sem á hefur staðið, hafa Íslendingar elskað af alhuga mál sitt og þjóðerni. Þjóð vor hefur ætíð glögglega fundið með sjálfri sjer, að guðleg forsjá hefur falið henni á hendur, að varðveita hina dýrmætu andlegu auðlegð fornaldar Norðurlanda, og löngun sú og ósk hefur ætíð ríkt í hjörtum manna, og verið hátt upp kveðin af þjóðinni og beztu flutningsmönnum hennar, að hin gamla hetjutunga vor fengi aptur öll rjettindi sín, þá er menn sáu mörg hin mikilvægustu þjóðmálefni vera rædd og rituð, og jafnvel lögskil mælt, á þá tungu sem flestum er ókunn og óskiljandi. Hátign Yðar hefur rutt veginn með voldugri hendi. Hátign Yðar hefur sprett því tunguhapti, sem lengi hefur fjötrað hinar fegurstu hugsanir Íslendinga, og brotið dýflissu þá, er hulið hefur hina dýrmætustu gersemi vora. Frelsi tungunnar mun frelsa andann, og minning Yðar Hátignar mun verða blessuð.

Guðleg forsjá hefur kjörið Yðar Hátign til að ráða úr miklu vandamáli: að vernda ólík þjóðerni, sljetta ójöfnur þær, sem upp eru komnar, og vísa hverri þjóð til sætis í rjettu rúmi. Enginn hefði verið betur kjörinn til slíks vanda. Djúpsæi Hátignar Yðar hefur glögglega skilið þau hin miklu sannindi: að það er ekki efni til skilnaðar, heldur miklu fremur til sambands, og að það veikir ekki, heldur treystir og festir vináttu millum þjóða, eins og milli einstakra manna, ef hverjir kannast við upphafleg rjettindi annara, og láta það á sannast í orði

og verki. Guð almáttugur gefi Hátign Yðar tíma og krapt til að ljúka Yðar mikilvæga ætlunarverki og ávaxta sannindi þessi.

Drottinn blessi margfaldlega Yðar Hátign og allt Yðar konunglega hús.

Kaupmannahöfn, 16. dag apríls-mánaðar 1844.

Allraþegnsamlegast

Finnur Magnússon
etazráð.

P. Pjetursson
*Dr. theol.* og prófastur á Íslandi.

St. Gunlögsen
landfógeti á Íslandi.

Magnús Eiríksson
*cand. theologiæ.*

Þorsteinn Jónsson
*cand. juris.*

Jón Sigurðsson
*cand. philos.*

Grímur Þorgrímsson
*cand. philos.*

Jón Hjaltelin
*Dr. med.*

Oddg. Stephensen
*cand. juris.*

Sigurður Melsteð
*studios. theol.*

Gísli Thórarensen
guðfræðingur.

V. Erichsen
*cand. juris.*

Gunnlaugur Þórðarson
*stud. med. et chir.*

Gísli Jóhannesson
guðfræðingur.

Gísli Magnússon
*stud. philol.*

Sigurður J. G. Hansen
lögfræðingur.

Halldór Kr. Friðriksson
guðfræðingur.

John Johnsen
student.

Vilhjálmur Hlöðver Finsen
lögfræðingur.

Helgi Sigurðsson
lækninga iðkari.

Þorl. Guðm. Repp
túlkr.

John Th. Thoroddsen
*stud. juris.*

Gísli Hjálmarsson
*cand. chir. et med.*

Brynjólfur Snorrason
*stud. theol.*

F. V. B. Thorsteinson
*stud. philos.*

Jens Sigurðsson
guðfræðingur.

Guðmundur Einarsson
guðfræðingur.

Br. Pjetursson
sýslumaður í Skaptafellssýslu.

J. P. Havsteen
*cand. juris.*

S. Ch. P. B. Th. Thorlacius
*cand. philos.*

Konráð Gíslason
*cand. philos.*

Jón Sigurðsson
*stud. theol.*

# BOÐSBRJEF
## um minnisvarða
## eptir sjera TÓMAS SÆMUNDSSON.

Það er hvers góðs manns aðal og einkenni, að vera þakklátur við þá, sem gjört hafa vel til hans eða að minnsta kosti viljað honum vel. Svo er það og ekki síður fagurt og viðurkvæmilegt, að fjelög manna láti þakkir í tje við þá, sem til þess hafa unnið. Þó eru aldrei fegri þakkir goldnar, enn þegar heil þjóð, hvort sem hún er stór eða smá, færir af heilum hug þekkar þakklætisfórnir yfir moldum framliðins manns.

Á Íslandi munu trautt finnast dæmi til, að neinn maður hafi viljað betur fósturlandi sínu, enn sjera Tómas Sæmundsson. Frá því hann var barnungur að aldri, og þar til er hann leið úr lífi í blóma aldurs síns, var hugur hans sífeldlega á kjörum og ástandi ættjarðar sinnar, og þegar hann var fullkominn að aldri og þroska, varði hann til fje og fjörvi, að vinna það, sem þarfast er landi og lýðum; en það er, að koma oss í skilning um, hversu þjóð vor sje á vegi stödd í raun og veru og hversu mjög henni sje ábótavant — því hver getur bætt úr þeim hlutum, er hann hyggur ekki þurfa umbótar við? Ýmsir af vinum sjera Tómasar, bæði hjer og á Íslandi, hafa því haft í huga og rætt um sín á milli, bæði munnlega og brjeflega, hversu það væri tilhlýðilegt og æskilegt í alla staði, að honum yrði reist eitthvert minningarmark af sameiginlegum kostnaði allra vina hans og ættjarðar sinnar.

Við þetta stóð, þegar vjer urðum þess vísir, að ekkjan var í undirbúningi með að fá legstein yfir hann. En þar eð menn sáu, að þetta mundi svipta burt tækifærinu til að sæma minningu hans á þann hátt, sem helzt hafði verið ætlað og beinast liggur við, þá urðu nokkrir til, að beitast fyrir málið og bera það upp við landa vora hjer í borginni og í grennd við hana, en allir hafa gjört að því bezta

róm, sem von var að, og heitið fúslega tillögum Síðan vorum vjer fimm kosnir í nefnd, til að sjá um, að fyrirrætlun þessi verði framkvæmd. Sendum vjer nú brjef þetta til Íslands, svo að öllum, er vilja, veitist kostur á, að eiga þátt í með oss, að reisa minnisvarða eptir sjera Tómas heitinn. En-því að vjer kunnum veglyndi landsmanna, og oss uggir, að mörgum muni þykja ekkert framlag betra, enn lítið eitt, þá verðum vjer að biðja menn gæta hjer að málavöxtum; því það er meiri sómi fyrir hinn framliðna, að tala tilleggjenda verði sem stærst, enn að hver leggi sem mest til; er og það mála sannast, að lítið má, ef gott vill, og svo ekki síður, að margar hendur vinna ljett verk. Eru tilmæli vor við þá alla, sem auglýsingarbrjef þessi verða send, að þeir veiti þeim góðfúslega viðtöku, gefi sem flestum tækifæri til að rita á þau nafn sitt og tillag, og sendi síðan að hausti komandi bæði brjefin og tillögin annaðhvort hra. *cand. jur.* Kristjáni Kristjánssyni í Reykjavík eða einhverjum í tölu sjálfra vor. Er þá svo til ætlað um minnisvarðann, að hann verði telgdur og klappaður að vetri komandi og sendur heim að vordögum 1845. Verði nokkuð afgangs af kostnaðinum, þá skal því á einhvern hátt verða varið til sæmdar og minningar við sjera Tómas. Svo skal og, þegar þar að kemur, verða samin skýrsla um allt þetta efni og gjörð grein fyrir hverjum peningi, sem oss kann í hendur að berast.

Kaupmannahöfn, 31. marz 1844.

***Konráð Gislason.*** ***G. Thórarensen.***
***Brynjólfur Pjetursson.*** ***Gisli Magnússon.***
***Jón Sigurðsson.***

---

